# HARRY POTTER

# OG

# VISKUSTEINNINN

1/7

EFTIR

J. K. ROWLING

# Fyrsti kafli

# Drengurinn sem lifði af

Dursleyhjónin á Runnaflöt númer fjögur hreyktu sér gjarnan af því að vera sérdeilis og algerlega eðlilegt fólk. Engan hefði grunað að þau væru flækt í eitthvað skrítið eða dularfullt, því svoleiðis vitleysu kærðu þau sig ekki um.

Herra Dursley var forstjóri stórrar verksmiðju sem hét Grunning og framleiddi borvélar. Hann var feitlaginn maður, næstum hálslaus en með gríðarmikið yfirvaraskegg. Frú Dursley var grönn og ljóshærð, með háls sem var næstum tvöfalt lengri en á venjulegu fólki. Það kom sér mjög vel þar sem hún varði löngum stundum í að njósna um nágrannana yfir limgerðið. Dursleyhjónin áttu lítinn dreng að nafni Dudley sem að þeirra mati átti engan sinn líka.

Dursleyhjónin voru vel stæð og áttu allt sem hugurinn girntist, en þar að auki áttu þau leyndarmál sem þau óttuðust mjög að yrði afhjúpað. Þeim fannst óbærilegt til þess að

hugsa að einhver kæmist að leyndarmálinu um Potterfjölskylduna. Frú Potter var systir frú Dursley sem hún hafði ekki séð í mörg ár. Raunar lét frú Dursley eins og hún ætti enga systur, af því að ólíkari Dursleyhjónunum gátu systirin og ónytjungurinn maðurinn hennar ekki verið. Dursleyhjónin hryllti við tilhugsuninni um hvað nágrannarnir segðu ef Potterfjölskyldan kæmi í hverfið þeirra. Þeim var kunnugt um að Potterhjónin áttu lítinn son sem þau höfðu aldrei séð. Sá drengur var enn ein ástæðan fyrir því að halda Potterfjölskyldunni í fjarlægð, Dudley mátti alls ekki umgangast strák af hans sauðahúsi.

Þegar Dursleyhjónin vöknuðu þennan gráa og dauflega fimmtudagsmorgun þegar saga okkar hefst var ekkert á skýjuðum himninum sem gaf til kynna að um allt land væru skrítnir og dularfullir atburðir um það bil að gerast. Herra Dursley raulaði um leið og hann klæddi sig og valdi sviplausasta bindið til að kóróna verkið. Frú Dursley blaðraði án afláts og barðist við að koma Dudley, sem öskraði hástöfum, í barnastólinn.

Hvorugt þeirra tók eftir stórri, brúnni uglu sem flögraði framhjá glugganum.

Klukkan hálfníu greip herra Dursley skjalatöskuna sína, klappaði frú Dursley á kinnina og reyndi að kyssa Dudley bless. Hann hitti ekki, því Dudley var í miðju bræðiskasti og fleygði morgunkorninu sínu í vegginn. „Litli brjálæðingur,“ muldraði herra Dursley stoltur um leið og hann gekk út úr húsinu. Hann settist inn í bílinn og bakkaði út úr innkeyrslunni.

Á götuhorninu sáust fyrstu merki þess að eitthvað undarlegt væri á seyði. Þar stóð köttur og las á götukort. Eitt augnablik gerði herra Dursley sér ekki grein fyrir því sem hann hafði séð en svo snarsneri hann höfðinu til að athuga þetta nánar. Það var bröndóttur köttur á horninu en ekkert götukort sjáanlegt. Hvað hafði hann eiginlega verið að hugsa? Þetta hlaut að vera birtunni að kenna. Herra Dursley deplaði augunum og starði á köttinn. Hann starði á móti. Herra Dursley hafði auga með kettinum í baksýnisspeglinum um leið og hann ók fyrir hornið og áfram eftir götunni. Nú stóð kattarræksnið og las á skiltið sem á stóð Runnaflöt – nei, horfði á það, kettir geta ekki lesið á götukort og skilti. Herra Dursley hristi höfuðið og leiddi hugann að öðru. Á leiðinni inn í borgina snerust hugsanir hans eingöngu um stóra pöntun af borvélum sem hann átti von á að fá senda í dag.

Þegar hann ók inn í miðbæinn viku þær hugsanir fyrir öðru. Þar sem hann sat eins og venjulega fastur í morgunumferðinni gat hann ekki annað en veitt því eftirtekt að óvenjumargt sérkennilega klætt fólk var á ferðinni. Fólk í skikkjum. Herra Dursley þoldi ekki fólk sem klæddi sig í furðuleg föt – múnderingarnar á unga fólkinu nú til dags! Þetta hlaut að vera enn ein fáránlega tískubólan. Hann trommaði með fingrunum á stýrið og rak augun í hóp af þessum vitleysingum sem stóðu skammt frá. Þeir hvísluðust á og voru greinilega í miklu uppnámi. Herra Dursley varð bálreiður þegar hann sá að þetta var alls ekki ungt fólk. Einn þeirra, klæddur smaragðsgrænni skikkju, leit meira að segja út fyrir að vera eldri en hann sjálfur. Sá var ekki banginn! En svo rann upp fyrir honum að þetta væri einhvers konar söfnun – þetta fólk var greinilega að styrkja eitthvert málefni … já, það hlaut að vera. Það komst hreyfing á umferðina og nokkrum mínútum síðar keyrði herra Dursley inn á bílastæði Grunningverksmiðjunnar. Hugur hans var nú aftur bundinn við borvélar.

Herra Dursley sat alltaf með bakið í gluggann á skrifstofunni sinni á níundu hæð. Ef hann hefði snúið andspænis glugganum er ekki víst að hann hefði getað einbeitt sér að borvélum þennan morguninn. Hann tók ekki eftir uglunum

sem flögruðu um á hábjörtum degi. Það gerði fólkið á götunum aftur á móti. Það benti og starði gapandi á hverja ugluna á fætur annarri fljúga hjá. Flestir höfðu ekki einu sinni séð uglu að nóttu til. En hjá herra Dursley var þessi morgunn á engan hátt frábrugðinn öðrum og að auki laus við allar uglur. Hann öskraði á fimm starfsmenn, afgreiddi nokkur mikilvæg símtöl og öskraði aðeins meira við það tækifæri. Hann var í mjög góðu skapi uns hann ákvað að skreppa út í hádeginu til að teygja úr sér og kaupa sér bollu hjá bakaranum hinum megin við götuna.

Hann hafði steingleymt skikkjuklædda fólkinu þar til hann gekk fram á heilan hóp sem stóð við hliðina á bakaríinu. Hann setti í brýnnar þegar hann gaut til þeirra augunum um leið og hann gekk framhjá þeim. Af einhverjum ástæðum vöktu þau með honum óróleika. Þau hvísluðust líka á í æsingi og hann kom ekki auga á einn einasta söfnunarbauk. Þegar hann gekk framhjá hópnum á leiðinni til baka, með risastóran kleinuhring í poka, heyrði hann orð og orð á stangli.

„Potterfjölskyldan, einmitt, ég frétti það líka …“

„Já, Harry, sonur þeirra …“

Herra Dursley fraus í sporunum. Óttinn helltist yfir hann. Hann leit aftur á hópinn eins og hann langaði til að segja eitthvað en hætti við. Hann rauk yfir götuna og flýtti sér upp á skrifstofuna sína. Hann skipaði einkaritaranum að láta sig í friði, greip símtólið og var næstum búinn að velja númerið heima hjá sér þegar honum snerist hugur. Hann lagði símtólið á og strauk yfirvaraskeggið djúpt hugsi … Nei, þetta var bara vitleysa í honum. Potter var frekar algengt nafn. Hann var viss um að fullt af fólki bar eftirnafnið Potter og átti jafnvel son sem hét Harry. Þegar hann hugsaði nánar út í það var hann alls ekki svo viss um að frændinn héti yfirleitt Harry. Hann hafði ekki einu sinni séð drenginn. Það gat verið að hann héti Harvey. Eða kannski Harold. Það var engin ástæða til að valda frú Dursley óþörfum áhyggjum. Hún komst alltaf í svo mikið uppnám þegar minnst var á systur hennar. Hann láði henni það ekki – ef hann ætti svona systur … En samt sem áður, allt þetta skikkjuklædda fólk …

Hann átti mun erfiðara með að einbeita sér að borvélum eftir hádegið. Þegar hann yfirgaf verksmiðjuna klukkan fimm var hann enn svo þungt hugsi að hann gekk beint í flasið á gömlum manni fyrir utan dyrnar.

„Fyrirgefðu,“ rumdi hann, þegar lágvaxni öldungurinn hrasaði og var næstum dottinn. Andartaki síðar gerði herra Dursley sér grein fyrir að maðurinn var klæddur í purpuralita skikkju. Hann virtist allt annað en leiður yfir að vera næstum genginn um koll. Þvert á móti varð andlitið eitt bros og vegfarendur ráku upp stór augu þegar hann hóf upp skræka röddina: „Ekki nefna það, minn kæri, ekkert gæti komið mér úr jafnvægi í dag! Gleðjumst, því nú er Þú-veist-hver loksins horfinn á braut! Jafnvel Muggi eins og þú ættir að halda upp á þennan gleðidag!“

Og gamli maðurinn faðmaði herra Dursley og gekk í burtu. Herra Dursley stóð eins og negldur. Bláókunnugur maður hafði faðmað hann. Hann rámaði líka í að maðurinn hafði kallað hann Mugga, hvað sem það nú var. Þetta setti hann alveg út af laginu. Hann flýtti sér að bílnum og ók af stað heim. Hann vonaði að þetta væri allt saman ímyndun. Það hafði hann aldrei gert áður því hann var almennt á móti hvers kyns hugarórum.

Það fyrsta sem hann sá þegar hann beygði inn í innkeyrsluna á húsi númer fjögur var bröndótti kötturinn sem hann hafði séð um morguninn. Það var ekki til að bæta skapið. Nú sat

hann á garðveggnum hans. Hann var viss um að þetta var sá sami; rendurnar í kringum augun voru eins.

„Burt!“ sagði herra Dursley hárri röddu.

Kötturinn hreyfði sig ekki. Hann horfði bara á hann með ströngu augnaráði. Herra Dursley velti því fyrir sér hvort þetta væri eðlileg hegðun katta. Hann reyndi að róa sig niður um leið og hann opnaði húsdyrnar heima hjá sér. Hann var ennþá ákveðinn í að minnast ekki á þetta einu orði við konuna sína.

Hjá frú Dursley hafði dagurinn verið ágætur eins og flestir aðrir dagar. Yfir kvöldmatnum sagði hún honum frá vandræðum nágrannans með dóttur sína og nýju orðunum sem Dudley hafði lært í dag („vil’kki“). Herra Dursley reyndi að láta eins og ekkert væri. Þegar Dudley var kominn í rúmið fór herra Dursley inn í stofu til að ná síðustu frétt kvöldsins.

„Eitt að lokum: Fuglaskoðarar hafa skýrt frá því að uglur landsins hafi hegðað sér mjög óvenjulega í dag. Þrátt fyrir að uglur veiði venjulega um nætur og sjáist mjög sjaldan í dagsljósi hafa borist hundruð tilkynninga um að þessir fuglar hafi sést fljúga í allar áttir síðan við sólarupprás. Sérfræðingar hafa ekki getað útskýrt þessa miklu breytingu á svefnmynstri

uglanna.“ Fréttaþulurinn leyfði sér að glotta. „Mjög dularfullt. En snúum okkur nú að veðrinu hjá Jim McGuffin. Rignir fleiri uglum yfir okkur í kvöld, Jim?“

„Ja,“ sagði veðurfræðingurinn, „ég er nú ekki viss um það, Ted, en það eru ekki bara uglurnar sem hafa hegðað sér einkennilega í dag. Áhorfendur nær og fjær hafa hringt til að láta vita af því að í staðinn fyrir rigninguna sem ég lofaði í gær hefur himinninn logað í stjörnuhröpum! Kannski hefur fólk verið að fagna sólstöðuhátíðinni snemma þetta árið – en hún er ekki fyrr en í næstu viku, gott fólk! En ég get lofað því að það verður vætusamt í nótt.“

Herra Dursley sat sem lamaður í hægindastólnum sínum. Stjörnuhrap yfir öllu Bretlandi? Fljúgandi uglur um hábjartan dag? Dularfullt fólk í skikkjum? Og svo var hvískrað um fjölskyldu að nafni Potter …

Frú Dursley kom inn í stofuna með tvo bolla af tei. Þetta gat ekki gengið lengur. Hann varð að segja eitthvað við hana. Hann ræskti sig taugaóstyrkur. „Hérna – Petunia mín – hefurðu nokkuð heyrt frá systur þinni nýlega?“

Eins og hann bjóst við varð frú Dursley bæði hrædd og reið á svipinn. Þegar allt kom til alls var þögult samkomulag þeirra á milli um að láta eins og hún ætti enga systur.

„Nei," sagði hún hvasst. „Af hverju?"

„Einhver della í fréttunum," tautaði herra Dursley. „Uglur … stjörnuh rap … og fullt af furðulega klæddu fólki í bænum í dag …"

„Og?" hvæsti frú Dursley.

„Ja, mér datt í hug að … kannski … tengdist þetta eitthvað … þú veist … fólkinu hennar."

Frú Dursley sötraði teið sitt. Herra Dursley velti því fyrir sér hvort hann ætti að þora að minnast á að hann hefði heyrt nafnið Potter nefnt. Hann ákvað að sleppa því. Í staðinn sagði hann eins kæruleysislega og hann gat: „Er sonur þeirra ekki á aldur við Dudley?" „Ég geri ráð fyrir því," sagði frú Dursley stirðlega.

„Hvað heitir hann aftur? Howard, er það ekki?"

„Harry. Ömurlegt og ómerkilegt nafn, að mínu mati.“

„Já, einmitt,“ sagði herra Dursley og fann hjartað sökkva alveg ofan í maga. „Ég er hjartanlega sammála.“

Hann minntist ekki á þetta öðru orði þegar þau fóru upp í svefnherbergi. Á meðan frú Dursley var inni á baðherberginu læddist herra Dursley að svefnherbergisglugganum og gægðist út í fremri garðinn. Kötturinn var þarna ennþá. Hann starði niður eftir Runnaflöt eins og hann væri að bíða eftir einhverju.

Var þetta ímyndun í honum? Gat verið að þetta tengdist allt saman Potterfjölskyldunni? Ef svo var … ef upp kæmist að þau væru tengd svona fólki … Nei, hann myndi ekki afbera það.

Dursleyhjónin fóru í rúmið. Frú Dursley sofnaði fljótlega en herra Dursley lá andvaka og hugleiddi þetta allt saman. Áður en hann sofnaði huggaði hann sig við að þótt Potterfjölskyldan væri flækt í þetta hefði hún enga ástæðu til að angra hann og frú Dursley. Potterh jónin vissu fullvel hvaða álit Dursleyhjónin höfðu á þeim og þeirra líkum … Honum var

fyrirmunað að sjá hvernig þau Petunia gætu flækst í það sem var að gerast. Hann geispaði og sneri sér á

hina hliðina. Þetta gat ekki komið þeim við … En þar skjátlaðist honum.

Herra Dursley sofnaði óværum svefni en kötturinn á veggnum sýndi engin merki um þreytu. Hann sat kyrr eins og stytta og starði, án þess að depla auga, á hornið við endann á Runnaflöt. Hann bærði ekki á sér þegar bílhurð var skellt í næstu götu. Hann virtist heldur ekki taka eftir því þegar tvær uglur flugu rétt yfir höfði hans. Reyndar var næstum komið miðnætti þegar kötturinn hreyfði sig loksins.

Á horninu sem kötturinn hafði haft auga með kom maður í ljós. Hann birtist svo snögglega og hljóðlega að það var næstum eins og hann hefði sprottið upp úr jörðinni. Rófan á kettinum sveiflaðist til og augun urðu að litlum rifum.

Ekkert í líkingu við þennan mann hafði áður sést á Runnaflöt. Hann var hár, grannur og mjög gamall ef dæma mátti af silfurgráu hárinu og skegginu sem hvort tveggja var svo sítt að hann hefði getað smeygt því undir beltið. Hann var í skósíðum klæðum. Purpuralit skikkjan dróst eftir jörðinni og á

hælaháum stígvélunum var gyllt spenna. Blá augu hans voru björt og leiftrandi á bak við gleraugun og nef hans var langt og bogið eins og það hefði brotnað að minnsta kosti tvisvar sinnum. Þessi maður hét Albus Dumbledore.

Albus Dumbledore virtist ekki gera sér neina grein fyrir því að hann var kominn í hverfi þar sem allt sem honum viðkom, frá nafninu hans til stígvélanna, var illa séð. Hann var upptekinn af því að róta í skikkju sinni í leit að einhverju. Þó virtist hann gera sér grein fyrir að fylgst var með honum, því allt í einu leit hann upp og á köttinn sem starði enn á hann frá hinum enda götunnar. Einhverra hluta vegna virtist sú sjón skemmta honum. „Ég hefði mátt vita þetta,“ muldraði hann með sjálfum sér og hló.

Hann fann loks það sem hann leitaði að í innri vasanum. Það leit út eins og silfraður sígarettukveikjari. Hann opnaði hann, hóf hann á loft og smellti. Það slökknaði á næsta ljósastaur með litlum hvelli. Hann smellti aftur – og umhverfis þarnæsta ljósastaur varð myrkur. Hann smellti tólf sinnum þar til einu ljósin sem loguðu í allri götunni voru tveir pínulitlir deplar í fjarlægð. Það voru augu kattarins sem fylgdist með honum. Vel þjálfuð augu frú Dursley hefðu ekki einu sinni getað greint neitt af því sem fram fór niðri á gangstéttinni. Dumbledore

setti kveikjarann aftur í vasann og gekk áleiðis eftir götunni að húsi númer fjögur. Þegar þangað var komið settist hann á garðvegginn við hliðina á kettinum. Hann leit ekki á hann en eftir augnablik tók hann til máls.

„Gaman að sjá þig hér, McGonagall prófessor.“

Hann sneri sér við til að brosa til þess bröndótta, en hann var horfinn. Þess í stað brosti hann til frekar þungbúinnar konu með ferhyrnd gleraugu. Þau voru nákvæmlega eins í laginu og rendurnar í kringum augu kattarins. Hún var líka í kyrtli, smaragðsgrænum á litinn. Svart hárið var tekið saman í þéttan hnút. Hún var greinilega ergileg. „Hvernig vissirðu að þetta var ég?“ spurði hún.

„Kæri prófessor, ég hef aldrei áður séð kött sitja svona stífan og hreyfingarlausan.“

„Þú værir líka orðinn stífur ef þú hefðir setið á múrsteinsvegg heilan dag,“ svaraði McGonagall prófessor.

„Heilan dag? Þú sem hefðir getað verið að skemmta þér! Ég fór framhjá fjöldanum öllum af veislum og gleðskap á leiðinni hingað.“ McGonagall prófessor hnussaði reiðilega.

„Einmitt, það eru allir að skemmta sér, það vantar ekki,“ sagði hún óþolinmóð.

„Maður hefði nú haldið að fólk yrði dálítið varkárt, en nei – meira að segja Muggarnir hafa veitt því eftirtekt að eitthvað er að gerast. Það var í fréttunum þeirra.“ Hún hnykkti höfðinu í átt að myrkvuðum stofugluggum Dursleyhjónanna. „Ég heyrði það. Hópar af uglum … stjörnuhröp … nú, Muggarnir eru ekki alvitlausir. Þeir hlutu að taka eftir einhverju. Stjörnuhrap alveg uppi í Kent – ég er viss um að Dedalus Diggle hefur verið þar að verki. Hann hefur aldrei verið sérstaklega gáfaður.“

„Þú getur ekki álasað þeim,“ sagði Dumbledore blíðlega. „Við höfum haft sáralítið til að gleðjast yfir síðastliðin ellefu ár.“

„Ég veit það,“ sagði McGonagall prófessor pirruð. „Það er samt engin ástæða til að missa stjórn á sér. Fólk er blátt áfram kærulaust, úti á götunum um hábjartan dag og skiptist á kjaftasögum. Það er ekki einu sinni klætt eins og Muggar.“

Hún leit hvasst á Dumbledore, eins og hún biði eftir að hann segði henni eitthvað, sem hann gerði ekki, svo hún hélt

áfram: „Það væri dálaglegt ef Muggarnir uppgötvuðu allt sama dag og Þú-veist-hver virðist vera horfinn. Hann er í alvöru horfinn, er það ekki, Dumbledore?“

„Það lítur svo sannarlega út fyrir það,“ sagði Dumbledore, „við getum verið þakklát fyrir það. Langar þig í sítrónukrap?“
„Í hvað?“

„Sítrónukrap. Það er Muggaeftirréttur sem ég er orðinn mjög hrifinn af.“

„Nei, takk,“ sagði McGonagall prófessor kuldalega, eins og henni þætti þetta ekki rétti tíminn fyrir sítrónukrap. „Eins og ég sagði, þó að Þú-veist-hver sé horfinn …“

„Kæri prófessor, skynsöm manneskja eins og þú hlýtur að geta nefnt hann á nafn. Öll þessi Þú-veist-hver-vitleysa – í ellefu ár hef ég reynt að fá fólk til að kalla hann sínu rétta nafni: Voldemort.“ McGonagall prófessor hrökk við en Dumbledore var önnum kafinn við að opna bikar af sítrónukrapi og virtist ekki taka eftir neinu.

„Það er svo ruglingslegt ef við segjum alltaf Þú-veist-hver. Ég hef aldrei skilið hvað er svona hættulegt við að nefna Voldemort sínu rétta nafni.“

„Ég veit að þú hefur ekki skilið það,“ sagði McGonagall prófessor með samblandi af gremju og aðdáun. „Þú ert líka öðruvísi. Það vita allir að þú ert sá eini sem Þú-veist – ég meina Voldemort – var hræddur við.“

„Nú ertu að skjalla mig,“ sagði Dumbledore rólega. „Voldemort býr yfir mætti sem ég mun aldrei öðlast.“

„Það er bara vegna þess að þú ert of – ja – heiðarlegur til að notfæra þér hann.“

„Ég er feginn að það er dimmt. Ég hef ekki roðnað svona síðan fröken Pomfrey trúði mér fyrir því að henni þættu nýju eyrnaskjólin mín falleg.“

McGonagall prófessor horfði stíft á Dumbledore og sagði: „Uglurnar eru ekkert miðað við orðróminn sem er í gangi. Veistu um hvað allir eru að tala? Hvers vegna hann er horfinn? Og hvað stöðvaði hann að lokum?“

Svo virtist sem hún væri komin að því sem henni lá þyngst á hjarta, hinni raunverulegu ástæðu þess að hún hafði setið og beðið á hörðum og köldum múrvegg allan daginn, því að hvorki sem köttur né kona hafði hún starað jafn stíft á Dumbledore áður. Það var ljóst að hvað sem hæft var í orðróminum ætlaði hún ekki að trúa því fyrr en Dumbledore segði henni sannleikann. Dumbledore var hins vegar upptekinn við að borða meira sítrónukrap og svaraði ekki.

„Það er sagt," hélt hún ótrauð áfram, „að Voldemort hafi birst skyndilega í Godricsdal í gær. Hann fór heim til Potterfjölskyldunnar. Sagan segir að Lily og James Potter séu – séu – að þau séu dáin."

Dumbledore hneigði höfuðið. McGonagall prófessor greip andann á lofti.

„Lily og James … ég trúi þessu ekki … ég vildi ekki trúa þessu … ó, Albus …"

Dumbledore teygði út höndina og klappaði henni á öxlina. „Ég veit, ég veit …" sagði hann þunglega.

Rödd McGonagall prófessors skalf þegar hún hélt áfram: „Þetta er ekki það eina. Það er sagt að hann hafi reynt að drepa son Potterhjónanna, Harry. En – honum hafi ekki tekist það. Hann gat ekki drepið litla drenginn. Enginn veit hvers vegna, en það er sagt að þegar honum mistókst að drepa Harry Potter hafi hann glatað mættinum – og þess vegna sé hann horfinn.“ Dumbledore kinkaði dapurlega kolli.

„Er þetta – er þetta satt?“ stamaði McGonagall prófessor. „Eftir allt sem hann hefur gert … allt fólkið sem hann hefur drepið … tókst honum þá ekki að drepa lítinn dreng? Það er alveg stórfurðulegt … hugsa sér að lítill drengur skuli hafa getað stöðvað hann … en hvernig í ósköpunum lifði Harry þetta af?“

„Við getum aðeins getið okkur þess til,“ sagði Dumbledore. „Ef til vill fáum við aldrei að vita sannleikann.“

McGonagall dró fram blúnduvasaklút og þerraði augun á bak við gleraugun. Dumbledore saug hraustlega upp í nefið um leið og hann dró gullúr upp úr vasa sínum og skoðaði það gaumgæfilega. Þetta var mjög sérkennilegt úr. Það hafði tólf vísa en engar tölur; í staðinn færðust litlar plánetur meðfram brún úrskífunnar. Það hafði samt greinilega einhverja

merkingu fyrir Dumbledore, því að hann stakk því aftur í vasann og sagði: „Hagrid er of seinn. Það hefur líklega verið hann sem sagði þér að ég yrði hérna, er það ekki?“

„Jú,“ sagði McGonagall prófessor. „En þú ætlar víst ekki að segja mér af hverju í ósköpunum þú ert staddur einmitt hérna?“

„Ég kom til að fara með Harry til frænda síns og frænku. Þau eru einu ættingjarnir sem hann á að núna.“

„Það getur ekki verið. Þú getur ekki verið að tala um fólkið sem býr hérna?“ hrópaði McGonagall, hentist á fætur og benti í átt að númer fjögur. „Dumbledore – það geturðu ekki gert. Ég hef fylgst með þeim í allan dag. Það fólk er vandfundið sem er ólíkara okkur en þau. Og þessi sonur þeirra – ég sá hann sparka í mömmu sína upp eftir allri götunni, öskrandi á sælgæti. Á Harry Potter að búa við þetta?“

„Þetta er besti staðurinn fyrir hann,“ sagði Dumbledore ákveðinn.

„Frændi hans og frænka munu geta útskýrt allt fyrir honum þegar hann verður eldri. Ég skrifaði þeim bréf.“

„Bréf?“ endurtók McGonagall prófessor dauflega og settist aftur á garðvegginn. „Helldurðu virkilega að þú getir útskýrt þetta allt í einu bréfi? Þetta fólk á aldrei eftir að skilja hann! Hann verður frægur – lifandi goðsögn. Það kæmi mér ekki á óvart þó að dagurinn í dag yrði framvegis nefndur Harry Potter-dagurinn. Það verða skrifaðar bækur um Harry, hvert einasta barn í okkar heimi mun þekkja nafnið hans!“

„Einmitt,“ sagði Dumbledore og horfði mjög alvarlegur yfir brún gleraugnanna. „Það er nóg til að gera hvern dreng vitlausan. Frægur áður en hann er búinn að læra að ganga eða tala! Frægur fyrir eitthvað sem hann man ekkert eftir! Þú hlýtur að sjá að hann er betur settur ef hann elst upp þar sem enginn þekkir hann þar til hann er reiðubúinn að takast á við þetta.“

McGonagall prófessor opnaði munninn en snerist hugur, kyngdi og sagði síðan: „Já, auðvitað, þú hefur rétt fyrir þér. En hvernig kemurðu drengnum hingað, Dumbledore?“ Hún starði rannsakandi á skikkjuna hans eins og hún byggist við að hann hefði Harry þar í felum á milli fellinganna.

„Hagrid kemur með hann.“

„Heldurðu að það sé … viturlegt … að treysta Hagrid fyrir svona mikilvægu verkefni?“

„Ég myndi treysta Hagrid fyrir lífi mínu,“ sagði Dumbledore.

„Ég veit að hann hefur hjartað á réttum stað,“ sagði McGonagall prófessor treglega, „en þú verður að viðurkenna að hann er dálítið kærulaus. Hann hefur tilhneigingu til að – hvað var þetta?“

Lágar drunur rufu kyrrðina í kringum þau. Þær urðu sífellt hærri á meðan þau litu upp og niður eftir götunni og skimuðu eftir bílljósum. Drunurnar urðu að miklum gný um leið og þau beindu sjónum sínum upp í loftið – og risastórt mótorhjól féll ofan af himninum og lenti á götunni fyrir framan þau.

Þó að mótorhjólið væri gríðarlega stórt var það ekkert miðað við manninn sem sat klofvega á því. Hann var næstum helmingi hærri en venjulegur maður og að minnsta kosti fimm sinnum breiðari. Hann virtist einfaldlega óleyfilega stór og í þokkabót líktist hann villimanni með sítt, svart hár sem stóð í allar áttir og skegg sem huldi mestallt andlitið. Hendurnar á honum voru á stærð við ruslatunnulok og fæturnir, sem voru

klæddir leðurstígvélum, líktust mest litlum höfrungum. Í gríðarstórum, vöðvastæltum örmum sínum bar hann böggul vafinn inn í teppi.

„Loksins, Hagrid,“ sagði Dumbledore og var auðsjáanlega létt. „Hvar náðirðu í þetta mótorhjól?“

„Fékk það lánað, herra Dumbledore prófessor,“ svaraði risinn um leið og hann steig varlega af mótorhjólinu. „Sirius Black hinn ungi lánaði mér það. Hérna er Harry, herra minn.“

„Gekk allt vel?“

„Já, herra – húsið var næstum gjöreyðilagt en ég náði honum út rétt áður en Muggarnir flykktust að. Hann sofnaði á leiðinni yfir Bristol.“

Dumbledore og McGonagall prófessor beygðu sig yfir teppahrúguna. Inni í henni mátti greina andlit lítils drengs sem steinsvaf. Undir kolsvörtum hárbrúski sem lá fram á ennið var furðulegt ör sem var til að sjá eins og elding.

„Var það þarna sem …?“ hvíslaði McGonagall prófessor.

„Já,“ sagði Dumbledore. „Hann mun alltaf bera þetta ör.“

„Gastu ekkert gert við þessu, Dumbledore?“

„Ég myndi ekki gera það þótt ég gæti. Ör geta komið í góðar þarfir. Ég er sjálfur með eitt, fyrir ofan vinstra hnéð, sem er fullkomið kort af neðanjarðarlestarkerfinu í London. Jæja, réttu mér hann, Hagrid – við skulum ljúka þessu af.“

Dumbledore tók Harry í fangið og tók stefnuna að húsi Dursleyfjölskyldunnar.

„Mætti ég – mætti ég kveðja hann, herra?“ spurði Hagrid.

Hann beygði stórt og úfið höfuðið yfir böggulinn og gaf honum skeggjaðan rembingskoss. Svo lyfti hann höfðinu og ýlfraði eins og særður hundur.

„Uss!“ sussaði McGonagall prófessor. „Þú vekur Muggana!“

„F-f-fyrirgefðu,“ kjökraði Hagrid, dró fram stóran, blettóttan vasaklút og gróf andlitið í honum. „En ég þ-þ-þoli þetta ekki – Lily og James eru dáin – og aumingja Harry litli þarf að búa hjá Muggunum.“

„Já, ég veit að þetta er allt saman mjög sorglegt, en hertu þig nú upp, Hagrid, annars finnur okkur einhver,“ hvíslaði McGonagall prófessor og klappaði Hagrid varlega á höndina. Dumbledore steig yfir lágan garðvegginn og gekk að útidyrunum. Hann lagði Harry mjúklega á dyraþrepið. Síðan dró hann bréf fram úr skikkjunni, smeygði því á milli teppanna og sneri svo aftur til hinna. Í heila mínútu stóðu þau öll þrjú og virtu fyrir sér litla böggulinn. Axlirnar á Hagrid skulfu, McGonagall prófessor deplaði augunum ótt og títt og blikið sem venjulega skein úr augum Dumbledore virtist hafa dofnað.

„Jæja,“ sagði Dumbledore loks. „Það var nú það. Við höfum ekkert að gera hér lengur. Við getum allt eins farið og tekið þátt í hátíðahöldunum.“

„Já,“ sagði Hagrid hálfkæfðri röddu. „Ég ætla að skila Siriusi hjólinu. Góða nótt, McGonagall prófessor – herra Dumbledore prófessor.“

Hagrid vatt sér á bak hjólinu og þerraði útgrátin augun með jakkaerminni. Hann setti hjólið í gang og með miklum gný tókst það á loft og hvarf út í nóttina.

„Við sjáumst að líkindum fljótlega, McGonagall prófessor,“ sagði Dumbledore og kinkaði til hennar kolli. McGonagall prófessor svaraði með því að snýta sér hressilega.

Dumbledore sneri sér við og gekk aftur niður götuna. Hann nam staðar á horninu og dró silfurkveikjarann fram. Hann smellti einu sinni og samstundis kviknaði á öllum ljósastaurunum tólf. Runnaflöt var skyndilega böðuð gulu ljósi á ný og hann sá glitta í bröndóttan kött sem læddist fyrir hornið við hinn enda götunnar. Hann greindi óljóst litla böggulinn á tröppunum við hús númer fjögur.

„Gangi þér vel, Harry,“ muldraði hann. Hann snerist á hæli og um leið og þaut í skikkjunni var hann horfinn.

Hægur vindur bærði snyrtileg limgerðin við Runnaflöt sem lá hljóð og vel hirt undir bleksvörtum himninum. Engum hefði dottið í hug að þar gæti neitt undarlegt gerst. Harry Potter velti sér á hina hliðina inni í teppunum án þess að rumska. Hann greip með lítilli hendi um bréfið við hlið sér og hélt áfram að sofa. Hann hafði engan grun um að hann væri einstakur, þaðan af síður að hann væri frægur. Hann vissi ekki að eftir nokkra klukkutíma yrði hann vakinn af ópum og

óhljóðum frú Dursley um leið og hún opnaði útidyrnar til að setja mjólkurflöskurnar út, né að næstu vikurnar myndi Dudley frændi hans kvelja hann og pína … Hann hafði heldur enga hugmynd um að á þessu andartaki hittist fólk á laun víðs vegar um landið, lyfti glösum honum til heiðurs og sagði í lágum hljóðum:

„Skál fyrir Harry Potter, drengnum sem lifði af!“

# Annar kafli

# Glerið sem hvarf

Það voru liðin næstum tíu ár frá því að Dursleyfjölskyldan fann frænda sinn liggjandi á dyraþrepinu. Runnaflöt hafði aftur á móti harla lítið breyst á þessum tíma. Sólin skein á sömu vel hirtu garðana og lýsti upp látúnsskiltið á útidyrunum á númer fjögur. Sólargeislarnir læddust um stofu Dursleyhjónanna sem hafði haldist að mestu óbreytt frá kvöldinu örlagaríka þegar herra Dursley sat og fylgdist með hinum undarlegu fréttum af uglunum. Aðeins myndirnar á arinhillunni gáfu til kynna hversu langt var um liðið. Fyrir tíu árum hafði arinhillan verið hlaðin myndum af einhverju sem líktist stórum, bleikum bolta með mislita hatta og húfur – en Dudley Dursley var ekkert smábarn lengur. Nú höfðu barnamyndirnar vikið fyrir myndum af stórvöxnum, ljóshærðum dreng á fyrsta tvíhjólinu, í hringekjunni, í tölvuleik með pabba sínum og í faðmi mömmu sinnar. Stofan bar engin merki þess að annar drengur byggi líka í húsinu.

Samt bjó Harry Potter þarna ennþá. Hann var að vísu sofandi í augnablikinu en Petunia frænka hans var vöknuð og hvell rödd hennar var það fyrsta sem hann heyrði þennan morgun.

„Drífðu þig á fætur! Núna! Á stundinni!“

Harry hrökk upp með andfælum. Frænka hans barði aftur á dyrnar.

„Á fætur!“ skrækti hún. Harry heyrði hana ganga í átt að eldhúsinu og stuttu seinna glamraði í steikarpönnunni þegar hún var sett á eldavélina. Hann velti sér á bakið og reyndi að rifja upp drauminn sem hann hafði dreymt. Þetta hafði verið góður draumur. Eitthvað í sambandi við fljúgandi mótorhjól. Honum fannst eins og hann hefði dreymt þetta áður.

Frænka hans stóð nú aftur fyrir utan dyrnar.

„Ertu kominn á lappir?“ spurði hún.

„Næstum því,“ svaraði Harry.

„Jæja, drífðu þig. Þú þarft að fylgjast með beikoninu. Þú lætur það ekki brenna við, það á allt að vera fullkomið á afmælisdeginum hans Duddys.“

Harry stundi.

„Hvað sagðirðu?“ hreytti hún út úr sér í gegnum hurðina.

„Ekkert … ekkert.“

Afmælisdagurinn hans Dudleys – hvernig í ósköpunum hafði hann getað gleymt honum? Harry steig rólega fram úr og fór að leita að sokkunum sínum. Hann fann eitt par undir rúminu og klæddi sig í þá þegar hann hafði fjarlægt kónguló úr öðrum þeirra. Harry var orðinn vanur kóngulóm, því að í kompunni undir stiganum þar sem hann svaf var allt morandi af þeim.

Þegar hann var kominn í fötin gekk hann eftir ganginum í átt að eldhúsinu. Eldhúsborðið var hlaðið afmælisgjöfum til Dudleys. Dudley fengi greinilega nýju tölvuna sem hann langaði í að ógleymdu einu sjónvarpi í viðbót og fjallahjóli. Harry botnaði ekkert í af hverju Dudley langaði í fjallahjól. Dudley var nefnilega mjög feitur og hataði þar að auki alla

líkamlega áreynslu – nema að sjálfsögðu þegar hún fól í sér að lúskra á einhverjum. Harry var uppáhaldsfórnarlamb Dudleys þegar hann náði til hans á annað borð. Því þó að Harry bæri það ekki með sér var hann mjög sprettharður. Ef til vill var það vegna veru hans í dimmri kompunni að Harry hafði alltaf verið fremur lítill og grannur eftir aldri. Hann virtist jafnvel ennþá minni og grennri en hann í rauninni var vegna þess að einu fötin sem hann átti voru notaðar flíkur af Dudley sem var um það bil fjórum sinnum stærri en Harry. Harry var grannleitur með beinaber hné, kolsvart hár og skærgræn augu. Kringlóttu gleraugun hans voru fest saman með límbandi vegna þess að Dudley hafði svo oft kýlt hann á nefið. Það eina sem Harry var ánægður með varðandi útlit sitt var mjótt ör á enninu, í laginu eins og elding. Hann hafði haft örið frá því hann mundi eftir sér og eitt af því fyrsta sem hann spurði Petuniu frænku sína að var hvernig hann hefði fengið það.

„Í bílslysinu þegar foreldrar þínir dóu,“ hafði hún svarað. „… Og hættu svo þessum spurningum.“

Ekki spyrja spurninga var regla númer eitt hjá Dursleyfjölskyldunni.

Vernon frændi kom inn í eldhúsið þegar Harry var í óða önn að snúa beikoninu á pönnunni.

„Greiddu þér!“ urraði hann. Svona var kveðja hans þennan morgun inn.

Vikulega leit Vernon frændi upp úr dagblaðinu og æpti á Harry að drífa sig í klippingu. Harry hafði farið oftar í klippingu en allir strákarnir í bekknum hans samanlagt en það gilti einu, hárið á honum óx einfaldlega svona – í allar áttir.

Harry var að spæla egg þegar Dudley kom inn í eldhús ásamt móður sinni. Dudley svipaði mjög til Vernons frænda. Hann var með búlduleitt, ljósrautt andlit, stuttan háls, vatnsblá augu og þykkt, ljóst hár sem féll rennislétt fram á breitt ennið. Petunia frænka sagði alltaf að Dudley líktist litlum engli – Dudley minnti Harry frekar á grís með hárkollu.

Harry setti diska með eggi og beikoni á borðið. Það var að vísu hægara sagt en gert því að borðið var þakið gjöfum. Dudley var í óðaönn að telja þær. Það dimmdi yfir honum.

„Þrjátíu og sex,“ sagði hann og leit á foreldra sína. „Það er tveimur færri en í fyrra.“

„Þú gleymdir að telja gjöfina frá Marge frænku með, elskan mín. Sjáðu, hún liggur hérna undir þessari stóru frá mömmu og pabba.“ „Allt í lagi, þrjátíu og sjö,“ sagði Dudley og varð rauður í framan. Harry sá að eitt af frægum æðisköstum Dudleys var í uppsiglingu og flýtti sér að skófla upp í sig matnum eins hratt og hann gat ef svo færi að Dudley velti borðinu um koll.

Petunia frænka virtist líka skynja hættuna sem lá í loftinu. „Við skulum kaupa tvær gjafir í bænum í dag. Hvernig líst þér á það, blómið mitt?“ sagði hún hratt. „Tvær gjafir í viðbót. Er þá allt í lagi?“

Dudley hugsaði sig um augnablik. Það virtist valda honum töluverðum erfiðleikum. Að lokum sagði hann hægt: „Þá fæ ég þrjátíu og … þrjátíu og … “

„Þrjátíu og níu, hjartað mitt,“ sagði Petunia frænka.

„Ó.“ Dudley settist þunglega niður og hrifsaði til sín pakka. „Allt í lagi þá.“

Vernon frændi hló góðlátlega.

„Hann vill fá það sem honum ber eins og faðir hans. Það var lagið, Dudley minn!“ Hann ýfði hárið á Dudley vingjarnlega.

Í sömu andrá hringdi síminn og Petunia frænka fór fram til að svara. Á meðan fylgdust Harry og Vernon frændi með Dudley taka utan af fjallahjóli, myndbandstæki, fjarstýrðri flugvél, sextán nýjum tölvuleikjum og myndbandstökuvél. Hann var að rífa pappírinn utan af gullúri þegar Petunia frænka birtist aftur áhyggjufull og reið á svipinn.

„Slæmar fréttir, Vernon,“ sagði hún. „Frú Figg er fótbrotin. Hún getur ekki tekið á móti honum.“ Hún kinkaði kolli í áttina að Harry.

Dudley missti andlitið af hryllingi en hjartað í Harry tók kipp af gleði. Á hverju ári á afmælisdegi Dudleys fóru Dursleyhjónin með hann og vin hans í bæinn. Þá var ýmist farið í ævintýragarða, bíó eða á hamborgarastaði. Harry var alltaf skilinn eftir hjá frú Figg, brjálaðri, gamalli konu sem bjó tveimur götum neðar. Harry þoldi ekki að vera þar. Allt húsið angaði af soðnu káli og í ofanálag var hann neyddur til að skoða myndir af öllum köttunum sem hún hafði átt um ævina.

„Hvað gerum við nú?“ sagði Petunia frænka og horfði reiðilega á Harry eins og hann hefði skipulagt þetta allt saman. Harry vissi að hann átti að finna til með frú Figg, en það var allt annað en auðvelt þegar hann áttaði sig á að nú væri heilt ár þangað til hann þyrfti aftur að skoða myndir af Mjása, Mjallhvíti, Herra Klóa og Toppi.

„Við gætum hringt í Marge,“ stakk Vernon frændi upp á.

„Engan kjánaskap, Vernon. Hún þolir strákinn ekki.“ Dursleyhjónin áttu það til að tala eins og Harry væri ekki á staðnum – eða öllu heldur eins og hann væri eitthvað slímugt og fráhrindandi sem skildi ekki mannamál – eins og til dæmis snigill.

„En hvað með hana þarna vinkonu þína, Yvonne?“

„Hún er í fríi á Mallorka,“ hreytti Petunia frænka út úr sér.

„Ég get alveg verið einn heima. Farið þið bara,“ skaut Harry vongóður inn í (hann gæti horft á það sem hann vildi í sjónvarpinu og jafnvel prófað nýju tölvuna hans Dudleys).

Petunia frænka varð á svipinn eins og hún hefði gleypt heila sítrónu.

„Og eigum við svo að koma að húsinu í rúst?“ urraði hún.

„Ég lofa að sprengja það ekki í loft upp,“ sagði Harry, en enginn veitti því eftirtekt.

„Við gætum kannski tekið hann með í dýragarðinn,“ sagði Petunia frænka treglega, „og skilið hann eftir í bílnum …“

„Bíllinn er nýr og hann fær ekki að vera einn inni í honum …“

Dudley byrjaði að gráta hástöfum. Þetta voru krókódílatár. Það voru mörg ár síðan hann hafði grátið í alvörunni, en hann vissi af reynslunni að ef hann vældi nógu mikið og gerði sig afmyndaðan í framan léti mamma hans allt eftir honum.

„Elsku litla dúllan mín, hættu að gráta. Mamma leyfir ljóta stráknum ekki að eyðileggja afmælisdaginn þinn!“ hrópaði hún upp yfir sig og vafði hann örmum.

„Ég … vil … ekki … hafa hann … með!“ æpti Dudley upp á milli uppgerðarekkasoganna. „Hann eyðileggur a-alltaf allt!“ Dudley laumaðist til að glotta andstyggilega við Harry.

Á sama augnabliki hringdi dyrabjallan.

„Almáttugur, þau eru komin!“ sagði Petunia frænka örvæntingarfull – andartaki síðar birtist besti vinur Dudleys, Piers Polkiss, ásamt móður sinni. Piers var horaður piltur með andlit eins og á rottu. Hann var venjulega sá sem hélt krökkunum föstum á meðan Dudley lúskraði á þeim. Dudley hætti uppgerðargrátnum samstundis.

Hálfri klukkustund síðar sat Harry í aftursætinu í bíl Dursleyhjónanna ásamt Piers og Dudley og var á leiðinni í dýragarðinn í fyrsta sinn á ævinni. Hann var öldungis gáttaður á heppni sinni. Frænda hans og frænku hafði ekki tekist að koma honum annars staðar fyrir, en áður en þau lögðu af stað hafði Vernon frændi tekið Harry á eintal.

„Ég vara þig við,“ sagði hann og rak stórskorið, dimmrautt andlitið alveg upp að Harry, „ég ætla að vara þig við strax – ef þú ert með einhverja stæla verðurðu hafður í kompunni fram að jólum.“

„Ég ætla ekki að gera neitt,“ sagði Harry, „ég sver það …“

En Vernon frændi trúði honum ekki. Það trúði honum aldrei neinn. Vandamálið var að ýmislegt furðulegt átti sér stað nálægt Harry og það þýddi ekkert að reyna að segja Dursleyhjónunum að hann ætti enga sök á því.

Einu sinni hafði Petunia frænka fengið sig fullsadda af að Harry kom alltaf heim frá rakaranum án þess að á honum sæist að hann hefði farið þangað. Hún tók þá eldhússkærin og klippti hárið á honum svo snöggt að hann var næstum sköllóttur fyrir utan ennistoppinn sem hún skildi eftir „til að fela þetta hrikalega ör“. Dudley hló sig máttlausan, en Harry lá andvaka um nóttina af kvíða fyrir að mæta í skólann næsta dag. Honum var þegar strítt á stóru fötunum sem hann klæddist og samanlímdu gleraugunum. En þegar hann vaknaði næsta morgun og leit í spegilinn var hárið nákvæmlega eins og það hafði verið áður en Petunia frænka snoðaði hann með eldhússkærunum. Hann var hafður í kompunni í viku þrátt fyrir að hann hefði reynt að útskýra að hann hefði ekki hugmynd um hvers vegna hárið hefði vaxið svona hratt aftur.

Öðru sinni hafði Petunia frænka verið að reyna að troða honum í andstyggilega gamla peysu af Dudley (brúna með appelsínugulum doppum). Því ákafar sem hún reyndi að toga hana yfir höfuðið á honum þeim mun minni varð hún. Að lokum var hún orðin á stærð við dúkkupeysu og passaði engan veginn á Harry. Petunia frænka komst að þeirri niðurstöðu að hún hlyti að hafa minnkað í þvotti og Harry til mikils léttis var honum ekki refsað í þetta skipti.

Aftur á móti lenti hann í heilmiklum vandræðum þegar komið var að honum uppi á þaki skólaeldhússins. Klíkan hans Dudleys hafði verið að elta hann eins og venjulega þegar hann sat allt í einu uppi á skorsteininum, sjálfum sér og öðrum til mikillar undrunar. Dursleyhjónin höfðu fengið áminningarbréf frá skólastjóra Harrys þar sem stóð að Harry hefði verið að klifra upp skólabygginguna. Það eina sem hann hafði gert (eins og hann reyndi að kalla til Vernons frænda í gegnum læsta hurð kompunnar) var að reyna að stökkva á bak við stóru ruslatunnurnar fyrir utan eldhúsið. Harry fannst líklegast að vindhviða hefði þeytt honum upp á þak í miðju stökki.

En í dag færi ekkert úrskeiðis. Það var jafnvel hægt að halda út návist Dudleys og Piers ef það þýddi að hann fengi að eyða

deginum einhvers staðar annars staðar en í skólanum, kompunni sinni eða illa lyktandi stofu frú Figgs.

Á leiðinni kvartaði Vernon frændi stöðugt við Petuniu frænku. Hann naut þess að kvarta yfir öllu mögulegu. Vinnufélagarnir, Harry, ríkisstjórnin, Harry, bankinn og Harry voru aðeins lítill hluti af umkvörtunarefnunum. Þennan morgun voru það mótorhjól.

„… þeysast um eins og vitleysingar, þessir skemmdarvargar,“ sagði hann um leið og mótorhjól tók fram úr þeim.

„Mig dreymdi mótorhjól í nótt,“ sagði Harry og mundi skyndilega eftir draumnum frá nóttinni áður. „Það gat flogið.“

Litlu munaði að Vernon frændi rækist á bílinn fyrir framan þau. Hann snarsneri sér við í sætinu og andlitið á honum líktist helst risastórri rauðrófu með yfirskegg þegar hann öskraði á Harry: „Mótorhjól geta ekki flogið!“

Dudley og Piers flissuðu.

„Ég veit það vel,“ sagði Harry. „Þetta var bara draumur.“

Hann óskaði þess að hann hefði þagað. Ef það var eitthvað sem Dursleyhjónin þoldu ekki þá var það þegar hann talaði um eitthvað sem gat engan veginn staðist – það skipti engu þótt það væri bara draumur eða jafnvel teiknimynd. Þau þoldu það enn síður en þegar hann spurði spurninga. Þau virtust halda að það gæti vakið hættulegar grillur í kollinum á honum.

Þetta var sólríkur laugardagur og dýragarðurinn var yfirfullur af fjölskyldum. Dursleyhjónin keyptu stóra súkkulaðiísa handa Dudley og Piers við innganginn. Vingjarnlega afgreiðslustúlkan í ísbúðinni hafði spurt Harry hvað hann vildi áður en þau gátu flýtt sér í burtu, svo að þau neyddust til að gefa honum ódýran sítrónufrostpinna. Hann var reyndar alls ekki sem verstur, hugsaði Harry og sleikti hann á meðan þau fylgdust með górillu klóra sér í hausnum. Harry fannst hún merkilega lík Dudley að frátöldu ljósa hárinu.

Þetta var besti morgunn sem Harry hafði upplifað í langan tíma. Hann gætti þess að halda sig í hæfilegri fjarlægð frá hinum svo að Dudley og Piers, sem voru að verða leiðir á dýrunum, tækju ekki til við þá uppáhaldsiðju sína að ganga í skrokk á honum. Þau borðuðu á veitingastaðnum í dýragarðinum. Dudley fékk æðiskast vegna þess að

skammturinn hans af pylsum og kartöflusalati var ekki nógu stór og því fékk Harry að borða afganginn en Vernon frændi keypti stærri skammt handa Dudley.

Harry sá eftir á að þetta hafði verið of gott til að endast.

Eftir hádegismatinn fóru þau í skriðdýrahúsið. Inni var svalt og dimmt, og upplýst glerbúr voru meðfram öllum veggjunum. Hinum megin við glerið mátti sjá eðlur og snáka sem skriðu og hlykkjuðust yfir smásteina og trjábúta. Dudley og Piers vildu fá að sjá risavöxnu gleraugnaslöngurnar og stóru, digru kyrkislöngurnar. Dudley kom fljótlega auga á stærstu slönguna í byggingunni. Hún hefði getað vafið sig tvisvar sinnum utan um bílinn hans Vernons frænda og malað hann mélinu smærra – en í augnablikinu virtist hún ekki í skapi til þess. Raunar var hún steinsofandi.

Dudley klessti nefið að glerinu og starði á glansandi brúna kyrkislönguna þar sem hún hafði hringað sig saman.

„Láttu hana hreyfa sig,“ sagði hann vælulega við pabba sinn. Vernon frændi sló létt í glerið en slangan haggaðist ekki.

„Gerðu þetta aftur,“ skipaði Dudley. Vernon frændi bankaði fastar með hnúunum en slangan lúrði áfram.

„Þetta er hundfúlt,“ kveinaði Dudley og slangraði í burtu.

Harry stillti sér upp fyrir framan búrið og horfði rannsakandi á slönguna. Það kæmi honum ekki á óvart þó að slangan hefði drepist úr leiðindum. Hún hafði engan félagsskap annan en af heimsku fólki sem bankaði í glerið og reyndi að trufla hana allan liðlangan daginn. Þetta var jafnvel verra en að búa í kompu þar sem eini félagsskapurinn var Petunia frænka sem lamdi á hurðina. Hann gat þó að minnsta kosti gengið um húsið.

Skyndilega opnaði slangan svört, perlulaga augun. Hægt og rólega reisti hún höfuðið þar til augu hennar voru í sömu hæð og augu Harrys.

Hún blikkaði hann.

Harry starði. Svo leit hann snarlega í kringum sig til að athuga hvort einhver væri að fylgjast með. En svo var ekki. Hann leit aftur á slönguna og blikkaði á móti.

Slangan hnykkti höfðinu í áttina að Vernoni frænda og Dudley og ranghvolfdi í sér augunum. Augnaráðið sem hún sendi Harry gaf til kynna að svona væri þetta alltaf.

„Ég skil þig,“ muldraði Harry í gegnum glerið þó að hann væri ekki alveg viss um að slangan heyrði til hans. „Þetta hlýtur að vera ofboðslega pirrandi.“

Slangan kinkaði ákaft kolli.

„Hvaðan ertu annars?“ spurði Harry.

Slangan benti með halanum í áttina að litlu skilti á glerinu. Harry rýndi í það.

Boa Constrictor. Brasilía.

„Var gott að búa þar?“

Slangan benti aftur á skiltið með halanum og Harry las áfram: Þetta eintak er alið upp í dýragarðinum. „Ó, ég skil – svo þú hefur aldrei komið til Brasilíu?“

Slangan hristi höfuðið. Um leið heyrðist skerandi óp og Harry og slangan hrukku í kút. „Dudley! Herra Dursley! Komið og sjáið hvað slangan er að gera! Þetta er ótrúlegt!“

Dudley kom kjagandi í áttina til þeirra eins hratt og hann gat.

„Burt með þig,“ sagði hann og kýldi Harry í síðuna. Þetta kom honum í svo opna skjöldu að hann féll harkalega á steingólfið. Það sem á eftir kom gerðist svo hratt að enginn sá hvernig það átti sér stað – Piers og Dudley hölluðu sér upp að glerinu á búrinu og á næsta andartaki stukku þeir í burtu með hræðsluópum.

Harry settist upp og tók andköf; glerið í búri slöngunnar var horfið. Slangan smeygði sér örsnöggt út úr búrinu og renndi sér niður á gólf – gestir skriðdýrahússins æptu og öskruðu og þyrptust að útgöngudyrunum.

Þegar slangan hlykkjaðist framhjá honum hefði Harry getað svarið að hann heyrði lága, hvæsandi rödd segja: „Hér kem ég, Brasss ilía, þökk sssé þér, amígó.“

Umsjónarmaður skriðdýrahússins var lamaður af geðshræringu.

„En glerið?“ endurtók hann í sífellu. „Hvað varð um glerið?“

Sjálfur forstjóri dýragarðsins lagaði sterkt, sætt te handa Petuniu frænku og baðst afsökunar í sífellu. Piers og Dudley þvöðruðu bara hvor upp í annan. Eftir því sem Harry gat best séð hafði slangan ekki gert neitt annað en að glefsa gáskafullt í hælana á þeim um leið og hún renndi sér framhjá. En þegar þau voru sest inn í bíl Vernons frænda var sagan orðin önnur: Slangan hafði næstum bitið af Dudley fótinn og Piers sór að hún hefði reynt að kremja sig til dauða. En verst af öllu, fyrir Harry að minnsta kosti, var þegar Piers sagði:

„Harry var að tala við hana, er það ekki, Harry?“

Um leið og Piers var farinn hellti Vernon frændi sér yfir Harry. Hann var svo orðlaus af reiði að honum tókst með naumindum að stynja upp: „Farðu – kompuna – vertu þar – enginn matur,“ áður en hann lyppaðist niður í stól og Petunia frænka þurfti að færa honum tvöfaldan koníak í snarhasti.

Nokkru síðar lá Harry inni í dimmri kompunni sinni og óskaði þess að hann ætti úr. Hann hafði ekki hugmynd um hvað tímanum leið og gat því ekki verið öruggur um að fólkið í

húsinu svæfi. Fyrr þorði hann ekki að hætta á að laumast inn í eldhús í leit að einhverju ætilegu.

Nú hafði hann búið hjá Dursleyfjölskyldunni í næstum tíu ár, tíu ömurleg ár. Hann hafði átt heima hérna eins lengi og hann mundi eftir sér, allt frá því að hann var smábarn og foreldrar hans létust í bílslysinu. Hann mundi ekki eftir að hafa verið í bílnum með foreldrum sínum þegar þau dóu. Á löngum, einmanalegum stundum í kompunni reyndi hann stundum af alefli að rifja upp hvað hafði gerst. Þá var eins og hann sæi fyrir sér blindandi, skærgrænt ljós og fyndi fyrir brennandi sársauka á enninu. Þetta hlaut að vera bílslysið þó að hann gæti ekki ímyndað sér hvaðan græna ljósið kæmi. Hann mundi ekkert eftir foreldrum sínum og á heimilinu voru engar ljósmyndir af þeim. Frænka hans og frændi minntust aldrei á þau og hann mátti að sjálfsögðu aldrei spyrja neins.

Þegar Harry var yngri lét hann sig oft dreyma um að einhver óþekktur ættingi kæmi og næmi hann á brott en það gerðist aldrei. Hann átti enga ættingja aðra en Dursleyfjölskylduna. Samt fannst honum stundum (eða vonaði í það minnsta) að ókunnugt fólk á götunum kannaðist við hann. Það var alltaf mjög sérkennilegt fólk sem virtist þekkja hann. Pínulítill maður með fjólubláan hatt hafði hneigt sig fyrir honum eitt

sinn þegar hann var að versla með Petuniu frænku og Dudley. Petunia frænka hafði drifið þá út úr búðinni án þess að kaupa nokkuð og hamslaus af bræði hafði hún spurt Harry hvort hann þekkti manninn. Eitt sinn hafði sérkennileg, gömul kona, grænklædd frá toppi til táar, veifað glaðlega til hans í strætó. Sköllóttur maður í síðum, purpuralitum frakka hafði meira að segja tekið í höndina á honum úti á götu um daginn og síðan gengið í burtu án þess að segja orð. Það furðulegasta var að í hvert sinn sem Harry ætlaði að skoða þetta fólk nánar virtist það hverfa.

Í skólanum átti hann engan að. Allir vissu að klíkan hans Dudleys þoldi ekki þennan skrítna Harry Potter í víðu, gömlu fötunum með brotnu gleraugun og enginn vildi komast í kast við klíkuna hans Dudleys.

# Þriðji kafli

# Dularfullu bréfin

Flótti brasilísku slöngunnar leiddi til þess að Harry var settur í lengra straff en nokkru sinni fyrr. Um það leyti sem honum var hleypt út úr kompunni aftur var sumarfríið hafið og Dudley hafði þegar náð að brjóta nýja myndbandstækið, mölva fjarstýrðu flugvélina og í fyrsta hjólatúrnum á fjallahjólinu tókst honum að hjóla frú Figg gömlu niður þegar hún staulaðist yfir götuna á hækjunum.

Harry var dauðfeginn að vera laus við skólann, en hann var því miður ekki laus við klíkuna hans Dudleys; hún kom í heimsókn á hverjum einasta degi. Piers, Dennis, Malcolm og Gordon voru hver öðrum stærri og heimskari, en þar sem Dudley var þeirra stærstur og heimskastur var hann að sjálfsögðu leiðtoginn í hópnum. Og þeir tóku allir þátt í uppáhaldsleik Dudleys með glöðu geði: Harryveiðum.

Þetta var ástæðan fyrir því að Harry varði mestum tíma sínum fjarri Dursleyhúsinu. Hann ráfaði um og hugsaði um lok sumarleyfisins þar sem hann eygði vonarglætu. Í byrjun september áttu bæði hann og Dudley að skipta um skóla: Dudley færi í gamla einkaskólann hans Vernons frænda ásamt Piers Polkiss. Harry yrði aftur á móti sendur í Stonewallskóla sem var hinn almenni hverfisskóli. Það fannst Dudley mjög fyndið.

„Þeir kaffæra busana í klósettunum fyrsta daginn í Stonewall," upplýsti Dudley. „Viltu ekki koma upp að æfa þig?"

„Nei, takk," sagði Harry. „Aumingja klósettið hefur aldrei fengið neitt jafn hrikalegt og hausinn á þér ofan í sig – því gæti orðið óglatt." Svo hljóp hann af stað eins og fætur toguðu áður en Dudley náði að átta sig á móðguninni.

Einn góðan veðurdag í júlí fór Petunia frænka með Dudley í bæinn til að kaupa skólabúninginn fyrir Smeltingskóla. Harry var skilinn eftir hjá frú Figg sem var alls ekki jafn slæm og venjulega. Það kom í ljós að frú Figg hafði hrasað um einn af köttunum sínum þegar hún fótbrotnaði og hún virtist því ekki alveg jafn hrifin af þeim og áður. Hún leyfði Harry að horfa á

sjónvarpið og gaf honum bita af súkkulaðiköku sem bragðaðist eins og hún hefði verið geymd inni í skáp í nokkur ár.

Þetta kvöld spígsporaði Dudley um stofuna í nýja skólabúningnum. Drengirnir í Smeltingskóla klæddust dumbrauðum jökkum, appelsínugulum hnébuxum og kollóttum stráhöttum sem kölluðust ræðarahattar. Þeir fengu líka hnúðótta stafi sem þeir notuðu til að berja hver annan þegar kennararnir sáu ekki til. Það var álitin góð þjálfun fyrir framtíðina.

Þegar Vernon frændi horfði á Dudley í nýju hnébuxunum sagði hann loðmæltur að þetta væri mesti gleðidagur sem hann hefði upplifað. Petunia frænka táraðist og sagðist eiga bágt með að trúa að þetta væri litla Dudleykrílið hennar, hann væri svo stór og myndarlegur. Harry treysti sér ekki til að opna munninn. Hann var viss um að tvö rifbein væru nú þegar brotin af því að reyna að bæla niður hláturinn.

Þegar Harry kom inn í eldhús næsta morgun mætti honum hræðilegur fnykur. Lyktin virtist koma úr járnbala í eldhúsvaskinum. Hann kíkti ofan í vaskinn. Balinn var fullur af skítugum dulum sem flutu um í gráu vatni.

„Hvað er þetta?“ spurði hann Petuniu frænku. Varirnar á henni herptust saman eins og alltaf þegar hann dirfðist að spyrja spurninga.

„Nýi skólabúningurinn þinn,“ sagði hún.

Harry leit aftur ofan í balann.

„Ó,“ sagði hann. „Ég vissi ekki að hann þyrfti að vera svona blautur.“

„Láttu ekki eins og fífl,“ hreytti Petunia frænka út úr sér. „Ég er að lita gömul föt af Dudley handa þér. Þau verða alveg jafn góð og skólabúningur hinna þegar ég er búin.“

Harry efaði það stórlega en vissi að það þýddi lítið að kvarta. Hann settist við borðið og reyndi að leiða hugann frá því hvernig útgangurinn yrði á honum fyrsta daginn í Stonewallskóla – líklega myndi hann líta út fyrir að vera klæddur í gamla fílshúð.

Dudley og Vernon frændi fitjuðu upp á nefið þegar þeir komu inn vegna óþefsins sem barst frá nýja skólabúningi Harrys.

Vernon frændi opnaði dagblaðið eins og venjulega og Dudley barði nýja stafnum frá Smeltingskóla í borðið. Stafinn skildi hann aldrei við sig.

Þau heyrðu póstlúguna skellast og bréf detta á dyramottuna.

„Náðu í póstinn, Dudley,“ sagði Vernon frændi án þess að líta upp úr blaðinu.

„Láttu Harry gera það.“

„Náðu í póstinn, Harry.“

„Láttu Dudley gera það.“

„Sláðu hann með stafnum þínum, Dudley.“

Harry vék sér undan stafnum og fór að ná í póstinn.

Það lágu þrjú bréf á mottunni: póstkort frá Marge, systur Vernons frænda, sem var í sumarfríi á Wighteyju, brúnt umslag sem leit út fyrir að vera reikningur og – bréf til Harrys.

Harry tók bréfið upp og starði á það. Hjartað í honum titraði eins og risastór gúmmíteygja. Enginn hafði nokkurn tímann skrifað honum bréf. Hver ætti svo sem að gera það? Hann átti enga vini, enga aðra ættingja – hann átti ekki einu sinni bókasafnskort svo hann fékk aldrei dónaleg rukkunarbréf um bækur sem hafði ekki verið skilað á réttum tíma. Samt stóð hann nú með bréf í höndunum sem var merkt svo rækilega að á því lék enginn vafi:

Hr. H. Potter

Kompunni undir stiganum

Runnaflöt 4

Little Whinging

Surrey

Umslagið var þykkt og þungt, og úr gulleitu pergamenti. Heimilisfangið var ritað með smaragðsgrænu bleki. Á því var ekkert frímerki.

Með skjálfandi höndum sneri hann umslaginu við. Á bakhliðinni var purpuralitt innsigli með skjaldarmerki: Ljón, örn, greifingi og snákur sem umluktu bókstafinn H.

„Drífðu þig, strákur!“ kallaði Vernon frændi úr eldhúsinu. „Hvað ertu að hangsa, ertu kannski að leita að bréfasprengjum?“ Hann flissaði að eigin fyndni.

Harry fór aftur inn í eldhús og starði enn á bréfið. Hann rétti Vernoni frænda reikninginn og póstkortið, settist hægt niður og byrjaði að opna gula umslagið.

Vernon frændi reif reikninginn upp, hnussaði og beindi athyglinni að póstkortinu.

„Marge er veik,“ tilkynnti hann Petuniu frænku. „Hún borðaði eitthvað sem hún þoldi ekki …“

„Pabbi!“ sagði Dudley allt í einu. „Pabbi, Harry fékk bréf!“ Harry var að fletta bréfinu í sundur. Það var skrifað á þykkt pergament eins og var í umslaginu. Vernon frændi teygði sig fram og reif bréfið úr höndunum á honum.

„Ég á það!“ sagði Harry og reyndi að ná því aftur.

„Hver ætti að skrifa þér?“ sagði Vernon frændi hæðnislega, hristi bréfið úr brotinu með annarri hendinni og renndi augunum yfir það. Liturinn í andlitinu á honum breyttist hraðar en á umferðarljósum úr rauðum í grænan. Innan nokkurra sekúndna var hann orðinn gráhvítur í framan eins og gamall, staðinn hafragrautur.

„P-P-Petunia!“ stundi hann upp.

Dudley reyndi að hrifsa bréfið af honum en faðir hans hélt því utan seilingar. Petunia tók það, forvitin á svip, og las fyrstu línuna. Eitt andartak virtist ætla að líða yfir hana. Hún greip um hálsinn á sér og gaf frá sér hálfkæft hljóð.

„Vernon! Guð minn góður – Vernon!“

Þau störðu hvort á annað og virtust algerlega hafa gleymt að Harry og Dudley voru ennþá staddir í eldhúsinu. Dudley var ekki vanur að vera hunsaður, svo að hann sló föður sinn snöggt í höfuðið með stafnum.

„Ég vil fá að lesa þetta bréf,“ heimtaði hann hárri röddu.

„Ég vil fá að lesa það," sagði Harry hamslaus, „af því að þetta er mitt bréf."

„Komið ykkur út, báðir tveir," sagði Vernon frændi höstugur og tróð bréfinu aftur í umslagið.

Harry hreyfði sig ekki.

„Ég vil fá bréfið mitt!" æpti hann.

„Leyfðu mér að sjá það!" krafðist Dudley.

„Út!" öskraði Vernon frændi, tók í hnakkadrambið á þeim báðum, fleygði þeim út úr eldhúsinu og skellti hurðinni á eftir þeim. Harry og Dudley byrjuðu strax að rífast í lágum hljóðum og slást um það hvor fengi að hlusta við skráargatið. Dudley vann og því varð Harry að leggjast á magann með gleraugun dinglandi á öðru eyranu til að hlusta við rifuna undir hurðinni.

„Vernon," sagði Petunia frænka skjálfrödduð, „sjáðu heimilisfangið – hvernig í ósköpunum gátu þau vitað hvar hann sefur? Þú heldur þó ekki að þau hafi fylgst með húsinu?"

„Fylgst með – njósnað – gætu hafa elt okkur,“ tautaði Vernon frændi tryllingslega.

„En hvað eigum við að gera, Vernon? Eigum við að skrifa til baka og segja þeim að við viljum ekki … “

Harry sá svörtu, vel pússuðu skóna hans Vernons frænda stika fram og aftur um eldhúsið.

„Nei,“ sagði hann að lokum. „Nei, við látum eins og ekkert hafi í skorist. Ef þau fá ekkert svar … já, það er líklega best … við gerum ekkert í þessu.“

„En …“

„Ég ætla ekki að hýsa einn af þeim, Petunia! Við hétum því þegar við tókum hann að okkur að við myndum koma í veg fyrir alla vitleysu af þessu tagi.“

Þegar Vernon frændi kom heim þetta sama kvöld gerði hann nokkuð sem hann hafði aldrei gert áður: Hann heimsótti Harry í kompuna.

„Hvar er bréfið mitt?“ spurði hann um leið og Vernon frændi hafði troðið sér inn um dyrnar. „Hver var að skrifa mér?“

„Enginn. Það var stílað á þig fyrir mistök,“ sagði Vernon frændi stuttur í spuna. „Ég brenndi það.“

„Þetta voru ekki mistök,“ sagði Harry reiðilega. „Það var meira að segja stílað á kompuna mína.“

„ÞÖGN!“ æpti Vernon frændi, og tvær köngulær féllu ofan úr loftinu af eintómri hræðslu. Hann dró djúpt að sér andann nokkrum sinnum og kreisti svo fram bros.

„Hérna – sjáðu til, Harry – það var einmitt kompan sem ég vildi ræða við þig um. Okkur frænku þinni finnst þú eiginlega vera orðinn aðeins of stór fyrir hana … við höldum að það færi betur um þig í öðru herberginu hans Dudleys.“ „Af hverju?“ spurði Harry.

„Hættu þessu spurningaflóði!“ hreytti frændinn út úr sér. „Farðu með dótið þitt upp á stundinni.“

Í húsi Dursleyfjölskyldunnar voru fjögur herbergi: Eitt þar sem Vernon frændi og Petunia frænka sváfu; eitt gestaherbergi

(sem Marge systir Vernons notaði yfirleitt); eitt sem Dudley svaf í og annað sem hann hafði undir leikföng og hluti sem komust ekki fyrir í hinu herberginu. Harry þurfti bara að fara eina ferð upp stigann með allar eigur sínar úr kompunni. Hann settist á rúmið og horfði í kringum sig. Næstum hver einasti hlutur í herberginu var brotinn. Mánaðargamla myndbandstækið lá ofan á litlum skriðdreka sem Dudley hafði keyrt yfir hund nágrannans. Úti í horni var fyrsta sjónvarpið hans Dudleys en skermurinn var brotinn vegna þess að hann hafði gefið því spark þegar uppáhaldsþættinum hans var frestað. Þarna var stórt fuglabúr sem hafði hýst páfagauk fyrir löngu. Dudley hafði látið hann í skiptum fyrir alvöru loftriffil sem lá kengboginn uppi á hillu af því að Dudley hafði sest ofan á hann. Aðrar hillur voru fullar af bókum. Þær voru það eina í herberginu sem virtist algerlega óhreyft.

Á neðri hæðinni heyrðist Dudley væla í mömmu sinni: „Ég vil ekki hafa hann þarna … Ég þarf að nota þetta herbergi … Láttu hann flytja …“

Harry andvarpaði og teygði úr sér í rúminu. Í gær hefði hann gefið allt til að fá að vera hérna uppi. Núna vildi hann frekar vera í kompunni með bréfið sitt heldur en hér á efri hæðinni án þess.

Við morgunverðarborðið næsta dag voru allir fremur þögulir. Dudley var í losti. Hann hafði öskrað, slegið föður sinn með stafnum, kastað upp af ásettu ráði, sparkað í móður sína og fleygt skjaldbökunni sinni í gegnum glerið á gróðurhúsinu. Þrátt fyrir það hafði honum ekki tekist að endurheimta herbergið sitt. Harry lét hugann reika til gærdagsins um sama leyti og óskaði þess biturlega að hann hefði opnað bréfið frammi í forstofu. Vernon frændi og Petunia frænka sendu hvort öðru þungbúið augnaráð.

Þegar pósturinn kom fékk Vernon frændi Dudley til að ná í hann á meðan hann reyndi sitt besta til að vera vinalegur við Harry. Þau heyrðu Dudley slá stafnum sínum utan í veggina inn eftir öllum ganginum. Svo heyrðu þau hann kalla: „Það er komið annað í viðbót! Hr. Potter, minnsta svefnherberginu á Runnaflöt 4…“

Með hálfkæfðu ópi stökk Vernon frændi upp úr stólnum og hljóp til Dudleys með Harry á hælunum. Vernon frændi þurfti að snúa Dudley niður til að ná bréfinu af honum sem var fremur erfitt, því að Harry hafði tekið Vernon frænda kverkataki aftan frá. Eftir nokkurra mínútna fálmkennd slagsmál þar sem allir voru lamdir í höfuðið með stafnum frá

Smeltingskóla reis Vernon frændi andstuttur á fætur með bréfið hans Harrys í annarri hendinni.

„Inn í kompu með þig – ég meina, upp í herbergi,“ stundi hann upp við Harry. „Dudley, hypjaðu þig – farðu.“

Harry gekk um gólf í nýja herberginu sínu. Einhver vissi að hann var fluttur úr kompunni og virtist líka vita að hann hefði ekki fengið fyrra bréfið. Það hlaut að þýða að það yrði reynt að hafa samband aftur, var það ekki? Og í næsta skipti skyldi það takast. Honum hafði komið ráð í hug.

Vekjaraklukkan hringdi klukkan sex næsta morgun. Harry flýtti sér að slökkva á henni og klæddi sig hljóðlega. Hann mátti ekki fyrir nokkurn mun vekja neinn í húsinu. Hann læddist niður án þess að kveikja ljósin.

Hann ætlaði að bíða eftir bréfberanum við hornið á Runnaflöt og fá allan póstinn fyrir hús númer fjögur afhentan þar. Hjartað hamaðist í brjósti hans þegar hann læddist eftir löngum, dimmum ganginum að útidyrunum.

„Aaaaah!“

Harry stökk í loft upp – hann hafði stigið á eitthvað stórt og skvapkennt við dyrnar – eitthvað lifandi!

Ljósin kviknuðu á efri hæðinni og Harry uppgötvaði sér til mikillar skelfingar að þetta stóra og skvapkennda sem hann hafði stigið á var andlitið á frænda hans. Vernon frændi hafði legið í svefnpoka við útidyrnar með höfuðið undir bréfalúgunni. Það var greinilegt að hann ætlaði að reyna að koma í veg fyrir að Harry fengi bréfin sín. Hann hélt hálftíma reiðilestur yfir Harry og skipaði honum svo að fara og laga te. Harry lötraði eymdarlegur inn í eldhús og þegar hann kom aftur var pósturinn kominn og lá í kjöltunni á Vernoni frænda. Harry sá að þrjú bréfanna voru árituð með smaragðsgrænu bleki.

„Ég vil fá …“ byrjaði hann, en Vernon frændi reif öll bréfin í tætlur fyrir framan hann.

Þennan dag fór Vernon frændi ekki í vinnuna. Hann var heima og negldi bréfalúguna aftur.

„Sjáðu til,“ útskýrði hann fyrir Petuniu frænku með munninn fullan af nöglum, „ef þeim tekst ekki að koma bréfunum til skila neyðast þau til að gefast upp.“

„Ég er ekki viss um að það sé svo auðvelt, Vernon.“

„Ó, jú. Þetta fólk er mjög undarlegt. Þau eru ekki eins og við,“ sagði Vernon frændi og reyndi að berja inn nagla með ávaxtakökusneið sem Petunia frænka var nýbúin að færa honum.

Á föstudeginum bárust Harry að minnsta kosti tólf bréf. Þar sem þau komust ekki inn um bréfalúguna hafði þeim verið troðið undir hurðina og meðfram dyrakörmunum; nokkrum hafði meira að segja verið smeygt inn um litla gluggann á gestaklósettinu.

Vernon frændi fór ekki í vinnuna. Þegar hann hafði brennt öll bréfin náði hann í hamar og nagla og negldi fyrir allar glufur við fram- og bakdyrnar þannig að hvorki var hægt að komast út né inn. Hann söngladi „Litlu fluguna“ á meðan hann hamaðist við smíðarnar og hrökk í kút við minnsta hljóð.

Á laugardeginum byrjaði allt að fara úr böndunum. Tuttugu og fjögur bréf merkt Harry komust inn í húsið. Þau voru samanrúlluð og falin inni í tveimur tylftum af eggjum sem mjólkurpósturinn hafði mjög ringlaður á svipinn rétt Petuniu

frænku inn um stofugluggann. Petunia frænka tætti bréfin í hrærivélinni og Vernon frændi hringdi hamslaus af reiði í pósthúsið og mjólkurbúið til að reyna að finna út hver ætti sök á þessu.

„Hver í ósköpunum er svona æstur í að tala við þig?“ sagði Dudley furðu lostinn við Harry.

Á sunnudagsmorgninum settist Vernon frændi við morgunverðarborðið þreytulegur og frekar laslegur en hamingjusamur.

„Enginn póstur borinn út á sunnudögum,“ minnti hann þau á glaður í bragði um leið og hann smurði marmelaði á dagblaðið sitt, „engin fjandans bréf í dag …“

Eitthvað kom þjótandi inn um loftræstinguna í eldhúsinu og lenti harkalega aftan á hálsinum á Vernoni frænda. Það var bréf. Á næsta andartaki skutust þrjátíu eða fjörutíu bréf út úr arninum eins og byssukúlur. Dursleyfjölskyldan beygði sig en Harry stökk á fætur til að reyna að grípa eitt þeirra.

„Út með ykkur! Út!“

Vernon frændi greip um mittið á Harry og fleygði honum fram á gang. Petunia frænka og Dudley báru hendur fyrir höfuð sér og flúðu út úr eldhúsinu. Vernon frændi fylgdi fast á eftir og skellti hurðinni að baki sér. Þau heyrðu að bréfin héldu áfram að streyma inn og detta á gólfið í eldhúsinu.

„Nú er nóg komið,“ sagði Vernon frændi og reyndi að tala rólega um leið og hann reif stóra brúska úr yfirvaraskegginu. „Við förum héðan. Ég vil að þið verðið tilbúin hérna niðri eftir fimm mínútur. Pakkið bara því nauðsynlegasta. Engin andmæli!“

Hann var svo ógnvekjandi ásýndum, með helminginn af yfirvaraskegginu rifinn af, að enginn þorði að segja neitt. Tíu mínútum síðar hafði þeim tekist að brjótast út um afturnegldar útidyrnar og þau voru komin inn í bílinn. Þau óku á fullri ferð út á þjóðveginn. Dudley snökti í aftursætinu: Pabbi hans hafði gefið honum kinnhest fyrir að tefja þau með því að reyna að pakka sjónvarpinu sínu, myndbandstækinu og tölvunni niður í íþróttatöskuna sína.

Þau keyrðu. Og þau keyrðu. Jafnvel Petunia frænka þorði ekki að spyrja hvert förinni væri heitið. Af og til tók Vernon frændi snarpar beygjur og ók í öfuga átt nokkra stund.

„Stinga þau af … stinga þau af,“ muldraði hann í hvert sinn.

Þau námu hvergi staðar til að borða eða drekka allan daginn. Undir kvöld var Dudley farinn að veina af móðursýki. Hann hafði aldrei upplifað svona hryllilegan dag. Hann var svangur, hann var búinn að missa af að minnsta kosti fimm sjónvarpsþáttum sem hann langaði að sjá og hann hafði ekki getað sprengt neinar geimverur upp í tölvunni sinni í heilan dag.

Loks stöðvaði Vernon frændi bílinn fyrir framan skuggalegt hótel í útjaðri stórborgar. Dudley og Harry deildu herbergi þar sem búið var um rúmin með þvölum sængurfötum sem lyktuðu af fúkka og sagga. Dudley hraut en Harry hélt sér vakandi. Hann settist í gluggakistuna og starði þungt hugsi á bílljósin sem þutu framhjá … Næsta dag fengu þau gamlar kornflögur og ristað brauð með niðursoðnum tómötum í morgunmat. Þau voru að ljúka við að borða þegar eigandi hótelsins kom að borðinu þeirra.

„Afsakið, en heitir einhver ykkar hr. H. Potter? Okkur hafa borist um það bil hundrað svona í hótelmóttökuna.“

Hún hélt á lofti bréfi sem á var skrifað með smaragðsgrænu bleki:

Hr. H. Potter

Herbergi 17

Hótel Railview

Cokeworth

Harry reyndi að teygja sig eftir bréfinu en Vernon frændi sló á höndina á honum. Hótelstýran starði á þá.

„Ég skal sjá um þau,“ sagði Vernon frændi og reis snögglega á fætur til að fylgja henni út úr matsalnum.

„Væri ekki ráð að fara heim núna, góði minn?“ stakk Petunia frænka varfærnislega upp á, mörgum klukkustundum síðar, en Vernon frændi virtist ekki heyra í henni. Ekkert þeirra hafði hugmynd um hvað hann ætlaðist fyrir. Hann keyrði með þau inn í skóg, fór út úr bílnum, leit í kringum sig, hristi hausinn, fór aftur inn í bílinn og ók af stað. Það sama gerðist á

plægðum akri, á miðri hengibrú og efst í margra hæða bílageymslu.

„Pabbi er orðinn brjálaður, er það ekki?“ spurði Dudley Petuniu frænku dauflega seinna þetta kvöld. Vernon frændi hafði lagt bílnum við strönd, læst þau inni í honum og horfið á braut.

Það byrjaði að rigna. Stórir dropar skullu á þakinu og Dudley byrjaði að kjökra.

„Það er mánudagur,“ tilkynnti hann móður sinni. „Allir bestu sjónvarpsþættirnir eru sýndir á mánudagskvöldum. Ég vil fara eitthvað þar sem er sjónvarp.“

Mánudagur. Þetta minnti Harry á nokkuð. Ef það var mánudagur – og venjulega var hægt að treysta á að Dudley vissi hvaða dagur væri út af sjónvarpinu – þá þýddi það að á morgun, þriðjudag, væri ellefti afmælisdagur Harrys. Afmælisdagarnir hans höfðu að vísu ekki verið neitt sérstaklega skemmtilegir hingað til – í fyrra hafði Dursleyfjölskyldan gefið honum herðatré og gamalt sokkapar af Vernoni frænda. Engu að síður varð maður ekki ellefu ára á hverjum degi.

Vernon frændi kom skælbrosandi til baka. Hann hélt á ílöngum, þunnum böggli og svaraði Petuniu frænku ekki þegar hún spurði hvað hann hefði keypt.

„Ég fann fullkominn stað!“ sagði hann. „Komið þið! Allir út!“ Það var ískalt. Vernon frændi benti á stóran klett langt úti í hafi.

Efst á klettinum trónaði sá minnsti og ömurlegasti kofagarmur sem hægt var að ímynda sér. Eitt var víst, inni í honum væri ekkert sjónvarp að finna.

„Það er spáð stormi í kvöld!“ sagði Vernon frændi fjörlega og klappaði saman lófunum. „Og þessi herra var svo almennilegur að lána okkur bátinn sinn!“

Tannlaus maður gekk í hægðum sínum til þeirra og benti með illkvittnu brosi á gamlan árabát sem valt um í gráum sjónum fyrir neðan þau.

„Ég er búinn að útvega vistir,“ sagði Vernon frændi, „svo að nú skuluð þið drífa ykkur um borð!“

Bátsferðin var langt frá því að vera einhver skemmtisigling. Kalt sjávarlöðrið lamdi andlit þeirra og ísköld rigningin seytlaði niður hálsmálin. Þau komu að klettinum eftir, að því er virtist, heila eilífð og með Vernon frænda hrasandi í fararbroddi gengu þau að niðurníddum kofanum.

Inni í honum var hrikalegt um að litast. Megn þanglykt mætti þeim og vindurinn blés inn um rifurnar á veggjunum. Eldstæðið var rakt og enginn eldiviður sjáanlegur. Í kofanum voru aðeins tvö herbergi.

Það kom í ljós að vistirnar sem Vernon frændi hafði talað um samanstóðu af einum kexpakka á mann og fjórum banönum. Hann reyndi að kveikja upp í arninum en tómu kexpakkarnir skruppu bara saman og gáfu frá sér reyk.

„Nú kæmu bréfin aldeilis í góðar þarfir, ha?“ sagði hann glaðlega. Hann var í reglulega góðu skapi. Það var greinilegt að hann bjóst ekki við að neinum tækist að finna þau í þessu veðri. Harry var sammála frænda sínum þó að tilhugsunin fyllti hann ekki sömu gleði.

Þegar tók að kvölda skall á með stormi eins og spáð hafði verið. Löðrið af háum öldunum gekk yfir kofaveggina og það

skrölti í skítugum gluggarúðunum undan ofsafengnum vindinum. Petunia frænka fann nokkur mygluð teppi í öðru herberginu og bjó um Dudley á mölétnum sófanum. Hún og Vernon frændi lögðust fyrir í hnúskóttu rúminu í næsta herbergi, en Harry varð að gera sér gólfið að góðu og þar hnipraði hann sig saman undir þynnsta og slitnasta teppinu.

Það bætti sífellt í storminn eftir því sem leið á kvöldið. Harry gat ekki sofið. Hann skalf og bylti sér í von um að finna þægilega stellingu. Garnirnar í honum gauluðu. Hroturnar í Dudley drukknuðu í drynjandi þrumunum sem byrjuðu rétt fyrir miðnætti. Sjálflýsandi skífan á úrinu hans Dudleys, sem hékk fram af sófabrúninni á feitum úlnlið hans, gaf til kynna að nú væru tíu mínútur þangað til Harry yrði ellefu ára. Hann lá og horfði á afmælisdaginn sinn færast nær. Hann velti því fyrir sér hvort Dursleyfjölskyldan myndi yfirleitt muna eftir honum. Og hann velti því líka fyrir sér hvar sá sem skrifaði bréfin væri núna.

Fimm mínútur í viðbót. Það brakaði í einhverju fyrir utan. Hann vonaði að þakið hryndi ekki yfir þau þótt það myndi kannski hlýna við það. Fjórar mínútur í viðbót. Kannski yrði allt orðið svo fullt af bréfum á Runnaflöt, þegar þau kæmu aftur, að honum tækist að koma einu undan.

Þrjár mínútur í viðbót. Voru þetta öldurnar sem skullu svona fast utan í klettinn? Og (tvær mínútur í viðbót) hvaða skrítnu brestir voru þetta? Var kletturinn að molna í hafið?

Ein mínúta þangað til hann yrði ellefu ára. Þrjátíu sekúndur … tuttugu … tíu … níu – kannski hann ætti að vekja Dudley bara til að pirra hann – þrjár – tvær – ein –

Búmm.

Kofinn lék á reiðiskjálfi og Harry settist teinréttur upp. Hann starði á dyrnar. Það var einhver fyrir utan sem lamdi á hurðina og vildi komast inn.

# Fjórði kafli

# Skógarvörðurinn

Búmm. Aftur var barið að dyrum. Dudley hrökk upp.

„Hvar er fallbyssan?“ spurði hann heimskulega.

Vernon frændi renndi sér með brauki og bramli inn í herbergið. Hann hélt á riffli – nú kom í ljós hvað hafði verið í þunna, ílanga bögglinum sem hann hafði tekið með sér.

„Hver er þar?“ hrópaði hann. „Ég vara þig við – ég er vopnaður!“ Eitt augnablik varð allt hljótt. Svo –

KRASS!

Það var barið að dyrum af þvílíku afli að hurðin hrökk af hjörunum og lenti með ærandi skelli á gólfinu.

Í dyragættinni stóð risavaxinn maður. Andlit hans var næstum hulið síðum hárflóka og skeggi sem óx óstýrilátt í allar áttir. Undir öllu þessu blikuðu augun eins og litlar, svartar bjöllur.

Risinn tróð sér inn í kofann og þurfti að ganga kengboginn til að rekast ekki upp undir þakið. Hann beygði sig niður, lyfti hurðinni upp og tyllti henni aftur á hjarirnar. Við það dró úr látunum í veðrinu. Hann sneri sér við og virti þau fyrir sér.

„Það væri víst ekki hægt að hita handa manni tebolla? Þetta var ekki beinlínis auðvelt ferðalag …“

Hann skálmaði að sófanum þar sem Dudley sat lamaður af ótta.

Færðu þig, hlunkurinn þinn,“ sagði gesturinn.

Dudley gaf frá sér niðurbælt óp og hljóp í felur á bak við móður sína sem stóð skelfingu lostin í hnipri fyrir aftan Vernon frænda.

„Og hér höfum við þá Harry!“ sagði risinn.

Harry leit á villimannslegt, hálffalið andlit hans og sá votta fyrir brosi í svörtum augunum.

„Þú varst bara smákríli síðast þegar ég sá þig,“ sagði risinn. „Þú ert ansi líkur pabba þínum en þú ert með augun hennar mömmu þinnar.“

Vernon frændi gaf frá sér skrítið, urgandi hljóð.

„Ég krefst þess að þér farið út úr kofanum á stundinni, herra minn!“ sagði hann. „Þér hafið brotist hér inn!“

„Æi, þegiðu, Dursley, stóra fitubollan þín,“ sagði risinn. Hann teygði sig yfir sófabakið, kippti rifflinum úr höndunum á Vernoni frænda og batt hnút á hlaupið eins og það væri úr plasti. Svo fleygði hann byssunni út í horn.

Vernon frændi gaf frá sér sérkennilegt tíst eins og mús sem stigið hefur verið ofan á.

„Hvað um það – Harry,“ sagði risinn og sneri sér frá Dursleyfjölskyldunni, „innilega til hamingju með afmælið. Ég er með svolítið handa þér hérna, gjöf – getur verið að ég hafi sest ofan á hana en hún er jafngóð eftir sem áður.“

Upp úr innri vasa á svörtum frakkanum dró hann dálítið beyglaðan kassa. Harry opnaði hann með skjálfandi fingrum. Í kassanum var stór, kámug súkkulaðikaka sem á stóð skrifað með grænu kökukremi: Til hamingju með afmælið, Harry.

Harry leit upp á risann. Hann ætlaði að þakka fyrir sig en orðin týndust á leiðinni fram á varirnar og í staðinn sagði hann: „Hver ertu?“ Risinn hló góðlátlega.

„Já, það er rétt. Ég gleymdi alveg að kynna mig. Rubeus Hagrid heiti ég, skógarvörður og eftirlitsmaður í Hogwartskóla.“

Hann rétti fram gríðarstóra höndina og hristi allan handlegginn á Harry.

„Jæja, hvernig er með teið?“ sagði hann og neri saman lófunum.

„Ég myndi að vísu ekki fúlsa við einhverju sterkara ef þið eigið það til.“

Hann rak augun í arininn og brunnar leifarnar af kexpökkunum. Hann hnussaði og beygði sig yfir eldstæðið. Þau sáu ekki hvað hann aðhafðist, en þegar hann færði sig í burtu augnabliki síðar skíðlogaði í arninum. Rakur kofinn fylltist nú af flöktandi ljósi og Harry fann hita færast í kroppinn eins og hann hefði farið á bólakaf ofan í heitt bað.

Risinn settist aftur í sófann sem seig undan þunga hans og byrjaði að tína alls konar hluti upp úr vösunum á frakkanum sínum: koparketil, kraminn pylsupakka, skörung, nokkra skörðótta bolla og flösku með gulbrúnum vökva sem hann fékk sér slurk af áður en hann byrjaði að hita te. Pylsurnar voru þræddar upp á langan skörunginn og skömmu síðar fyllti ilmur af grilluðum pylsum kofann. Enginn sagði orð á meðan risinn sneri þeim í eldinum en þegar hann dró sex feitar og glansandi pylsur af skörungnum tók Dudley að ókyrrast. Vernon frændi leit hvasst á son sinn: „Þú kemur ekki nálægt neinu sem hann gefur þér, Dudley.“ Risinn hló dimmum hlátri.

„Nei, hafðu engar áhyggjur, Dursley. Rjómabollan hann sonur þinn þarfnast svo sannarlega ekki fitunar.“

Hann rétti Harry pylsurnar. Hann var svo hungraður að honum fannst hann aldrei hafa bragðað neitt jafn ljúffengt en hann

gat samt ekki slitið augun af risanum. Fyrst enginn gerði sig líklegan til að útskýra neitt spurði hann að lokum: „Fyrirgefðu, en ég er enn ekki alveg viss um hver þú ert.“

Risinn tók gúlsopa af teinu og þurrkaði sér um munninn með handarbakinu.

„Kallaðu mig bara Hagrid,“ sagði hann, „það gera það allir. Og eins og ég sagði þér er ég skógarvörður í Hogwartskóla – þú veist náttúrlega allt um Hogwartskólann, er það ekki?“

„Umm – nei,“ sagði Harry. Hagrid virtist mjög brugðið.

„Afsakið,“ flýtti Harry sér að segja.

„Afsakið?“ hrópaði Hagrid og sneri sér með reiðilegu augnaráði að Dursleyfjölskyldunni sem hörfaði upp að veggnum. „Það eru þau sem ættu að biðjast afsökunar! Ég vissi að þú fékkst ekki bréfin þín; en fjandakornið, mig grunaði aldrei að þú vissir ekkert um Hogwartskólann. Veltirðu því aldrei fyrir þér hvar foreldrar þínir lærðu allt þetta?“

„Allt hvað?“ spurði Harry.

„Allt hvað?“ þrumaði Hagrid. „Bíddu nú aðeins hægur!“

Hann var stokkinn á fætur og reiði hans virtist fylla allan kofann. Dursleyfjölskyldan hnipraði sig saman úti í horni.

„Ætlið þið að segja mér,“ hvæsti hann að Dursleyfjölskyldunni, „að þessi drengur viti ekki neitt – um neitt?“

Harry fannst þetta dálítið langt gengið. Hann hafði gengið í skóla og einkunnirnar hans voru alls ekki svo slæmar.

„Ég veit ýmislegt,“ sagði hann. „Ég kann að reikna og svoleiðis.“ En Hagrid þaggaði niður í honum: „Um okkar heim, meina ég.

Þinn og minn heim – heim foreldra þinna.“

„Hvaða heim?“

Hagrid virtist vera að því kominn að springa.

„Dursley!“ öskraði hann.

Vernon frændi var orðinn mjög fölur og hvíslaði eitthvað sem hljómaði eins og babl. Hagrid starði á Harry með trylltu augnaráði.

„En þú hlýtur að vita eitthvað um mömmu þína og pabba,“ sagði hann. „Ég meina, þau eru fræg. Þú ert frægur.“

„Ha – voru mamma og pabbi fræg?“

„Þú veist það sem sagt ekki … þú veist ekki neitt …“ Hagrid renndi fingrunum í gegnum hár sér og starði ráðþrota á Harry.

„Þú hefur sem sagt ekki hugmynd um hvað þú ert?“ sagði hann að lokum.

Vernon frændi fékk röddina skyndilega aftur.

„Hættið!“ skipaði hann. „Haldið yður á mottunni, herra minn! Ég banna yður að segja drengnum nokkuð!“

Hugrakkari maður en Vernon frændi hefði guggnað undan brjálæðislegu augnaráðinu sem Hagrid sendi honum; þegar Hagrid tók til máls titraði röddin af innibyrgðri reiði.

„Sagðirðu honum aldrei neitt? Sagðirðu honum ekki það sem stóð í bréfinu sem Dumbledore skrifaði þegar hann skildi barnið eftir í þinni umsjá? Ég var þarna og sá með eigin augum þegar Dumbledore smeygði bréfinu undir teppið, Dursley! Og þú hefur haldið því leyndu í öll þessi ár?“

„Haldið hverju leyndu?“ spurði Harry ákafur.

„Hættið! Ég banna yður að segja það!“ æpti Vernon frændi skelfingu lostinn.

Petunia frænka tók andköf af ótta.

„Æi, haldið ykkur nú saman bæði tvö,“ sagði Hagrid. „Harry – þú ert galdramaður.“

Það varð dauðaþögn í kofanum. Ekkert heyrðist nema sjávarhljóðið og gnauðið í vindinum.

„Er ég hvað?“ stundi Harry.

„Galdramaður, auðvitað,“ sagði Hagrid og settist í sófann sem brakaði og brast í og seig að lokum alveg niður að gólfi,

„og einn sá allra besti – þegar þú hefur fengið dálitla þjálfun, að sjálfsögðu. Það gat heldur ekki öðruvísi farið, með slíka foreldra. Og nú held ég að tími sé kominn til að þú lesir bréfið þitt.“

Harry rétti út höndina til að taka á móti langþráða, gulleita umslaginu, stíluðu með smaragðsgrænu bleki á Herra H. Potter, Gólfinu, Kofanum á klettinum, Hafinu. Hann dró bréfið úr umslaginu og las:

Hogwart – skóli galdra og seiða

Skólastjóri: Albus Dumbledore

(Eftirmaður Merlins, hæstráðandi seiðmaður Warlocks, æðsti Mugwump, meðlimur Alþjóðasambands galdramanna)

Kæri Hr. Potter.

Það er okkur ánægja að tilkynna yður að þér hafið hlotið skólavist í Hogwart – skóla galdra og seiða. Meðfylgjandi er listi yfir bækur og nauðsynleg tæki. Önnin hefst 1. september.

Við væntum uglu yðar fyrir 31. júlí.

Bestu kveðjur,

Minerva McGonagall,

aðstoðarskólastjóri

Spurningar skutust eins og flugeldar upp í huga Harrys. Hann vissi ekki hvar hann átti að byrja. Eftir nokkrar mínútur stamaði hann:

„Hvað þýðir að þau vænti uglu minnar?“

„Murrandi marbendlar. Það minnir mig á dálítið,“ sagði Hagrid og sló í ennið á sér með afli sem hefði nægt til að hrinda hesti um koll. Upp úr enn einum vasa á frakkanum dró hann uglu – raunverulega, lifandi en dálítið þvælda uglu. Auk þess dró hann fram langan fjaðurstaf og rúllu af bókfelli. Með tunguna í öðru munnvikinu hripaði hann niður orðsendingu sem Harry las á hvolfi:

Kæri herra Dumbledore!

Lét Harry fá bréfið. Fer með hann að kaupa það sem vantar á morgun.

Veðrið er ömurlegt. Vona að þú hafir það gott.

Hagrid

Hagrid rúllaði bréfinu saman og rétti uglunni sem klemmdi gogginn utan um það. Svo gekk risinn að dyrunum og fleygði uglunni út í storminn. Þegar hann kom til baka settist hann í sófann eins og þetta væri jafn eðlilegt og að tala í símann.

Harry uppgötvaði að hann gapti og flýtti sér að loka munninum.

„Hvar var ég?“ sagði Hagrid, en í sama bili færði Vernon frændi sig inn í birtuna frá arineldinum. Hann var öskugrár í framan.

„Hann fer ekki fet,“ sagði hann. Það rumdi í Hagrid.

„Mér þætti gaman að sjá Mugga eins og þig stöðva hann,“ sagði hann.

„Hvern?“ spurði Harry áhugasamur.

„Mugga,“ sagði Hagrid. „Það eru þeir kallaðir sem geta ekki galdrað. Og þú varst svo óheppinn að alast upp hjá þeirri alverstu Muggafjölskyldu sem ég hef nokkurn tíma augum litið.“

„Þegar við tókum hann að okkur hétum við því að stöðva þessa vitleysu,“ sagði Vernon frændi, „sórum að við myndum kæfa þetta niður. Galdramaður, ekki nema það þó!“

„Vissuð þið þetta þá?“ sagði Harry. „Vissuð þið að ég er – galdramaður?“

„Vissum!“ skrækti Petunia frænka allt í einu. „Vissum! Auðvitað vissum við það! Hvernig gat annað verið fyrst þessi bannsetta systir mín var eins og hún var? Jú, jú, hún fékk bréf sísvona og lét sig bara hverfa í þennan – þennan skóla. Kom svo heim í fríum með vasana fulla af halakörtum og breytti tebollum í rottur. Ég var sú eina sem gerði mér grein fyrir því hvað hún var – algert viðundur! En hjá foreldrum mínum var það alltaf Lily þetta og Lily hitt. Þau voru stolt af því að hafa galdranorn í fjölskyldunni!“

Hún þagnaði til að ná andanum og hélt svo áfram að bölsótast. Það var eins og hún hefði haldið aftur af sér í mörg ár.

„Svo kynntist hún þessum Potter í skólanum og þau giftust og áttu þig. Ég vissi auðvitað að þú yrðir alveg eins, alveg jafn – jafn – afbrigðilegur. Og svo, takk fyrir – lét hún sprengja sig í loft upp og við sátum uppi með þig!“

Harry var orðinn náfölur. Þegar hann mátti loks mæla sagði hann: „Sprengja sig í loft upp? Þú sagðir að þau hefðu dáið í bílslysi!“

„Bílslysi!“ þrumaði Hagrid, stökk á fætur og gekk ógnandi að Dursleyhjónunum. Þau hrökkluðust aftur út í horn. „Hvernig hefðu Lily og James Potter getað dáið í bílslysi? Þetta er móðgun! Algert hneyksli! Að Harry Potter skuli ekki þekkja uppruna sinn þegar öll börnin í okkar heimi vita hver hann er!“

„En hvers vegna? Hvað gerðist?“ spurði Harry ákafur.

Reiðin hvarf úr svip Hagrids. Í staðinn færðist kvíðasvipur yfir andlit hans.

„Ég átti ekki von á þessu,“ sagði hann lágri, áhyggjufullri röddu. „Ég hafði ekki hugmynd um við hverju var að búast þegar Dumbledore varaði mig við því að það gæti orðið erfitt að komast í samband við þig. Ég vissi ekki að þau hefðu haldið þessu leyndu fyrir þér. Æ, Harry, ég veit ekki hvort ég er rétti maðurinn til að segja þér frá þessu – en einhver verður að gera það. Þú getur ekki farið í Hogwartskólann án þess að vita neitt.“

Hann gaf Dursleyhjónunum illt auga.

„Jæja, það er víst best að þú fáir að vita það sem ég veit – en mundu að ég veit ekki allt. Sumt af því sem gerðist er mér hulin ráðgáta …“

Hann settist niður og starði inn í eldinn um stund og sagði síðan:

„Ég býst við að þetta hafi allt byrjað með – með manni sem heitir – en það er ótrúlegt að þú skulir ekki vita hver hann er, allir í okkar heimi þekkja til hans …“

„Hvers?“

„Ég vil helst ekki nefna hann á nafn – ef ég mögulega kemst hjá því. Það gerir það enginn.“

„Af hverju ekki?“

„Sótbölvandi svartálfar, Harry, fólk er ennþá hrætt við hann. Árans, þetta er erfitt. Sjáðu til, það var galdramaður sem varð … illur. Eins slæmur og hægt er að verða. Verri. Verri en vondur. Hann hét …“

Hagrid kyngdi en honum tókst ekki að koma orðunum út fyrir varirnar.

„Viltu skrifa það niður?“ stakk Harry upp á.

„Nei, ég kann ekki að stafa það. Þá það – Voldemort.“ Hagrid hryllti sig. „Ég vil ekki þurfa að endurtaka það. Jæja, fyrir tuttugu árum fór þessi – þessi galdramaður að leita sér að fylgismönnum. Og honum tókst það – sumir þeirra voru hræddir við hann og aðrir vildu eiga hlutdeild í mætti hans, því hann varð mjög máttugur, get ég sagt þér. Þetta voru slæmir tímar, Harry. Enginn vissi hverjum var hægt að treysta – og enginn þorði að vera almennilegur við ókunnuga

galdramenn eða nornir … Hræðilegir atburðir áttu sér stað. Honum tókst næstum að leggja allt undir sig. Það voru náttúrlega nokkrir sem buðu honum birginn – og þá drap hann. Á hrikalegan hátt. Einn af fáum öruggum stöðum var Hogwartskólinn. Ég hugsa að Dumbledore hafi verið sá eini sem Þú-veist-hver hræddist. Hann reyndi aldrei að yfirtaka skólann, ekki þá að minnsta kosti.

Foreldrar þínir voru hæfileikaríkustu galdramenn sem ég hef þekkt. Þau voru bestu nemendur skólans á sínum tíma! Furðulegt að Þú-veist-hver skyldi ekki hafa reynt að fá þau á sitt band … en hann hefur líklega vitað að þau voru of náin Dumbledore til að vilja nokkuð með myrku öflin hafa.

Hann reyndi það samt seinna … eftir að þú fæddist. Kannski hélt hann að honum tækist að ná þeim á sitt band, eða kannski vildi hann bara losna við þau. Það eina, sem við vitum með vissu, er að fyrir tíu árum birtist hann í þorpinu ykkar á hrekkjavöku. Þú varst bara eins árs. Hann kom heim til ykkar og – og …“

Með snöggri hreyfingu dró Hagrid fram blettóttan vasaklút og snýtti sér með ærandi hávaða.

„Fyrirgefðu,“ sagði hann. „En þetta er svo sorglegt – ég þekkti foreldra þína og yndislegra fólk er ekki hægt að hugsa sér – en sem sagt – Þú-veist-hver drap þau. Og að því loknu – og þar erum við komin að ráðgátunni miklu – reyndi hann líka að drepa þig. Ef til vill vildi hann bara klára verkið eða kannski naut hann þess að drepa. En honum tókst það ekki. Hefurðu aldrei velt því fyrir þér hvernig þú fékkst þetta ör á ennið? Þetta er ekkert venjulegt ör. Svona fær maður bara ef leidd er yfir mann kraftmikil bölvun. Hún banaði foreldrum þínum, eyðilagði húsið ykkar en vann ekki á þér, þess vegna ertu frægur, Harry. Engir höfðu áður lifað af ef hann hafði á annað borð ákveðið að drepa þá. Þú ert sá eini, og hann myrti bestu galdramenn og nornir þessarar aldar – McKinnon, Bone og Prewett – þú varst bara smábarn og lifðir samt af.“

Sársaukafullar minningar komu upp í huga Harrys. Þegar leið á frásögn Hagrids rifjaðist skærgræna ljósið upp fyrir honum. Hann mundi líka eftir nokkru sem hafði verið gleymt – háum, kuldalegum og illkvittnum hlátri.

Hagrid virti hann sorgmæddur fyrir sér.

„Ég tók þig með mér úr húsarústunum samkvæmt skipun Dumbledore. Svo fór ég með þig heim til þessa hyskis hérna …“

„Bull og vitleysa,“ sagði Vernon frændi. Harry hrökk í kút, hann var alveg búinn að gleyma að Dursleyfjölskyldan var þarna líka. Vernon frændi virtist hafa endurheimt hugrekkið. Hann starði reiðilega á Hagrid með kreppta hnefa.

„Nú skal ég segja þér dálítið, strákur,“ urraði hann. „Ég get alveg fallist á að þú sért ekki eins og fólk er flest, en það hefði örugglega mátt lækna með almennilegri flengingu. Og hvað foreldrum þínum viðkemur … ja, þau voru furðufuglar, á því leikur enginn vafi og heimurinn er betur settur án þeirra. Þau áttu þetta skilið fyrst þau þurftu endilega að leggja lag sitt við þetta galdralið – ég varð í það minnsta ekki hissa þegar ég heyrði hvað hafði gerst. Ég vissi alltaf að þetta myndi enda með ósköpum …“

Nú stökk Hagrid upp úr sófanum og dró velkta, bleika regnhlíf upp úr einum frakkavasanum. Hann beindi henni að Vernoni frænda eins og hún væri sverð og sagði: „Ég vara þig við, Dursley – ég vara þig við – eitt orð í viðbót …“

Hættan á að skeggjaður risi ræki Vernon í gegn með regnhlíf svipti hann hugrekki á ný. Hann þrýsti sér aftur upp að veggnum og þagði.

„Þetta var betra," sagði Hagrid og settist móður í sófann sem seig nú alla leið niður í gólf.

Ótal spurningar brunnu enn á Harry – og hann vildi fá svör sem fyrst.

„En hvað varð svo um Vol – fyrirgefðu – ég meina Þú-veist-hvern?"

„Góð spurning, Harry. Hann bara hvarf. Út í buskann. Sama kvöld og hann reyndi að drepa þig. Það gerði þig jafnvel enn frægari. Það er mesta ráðgátan. Sjáðu til … fyrst hann var orðinn svona voldugur – af hverju lét hann sig þá hverfa?

Sumir halda því fram að hann hafi dáið. Ég held að það sé bölvað þvaður. Ég efast um að hann hafi verið nógu mannlegur til að geta dáið. Aðrir segja að hann bíði eftir tækifæri til að snúa aftur. Ég trúi því heldur ekki. Fólk sem hafði gengið í lið með honum kom aftur til okkar. Það var eins

og það vaknaði úr leiðslu; það hefði varla getað gerst ef hann ætlaði sér að snúa aftur.

Flest okkar standa í þeirri trú að hann sé einhvers staðar í felum en hafi misst kraftinn og sé of veikburða til að halda áfram að fremja myrkraverk. Það var eitthvað við þig, Harry, sem reið honum að fullu. Þetta kvöld gerðist eitthvað sem hann hafði ekki reiknað með – ég hef ekki hugmynd um hvað það var. Enginn veit hvernig– en einhvern veginn tókst þér að svipta hann kraftinum.“

Hagrid horfði á Harry með hlýju og virðingu. Í stað þess að finna fyrir stolti og gleði var Harry viss um að hér hefðu hræðileg mistök átt sér stað. Hvernig gat hann verið galdramaður? Það var ómögulegt! Hann hafði verið laminn af Dudley og kúgaður af Vernoni frænda og Petuniu frænku alla sína ævi. Ef hann væri galdramaður í raun og veru, hefði hann þá ekki breytt þeim í halakörtur þegar þau læstu hann inni í kompunni? Ef honum hafði eitt sinn tekist að sigra mesta galdramann heims, hvernig stóð þá á því að Dudley gat alltaf farið með hann eins og hvern annan fótbolta?

„Hagrid,“ sagði hann varlega, „ég held að þetta sé vitleysa. Ég er enginn galdramaður.“

Honum til undrunar hló Hagrid góðlátlega.

„Svo þú heldur það? Hefur aldrei neitt undarlegt gerst þegar þú ert reiður eða hræddur?“

Harry horfði í eldinn. Þegar hann hugsaði nánar út í það … þá hafði hver einasti undarlegi atburður, sem hafði reitt Vernon frænda og Petuniu frænku til reiði, átt sér stað þegar hann var annaðhvort æstur eða reiður … þegar klíkan hans Dudleys var á hælunum á honum, þá komst hann alltaf undan á einhvern ótrúlegan hátt … og þegar hann kveið fyrir því að fara í skólann vegna þess að Petunia frænka hafði snoðað hann, þá hafði honum tekist að láta hárið vaxa aftur … og núna síðast þegar Dudley hafði slegið hann tókst honum að ná fram hefndum með því að sleppa kyrkislöngunni lausri.

Harry leit brosandi á Hagrid. Hagrid horfði á hann og geislaði af ánægju.

„Sko,“ sagði Hagrid, „Harry Potter er ósvikinn galdramaður – vittu til, þú átt eftir að vekja athygli í Hogwartskóla.“

Vernon frændi ætlaði ekki að gefast upp fyrr en í fulla hnefana. „Var ég ekki búinn að segja að hann færi ekki fet?“ hvæsti hann. „Hann á að ganga í Stonewallskólann og það má hann þakka fyrir. Ég las bréfin sem þið senduð honum og hann þarf að eiga alls konar drasl – galdrabækur og töfrasprota og …“

„Ef Harry vill fara í Hogwartskóla getur Muggi eins og þú ekkert gert til að stöðva hann,“ urraði Hagrid. „Þú getur ekki haldið aftur af syni James og Lilyar Potter! Þú ert ekki með réttu ráði. Hann hefur verið á skrá yfir nýja nemendur síðan hann fæddist. Hann er á leiðinni í besta skóla galdra og seiða í heiminum. Eftir sjö ár þar verður hann gjörbreyttur maður. Þar mun hann kynnast krökkum með sömu hæfileika til tilbreytingar og verður undir stjórn besta skólastjóra Hogwartskóla fyrr og síðar, Albusar Dumbled…“

„Ég hef ekki hugsað mér að borga gömlum rugludalli fyrir að kenna honum nokkur töfrabrögð!“ æpti Vernon frændi.

Þetta var kornið sem fyllti mælinn. Hagrid greip regnhlífina og hringsneri henni yfir höfði sér. „Enginn!“ þrumaði hann, „– óvirðir – Albus – Dumbledore – í – mín – eyru!“

Það þaut í regnhlífinni þegar hann beindi henni að Dudley – purpuralitt leiftur skaust úr enda hennar og þar á eftir gullu við hvellir eins og úr flugeldum. Stuttu seinna heyrðist skerandi hrín og í næstu andrá hoppaði Dudley um með greiparnar spenntar um feitan afturendann og vældi af sársauka. Þegar Harry sneri sér við sá hann hringaða grísarófu sem stakkst út um rifu á buxum Dudleys. Vernon frændi öskraði um leið og hann dró Petuniu frænku og Dudley út úr herberginu. Rétt áður en hann skellti á eftir sér hurðinni gjóaði hann augunum hræðslulega á Hagrid.

Hagrid leit niður á regnhlífina og strauk sér um skeggið.

„Ég hefði ekki átt að missa stjórn á mér,“ sagði hann með eftirsjá, „en þetta virkaði hvort sem er ekki. Ég ætlaði að breyta honum í grís en kannski var hann þegar of mikill grís til að hægt væri að bæta einhverju við.“

Hagrid gaut augunum á Harry undan þykkum augabrúnunum.

„Ég yrði feginn ef þú minntist ekki á þetta við neinn í skól anum,“ sagði hann. „Ég – hérna – ég má eiginlega ekki galdra. Ég mátti galdra smávegis til að elta þig og koma bréfunum til þín – það var ein ástæðan fyrir því að ég var svo

ákafur að taka þetta að mér …“ „Af hverju máttu ekki galdra?“ spurði Harry.

„Ja, ég gekk í Hogwartskóla en ég – humm – ég var rekinn, ef satt skal segja. Á þriðja ári. Töfrasprotinn minn var meira að segja brotinn í tvennt. En Dumbledore leyfði mér að vera áfram sem skógarvörður. Hann er góður maður, hann Dumbledore.“

„Af hverju varstu rekinn?“

„Það er orðið áliðið og merkisdagur á morgun,“ sagði Hagrid með ákveðinni röddu. „Við þurfum að fara í bæinn að kaupa bækur og ýmislegt fleira.“

Hann klæddi sig úr þykkum, svörtum frakkanum og kastaði honum til Harrys.

„Þú getur sofið undir þessum,“ sagði hann. „Láttu þér ekki bregða þótt hann iði dálítið, ég held að það séu ennþá nokkrar mýs í einum vasanum.“

# Fimmti kafli

# Skástræti

Harry vaknaði snemma næsta morgun. Jafnvel þótt hann fyndi að það væri kominn bjartur dagur opnaði hann ekki augun.

„Þetta var bara draumur," sagði hann ákveðinn við sjálfan sig. „Mig dreymdi að risi að nafni Hagrid kæmi til að segja mér að ég ætti að ganga í skóla fyrir galdramenn. Þegar ég opna augun verð ég í kompunni heima."

Skyndilega heyrðist hávært bank.

„Og þetta er Petunia frænka að banka á dyrnar," hugsaði Harry dapur í bragði. En hann vildi ekki opna augun alveg strax. Þetta hafði verið svo góður draumur.

Bank. Bank. Bank.

„Já, já," muldraði Harry. „Ég er að fara á fætur."

Hann settist upp og þungur frakkinn hans Hagrids féll af honum. Sólargeislarnir lýstu upp kofann, storminn hafði lægt. Hagrid sjálfur lá sofandi á brotnum sófanum og ugla barði klónum í gluggann. Hún hélt á dagblaði í gogginum.

Harry brölti á fætur. Hann var svo hamingjusamur að honum fannst hann vera að springa. Hann flýtti sér að glugganum og reif hann upp á gátt. Uglan flaug inn og lét dagblaðið detta ofan á Hagrid en hann bærði ekki á sér. Því næst flögraði hún niður á gólf og réðst á frakka Hagrids.

„Hættu þessu."

Harry reyndi að bægja uglunni frá en hún goggaði í hann og hóf nýja atlögu að frakkanum.

„Hagrid," sagði Harry hárri röddu. „Uglan er að …" „Borgaðu henni," rumdi Hagrid úr sófanum.

„Ha?"

„Hún vill fá borgun fyrir að færa okkur blaðið. Gáðu í vasana."

Frakkinn hans Hagrids virtist ekki gerður úr öðru en vösum. Þeir voru fullir af lyklakippum, haglaskotum, snærisbútum, piparmyntum, tepokum … og loks fann Harry handfylli af furðulegri smámynt.

„Gefðu henni fimm knúta,“ sagði Hagrid syfjulega.

„Knúta?“

„Litlu koparmyntina.“

Harry taldi fram fimm litla koparpeninga og uglan rétti fram fótinn svo að Harry gæti stungið þeim í lítinn leðurpoka sem bundinn var við hann. Síðan flaug hún á brott út um opinn gluggann.

Hagrid geispaði hástöfum, settist upp og teygði úr sér.

„Við verðum að drífa okkur, Harry. Það stendur mikið til í dag. Við þurfum að fara til London að kaupa inn fyrir skólann.“

Harry velti galdramyntinni í lófa sér og skoðaði hana. Honum hafði dottið nokkuð í hug og hamingjutilfinningin dvínaði.

„Heyrðu – Hagrid?“

„Umm?“ sagði Hagrid sem var í miðjum klíðum að klæða sig í gríðarstór stígvélin.

„Ég á enga peninga – og þú heyrðir hvað Vernon frændi sagði í gær. Hann neitar að borga fyrir skólavistina í Hogwartskólanum.“

„Hafðu ekki áhyggjur af því,“ sagði Hagrid, stóð á fætur og klóraði sér í höfðinu. „Helduðu virkilega að foreldrar þínir hafi ekki skilið neitt eftir sig?“

„En húsið var eyðilagt …“

„Þau geymdu gullið sitt ekki í húsinu, drengur minn! Sko, fyrsti áfangastaðurinn okkar í dag er Gringottbankinn. Banki galdramanna. Fáðu þér pylsu, þær eru ekki svo slæmar kaldar – og ég myndi ekki slá hendinni á móti smá bita af afmæliskökunni þinni.“

„Eru galdramenn með banka?“

„Bara þennan eina. Gringottbankann. Hann er rekinn af svartálfum.“

Harry missti pylsubitann sem hann hélt á.

„Svartálfum?“

„Já, og engir nema brjálæðingar myndu reyna að ræna hann, það get ég sagt þér. Svartálfarnir eru engin lömb að leika sér við, Harry. Gringottbankinn er öruggasti staður í heiminum fyrir verðmæti – kannski að Hogwartskóla undanskildum. Ég á reyndar erindi í bankann hvort eð er. Fyrir Dumbledore. Það er fyrir Hogwartskóla.“ Hagrid reigði sig stoltur. „Hann biður mig venjulega um að sjá um mikilvæg mál. Ná í þig – útrétta í Gringottbankanum – hann veit nefnilega að hann getur treyst mér. Jæja, ertu tilbúinn? Drífum okkur þá af stað.“

Harry elti Hagrid út á klettinn. Himinninn var heiður og það glampaði á sjóinn í sólskininu. Báturinn sem Vernon frændi hafði leigt var þarna ennþá. Hann var hálffullur af sjó eftir storminn um nóttina.

„Hvernig komstu hingað?“ spurði Harry og svipaðist um eftir öðrum báti.

„Ég flaug,“ sagði Hagrid.

„Flaugstu?“

„Jamm, en við förum til baka í þessum. Mér var bannað að nota galdra eftir að ég fyndi þig.“

Þeir fóru um borð í bátinn. Harry starði á Hagrid og reyndi að ímynda sér hann á flugi.

„Það er nú næstum synd að þurfa að róa,“ sagði Hagrid og leit útundan sér á Harry. „Ef ég – ja – flýti nú dálítið fyrir okkur, vildir þú þá vera svo vænn að minnast ekki á það í Hogwartskóla?“

„Að sjálfsögðu,“ sagði Harry, áfjáður í að sjá fleiri töfrabrögð. Hagrid dró aftur fram bleiku regnhlífina, sló henni tvisvar í borðstokkinn og þeir geystust af stað í átt að landi.

„Af hverju myndu bara brjálæðingar reyna að ræna Gringottbankann?“ spurði Harry.

„Álög – galdrar,“ sagði Hagrid og slétti úr dagblaðinu um leið og hann talaði. „Það er sagt að drekar gæti fjárhirslnanna. Þar að auki þarf fyrst að finna staðinn – Gringottbankinn er hundruð mílna undir London. Lengst niðri í jörðinni. Þú yrðir hungurmorða við að reyna að komast út, jafnvel þótt þér tækist að næla þér í einhverja aura.“

Harry sat og hugleiddi þetta á meðan Hagrid las dagblaðið sitt, Spámannstíðindi. Harry hafði lærst af Vernoni frænda að fólk vildi fá að vera í friði meðan það las blöðin en það var erfitt af því að hann þurfti að spyrja svo margs.

„Galdramálaráðuneytið að klúðra hlutunum eins og venjulega,“ muldraði Hagrid um leið og hann fletti.

„Er til galdramálaráðuneyti?“ spurði Harry ósjálfrátt.

„Auðvitað,“ sagði Hagrid. „Þeir vildu fá Dumbledore sem ráðherra en hann vildi náttúrlega ekki fara burt frá Hogwartskóla. Cornelius Fudge gamli var ráðinn í staðinn. Það er nú meiri aulabárðurinn. Svo lætur hann uglurnar dynja á Dumbledore á hverjum morgni til að spyrja ráða.“

„En hvað er gert í svona ráðuneyti?“

„Aðalstarf ráðuneytisins er að halda því leyndu fyrir Muggunum að það eru ennþá galdramenn og nornir víðs vegar um landið.“

„Hvers vegna?“

„Hvers vegna? Hjálpi mér allir seiðkarlar, Harry, fólk myndi heimta töfralausnir á öllum sínum vandamálum. Nei, við erum sko betur sett án þess.“

Í sömu andrá rakst báturinn mjúklega utan í hafnargarðinn. Hagrid braut saman dagblaðið sitt og saman klöngruðust þeir upp steinþrepin og komu út á götuna.

Vegfarendur störðu á Hagrid þegar þeir gengu í gegnum litla bæinn áleiðis til járnbrautarstöðvarinnar. Harry láði þeim það ekki. Það var ekki nóg með að Hagrid væri tvisvar sinnum hærri en allir aðrir heldur benti hann í sífellu á fullkomlega eðlilega hluti eins og stöðumæla og sagði: „Sjáðu, Harry. Hvað finnst þér um þetta? Það sem Muggunum dettur í hug!“

„Hagrid,“ sagði Harry dálítið móður af því að reyna að halda í við Hagrid, „sagðirðu að það væru drekar í Gringottbankanum?“

„Svo er sagt,“ sagði Hagrid. „Mig myndi sko langa í dreka.“

„Langar þig í dreka?“

„Mig hefur langað í dreka alveg síðan ég var barn – hérna er stöðin.“

Þeir voru komnir að járnbrautarstöðinni. Lestin átti að fara til London eftir fimm mínútur. Hagrid botnaði ekkert í Muggapeningum eins og hann kallaði þá, svo að hann lét Harry fá seðla til að kaupa lestarmiðana.

Í lestinni vöktu þeir meiri athygli en nokkru sinni fyrr. Hagrid lagði undir sig tvö sæti og hamaðist við að prjóna eitthvað sem líktist ljósgulu sirkustjaldi.

„Ertu ennþá með bréfið þitt, Harry?“ spurði hann um leið og hann taldi lykkjurnar.

Harry dró þykkt umslagið upp úr vasanum.

„Gott,“ sagði Hagrid. „Þar á að vera listi yfir allt sem þig vantar.“

Harry breiddi úr öðru bréfi sem hann hafði ekki tekið eftir kvöldið áður og las:

Hogwart – skóli galdra og seiða

Skólabúningur

Fyrsta árs nemendur þurfa:

1 Þrjár einfaldar vinnuskikkjur (svartar)

2 Einn einfaldan toppmjóan hatt (svartan) til daglegra nota

3 Eitt par af hlífðarhönskum (drekaskinn eða annað álíka)

4 Eina vetrarskikkju (svarta með silfurfestingum)

Vinsamlega athugið að öll föt nemenda skulu vera merkt þeim

Bækur

Allir nemendur skulu eiga eintak af eftirfarandi bókum:

Almenna álagabókin (1. stig) eftir Miröndu Goshawk

Saga galdranna eftir Bathildu Bagshot

Galdrakenningar eftir Adalbert Waffling

Leiðarvísir í ummyndun fyrir byrjendur eftir Emeric Switch

Eitt þúsund töfrajurtir og sveppir eftir Phyllidu Spore

Töfradrykkir og elexírar eftir Arsenius Jigger

Yfirskilvitleg dýr og eftirlætisstaðir þeirra eftir Newt Scamander

Hin myrku öfl: handbók í sjálfsvörn eftir Quentin Trimble

Annar útbúnaður

1 töfrasproti

1 suðupottur (tin, stærð 2)

1 sett af tilraunaglösum úr gleri eða kristal

1 sjónauki

1 látúnsvog

Nemendur mega einnig taka með sér uglu eða kött eða halakörtu Foreldrar eru minntir á að fyrsta árs nemar mega ekki taka með sér eigin galdrakústa

„Fæst þetta allt í London?“ hugsaði Harry upphátt.

„Ef maður veit hvar á að leita,“ sagði Hagrid.

Harry hafði aldrei áður komið til London. Þrátt fyrir að Hagrid virtist þekkja leiðina var greinilegt að þessi ferðamáti var ekki það sem hann átti að venjast. Hann festist í miðasöluhliðinu og í neðanjarðarlestinni kvartaði hann hástöfum yfir því hvað sætin væru lítil og lestirnar hæggengar.

„Ég skil ekki hvernig Muggarnir komast af án galdra," sagði hann um leið og þeir stikuðu upp eftir biluðum rúllustiga sem lá að fjölfarinni götu með verslanir á báðar hendur.

Hagrid var svo risavaxinn að fólk vék ósjálfrátt úr vegi og Harry þurfti aðeins að fylgja honum eftir. Þeir gengu framhjá bókabúð og hljómplötuverslun, hamborgarastöðum og kvikmyndahúsum, en hvergi kom Harry auga á búð sem gæti mögulega selt þeim töfrasprota. Þetta var bara venjuleg gata, full af venjulegu fólki. Gat það verið rétt að djúpt niðri í jörðinni væru grafnir staflar af gulli galdramanna? Voru raunverulega til búðir sem seldu álagabækur og galdrakústa? Þetta skyldi þó ekki vera einn allsherjar hrekkur sem Dursleyfjölskyldan hafði fundið upp? Ef Harry hefði ekki vitað að Dursleyfjölskyldan var gersneydd allri kímnigáfu hefði hann svo sannarlega haldið það; og þetta virtist allt svo óraunverulegt. En Hagrid hafði útskýrt hvernig allt gekk fyrir sig og af einhverjum ástæðum treysti Harry honum fullkomlega.

„Hérna er hann," sagði Hagrid og nam staðar. „Leki seiðpott urinn. Einn frægasti staðurinn."

Þeir stóðu fyrir framan pínulitla, subbulega krá. Ef Hagrid hefði ekki vakið athygli á henni hefði Harry ekki komið auga á hana. Fólkið flýtti sér framhjá og enginn svo mikið sem virti hana viðlits. Menn renndu augunum frá stóru bókabúðinni öðrum megin að hljómplötuversluninni hinum megin og virtust alls ekki sjá Leka seiðpottinn. Harry hafði sterklega á tilfinningunni að hann og Hagrid væru þeir einu sem kæmu auga á krána. En áður en hann fékk tækifæri til að spyrja nánar út í þetta leiddi Hagrid hann inn.

Það vakti furðu hans hvað þessi fræga krá var dimm og sóðaleg. Nokkrar eldri konur sátu úti í horni og sötruðu sérrí úr staupum. Ein þeirra reykti langa pípu. Smávaxinn maður með pípuhatt var á tali við gamlan, nauðasköllóttan barþjón sem líktist skorpinni hnetu. Lágvær kliðurinn hljóðnaði þegar þeir gengu inn. Allir virtust þekkja Hagrid. Fólkið veifaði til hans og brosti og barþjónninn teygði sig í glas um leið og hann sagði: „Það sama og venjulega, ekki satt?“

„Ekki núna, Tom. Ég er hér í öðrum erindagjörðum,“ sagði Hagrid og lagði þungan hramminn á öxlina á Harry sem kiknaði í hnjáliðunum.

„Guð minn góður,“ sagði barþjónninn og starði á Harry, „er þetta – getur verið að þetta sé …?“

Inni í Leka seiðpottinum varð skyndilega grafarþögn.

„Hjálpi mér,“ hvíslaði gamli barþjónninn. „Harry Potter … hvílíkur heiður.“

Hann flýtti sér fram fyrir barinn til Harrys og greip í höndina á honum með tárin í augunum.

„Velkominn aftur, herra Potter, velkominn aftur.“

Harry vissi ekki hvað hann átti að segja. Allra augu hvíldu á honum. Gamla konan með pípuna hélt áfram að totta hana þótt það væri löngu dautt í henni. Hagrid geislaði af gleði.

Skyndilega varð uppi fótur og fit, stólar voru dregnir til og fólkið þyrptist að Harry. Allir tóku í höndina á honum og buðu hann hjartanlega velkominn.

„Doris Crockford heiti ég, það er mér mikill heiður að fá loksins að heilsa upp á þig, herra Potter.“

„Ég er mjög stolt, herra Potter, mjög stolt að fá að taka í höndina á þér.“

„Mig hefur alltaf langað að hitta þig – ég er bara alveg í uppnámi.“ „Þetta er mér sönn ánægja, herra Potter, meiri en orð fá lýst. Diggle heiti ég, Dedalus Diggle.“

„Ég hef séð þig áður!“ sagði Harry þegar pípuhatturinn datt af Dedalusi Diggle í öllum æsingnum. „Þú hneigðir þig fyrir mér einu sinni þegar við hittumst í matvöruverslun.“

„Hann man eftir því!“ hrópaði Dedalus Diggle og leit í kringum sig. „Heyrðuð þið þetta? Hann man eftir mér!“

Harry tók í hendurnar á öllum aftur og aftur – Doris Crockford virtist ekki geta slitið sig frá honum.

Fölur, ungur maður tróð sér í gegnum þvöguna. Hann var mjög taugaóstyrkur að sjá og annað augað í honum kipptist til í sífellu.

„Quirrell prófessor!“ sagði Hagrid. „Harry, Quirrell prófessor verður einn af kennurunum þínum í skólanum.“

„P-P-Potter," stamaði Quirrell prófessor og greip í höndina á Harry. „Þ-það er mér m-mikil ánægja að hitta yður."

„Hvers konar galdra kennir þú, Quirrell prófessor?"

„Sjálfsvörn gegn m-myrku öflunum," muldraði Quirrell prófessor eins og hann vildi helst komast hjá því að hugsa um það. „Ekki þ-það að þú hafir not f-fyrir slíkt, ha, herra P-Potter?" Hann hló taugaóstyrkur. „Þú ert líklega að k-kaupa inn fyrir skólann, er það ekki? Ég þarf sjálfur að k-kaupa nýja b-bók um vampírur." Hann virtist skelfingu lostinn af tilhugsuninni einni saman.

En hinir leyfðu Quirrell prófessor ekki að einoka Harry. Það tók hann næstum tíu mínútur að sleppa frá þeim. Loks tókst Hagrid að yfirgnæfa kliðinn.

„Við verðum að halda áfram – eigum eftir að kaupa svo margt. Komdu, Harry."

Doris Crockford rétti honum höndina í síðasta sinn og svo leiddi Hagrid hann í gegnum krána og út í lítinn, afgirtan bakgarð. Þar var ekki annað að sjá en ruslatunnu og dálítið illgresi.

Hagrid brosti breitt til Harrys.

„Ég sagði þér þetta! Ég sagði þér að þú værir frægur. Quirrell prófessor var meira að segja skjálfandi á beinunum yfir að hitta þig – að vísu er hann alltaf skjálfandi á beinunum, en alveg sérstaklega núna.“

„Er hann alltaf svona taugaóstyrkur?“

„Ó, já. Aumingja maðurinn. Stórgáfaður. Hann var alveg eðlilegur á meðan hann fékk alla sína þekkingu úr bókum, en svo tók hann sér árs frí til að verða sér úti um beina reynslu … Það er sagt að hann hafi rekist á nokkrar vampírur í Svartaskógi og komist í kast við einhverja hrikalega galdranorn – hann hefur ekki verið samur eftir það. Hræddur við nemendur sína, hræddur við sitt eigið fag – hvar er regnhlífin mín eiginlega?“

Vampírur? Hrikalegar galdranornir? Harry sundlaði. En Hagrid var í óða önn að telja múrsteinana í veggnum fyrir ofan ruslafötuna. „Þrír upp … tveir þversum,“ muldraði hann. „Einmitt, færðu þig aðeins, Harry.“

Hann sló þrisvar sinnum í vegginn með regnhlífinni sinni. Múrsteinninn sem hann hafði snert byrjaði að hristast og snúast.

Nú kom lítil hola í ljós – hún varð stærri og stærri – og augnabliki síðar stóðu þeir fyrir framan bogagöng sem meira að segja Hagrid gat gengið í gegnum án þess að beygja sig. Við endann á bogagöngunum lá steinlögð gata sem hlykkjaðist í sveigjum út í fjarskann. „Velkominn,“ sagði Hagrid, „í Skástræti.“

Hann hló að undrun Harrys. Þeir fóru í gegnum bogagöngin og þegar Harry leit um öxl sá hann að göngin skruppu þegar í stað saman og eftir stóð gegnheill veggurinn.

Sólin skein á hlaða af seiðpottum fyrir utan búð skammt undan. Seiðpottar – allar stærðir – kopar, látún, tin, silfur – hræra sjálfkrafa – hægt að brjóta saman stóð á skilti fyrir ofan þá.

„Já, þig vantar einn svona,“ sagði Hagrid, „en fyrst þurfum við að ná í peningana þína.“

Harry óskaði þess að hann hefði að minnsta kosti átta pör af augum í viðbót. Hann sneri höfðinu í allar áttir þegar þeir gengu eftir strætinu, hann vildi ekki missa af neinu. Fyrir utan apótekið hristi bústin kona höfuðið um leið og þeir gengu framhjá og sagði: „Sautján sikkur fyrir eitt kíló af drekalifur, þeir hljóta að vera brjálaðir …“

Lágvært ugluvæl barst frá skuggalegri búð með skilti semá stóð: Ugluverslun Eeylops – turnuglur, snæuglur, skopuglur og eyruglur. Nokkrir strákar á aldur við Harry þrýstu nefjunum upp að búðarglugga sem sýndi ýmsar gerðir galdrakústa. „Sjáiði,“ heyrði Harry einn þeirra segja, „þarna er nýjasti Nimbus 2000 – sá hrað skreiða sti sem búinn hefur verið til!“

Þarna voru búðir sem seldu skikkjur; búðir sem seldu sjónauka og sérkennileg silfurtæki sem Harry hafði aldrei áður séð. Í búðargluggum voru hlaðar af tunnum með leðurblökumiltum og álaaugum, staflar af álagabókum, fjaðurpennar og rúllur af pergamenti, lyfjaglös og hnattlíkön …

„Gringottbankinn,“ sagði Hagrid.

Þeir voru komnir að snjóhvítri byggingu sem gnæfði yfir allar litlu búðirnar. Við hliðina á gljáfægðri bronshurðinni stóð vörður klæddur í rauðan og gylltan einkennisbúning. Þetta var –

„Já, þetta er svartálfur," sagði Hagrid í lágum hljóðum um leið og þeir gengu upp hvítar steintröppurnar í átt að honum. Svartálfurinn var um það bil höfðinu lægri en Harry. Hann hafði dökkleitt, gáfulegt andlit og oddmjótt skegg. Harry tók eftir því að hann var með óvenjulanga fingur og fætur. Hann hneigði sig um leið og þeir gengu inn. Nú stóðu þeir andspænis annarri hurð. Hún var úr silfri og á hana var grafið:

Inn þú gakk, en aðgæt vel
að illt er gráðugt syndaþel.
Sá sem rænir stoltan stað
stórum geldur fyrir það.
Ef hyggst þú undir gólf vort gá,
grimmi þrjótur, vittu þá,
að þar við fleira verður var
en vænan sjóð, sem er þó þar.

„Eins og ég sagði, maður þyrfti að vera brjálaður til að reyna að ræna bankann," sagði Hagrid. Tveir svartálfar opnuðu silfurdyrnar með bukti og beygingum og við þeim blasti gríðarstór marmarasalur. Hundruð svartálfa sátu á háum stólum fyrir aftan afgreiðsluborð, önnum kafnir við að skrifa í stóra kladda og vigta myntir á látúnsvigtum og rannsaka verðmæta steina í smásjám. Á salnum voru svo margar dyr að Harry gafst fljótlega upp á að reyna að telja þær. Fjöldinn allur af svartálfum var upptekinn við að vísa viðskiptavinum inn og út um þær. Hagrid og Harry tóku stefnuna að afgreiðsluborðinu.

„Góðan daginn," sagði Hagrid við einn svartálfinn í afgreiðslunni.

„Við ætluðum að taka dálítið af peningum út úr fjárhirslu herra

Harrys Potter."

„Ertu með lykilinn, herra minn?"

„Já, ég er með hann hérna einhvers staðar," sagði Hagrid og tók að tæma úr vösunum á afgreiðsluborðið. Honum tókst að

dreifa mygluðu hundakexi yfir alla talnabók svartálfsins sem fitjaði upp á nefið við þessa sjón. Harry fylgdist með svartálfinum á afgreiðsluborðinu við hliðina vigta hrúgu af rúbínum á stærð við glóandi kola mola.

„Fann hann,“ sagði Hagrid eftir langa leit og hélt litlum, gylltum lykli á lofti.

Svartálfurinn grandskoðaði hann.

„Hann virðist í lagi.“

„Og ég er líka með bréf frá Dumbledore,“ sagði Hagrid ábúðarfullur og þandi brjóstkassann. „Það snýst um þú-veist-hvað í fjárhirslu sjö hundruð og þrettán.“

Svartálfurinn las bréfið vandlega.

„Gott og vel,“ sagði hann og rétti Hagrid bréfið aftur, „ég fæ einhvern til að vísa ykkur leiðina í báðar hirslurnar. Griphook!“

Griphook var enn einn svartálfurinn. Þegar Hagrid hafði loks tekist að troða hundakexinu aftur í vasana eltu þeir Griphook að einum dyrum salarins.

„Hvað er þú-veist-hvað í fjárhirslu sjö hundruð og þrettán?“ spurði Harry.

„Það má ég ekki segja,“ svaraði Hagrid leyndardómsfullur. „Það er algjört leyndarmál. Mál sem varðar Hogwartskólann. Dumbledore treysti mér fyrir því. Þagmælska er mjög mikilvæg í mínu starfi.“

Griphook hélt dyrunum opnum fyrir þá. Harry hafði búist við fleiri marmarasölum og varð mjög undrandi þegar þeir komu inn í þröng göng höggvin í stein og lýst upp með logandi kyndlum. Þau lágu niður í móti í miklum bratta og á gólfinu voru litlir brautarteinar. Griphook blístraði og vagnkríli kom þjótandi á leifturhraða upp brautarteinana. Þeir klifruðu um borð – Hagrid með nokkrum erfiðismunum – og óku af stað.

Í byrjun geystust þeir bara í gegnum völundarhús af óteljandi, hlykkjóttum göngum. Harry reyndi að leggja leiðina á minnið – vinstri, hægri, hægri, vinstri, miðjugangurinn, hægri, vinstri – en það var ómögulegt til lengdar. Skröltandi vagninn virtist rata sjálfur vegna þess að Griphook stýrði honum ekki.

Harry vöknaði um augun af köldu loftinu sem kom á móti þeim en hann hélt þeim samt galopnum. Í eitt skipti hélt Harry að hann hefði séð eldtungur við endann á einum göngunum og sneri sér við til að sjá hvort þær gætu komið frá dreka, en of seint – þeir tóku skyndilega dýfu enn lengra niður og þutu framhjá neðanjarðarvatni þar sem risavaxnir dropasteinar og dropasteinskerti uxu upp úr gólfinu og ofan úr loftinu.

„Ég hef aldrei vitað,“ kallaði Harry til Hagrids yfir hávaðann frá vagninum, „hver munurinn er á dropasteinum og dropas teinskertum.“

„Dropasteinskerti eru eins og kerti í laginu,“ sagði Hagrid. „Meira get ég ekki sagt, því ég held að ég sé að verða bílveikur.“

Hann var orðinn grænn í framan þegar vagninn stöðvaðist loks fyrir framan litlar dyr. Hagrid steig út og hallaði sér upp að veggnum til að ná skjálftanum úr hnjánum.

Griphook opnaði dyrnar. Grænn reykjarmökkur svall á móti þeim og þegar rofaði til tók Harry andköf. Inni í hirslunni voru

hrúgur af gullpeningum, staflar af silfurpeningum og ógrynni af lítilli koparmynt (þessari sem kallaðist knútur).

„Allt þetta átt þú,“ sagði Hagrid brosandi.

Harry átti þetta allt – það var ótrúlegt. Dursleyfjölskyldan hafði greinilega ekki vitað af þessu, annars hefðu þau haft þetta af honum áður en hann næði að telja upp að þremur. Hversu oft höfðu þau ekki barmað sér yfir því hve dýrt það væri að sjá Harry farborða? Og allan tímann hafði hann átt sinn eigin fjársjóð djúpt grafinn undir London.

Hagrid hjálpaði Harry að skófla dágóðri hrúgu ofan í tösku.

„Gullpeningarnir heita galleon,“ útskýrði hann. „Það eru sautján silfursikkur í einu galleoni og tuttugu og níu knútar í einni sikku, þetta er nú ekki flókið. Jæja, þetta ætti að nægja út skólaárið. Afganginn geymum við áfram hérna.“ Hann sneri sér að Griphook.

„Nú förum við í fjárhirslu sjö hundruð og þrettán. Er mögulegt að keyra aðeins hægar?“

„Vagnarnir aka aðeins á einu hraðastigi,“ sagði Griphook.

Þeir þutu jafnvel enn dýpra núna og hraðinn jókst. Þegar þeir sentust áfram í kröppum beygjum varð loftið sífellt kaldara. Vagninn skrölti yfir neðanjarðargil og Harry teygði sig yfir vagnbrúnina til að sjá hvað leyndist á dimmum gilbotninum. Hagrid stundi og dró hann á hnakkadrambinu aftur niður í sætið.

Á fjárhirslu sjö hundruð og þrettán var ekkert skráargat.

„Varið ykkur," sagði Griphook mynduglega. Hann strauk einum löngum fingri varlega yfir hurðina og hún bráðnaði einfaldlega í burtu.

„Ef einhver annar en starfsmaður Gringottbankans reynir þetta sogast hann inn um dyrnar og situr fastur þangað til varðmennirnir finna hann þar," sagði Griphook.

„Hversu oft er athugað hvort einhver er læstur inni?" spurði Harry.

„Um það bil einu sinni á tíu ára fresti," sagði Griphook með illkvittnu brosi.

Harry var viss um að eitthvað stórfenglegt hlyti að vera geymt í þessari fullkomnu öryggishirslu. Hann beygði sig eftirvæntingarfullur fram og bjóst að minnsta kosti við að sjá gull og gimsteina – en við fyrstu sýn virtist hirslan tóm. Síðan tók hann eftir því að lítill, krumpaður pakki í brúnum pappír lá á gólfinu. Hagrid tók hann upp og stakk honum djúpt ofan í einn frakkavasann. Harry var að springa úr forvitni en vissi að ráðlegast væri að spyrja ekki neins.

„Jæja, aftur um borð í vítisvagninn. Og ekki tala við mig á bakaleiðinni; ég held að best sé að ég haldi munninum lokuðum," sagði Hagrid.

Eftir eina tryllta ökuferð í viðbót stóðu þeir og pírðu augun á móti sólinni fyrir utan Gringottbankann. Harry vissi ekki í hvorn fótinn hann átti að stíga með alla þessa peninga í töskunni. Þó að honum væri ekki kunnugt um hversu mikils virði þessir framandi peningar nákvæmlega væru gerði hann sér grein fyrir að núna hafði hann meiri peninga á milli handanna en hann hafði átt allt sitt líf – miklu meiri en jafnvel Dudley hafði nokkurn tíma átt.

„Við gætum byrjað á skólabúningnum," sagði Hagrid og kinkaði kolli í átt að verslun Frú Malkin: Skikkjur fyrir öll

tækifæri. „Heyrðu, Harry, er þér sama þó að ég skreppi inn á Leka seiðpottinn og fái mér einn gráan? Ég þoli ekki þessa Gringottvagna.“ Hann leit ennþá dálítið laslega út, svo að Harry gekk einsamall yfir til frú Malkin með hnút í maganum.

Frú Malkin var þybbin, brosmild norn klædd purpuralitum fötum.

„Hogwartskóli, ekki satt, minn kæri?“ sagði hún áður en Harry náði að opna munninn. „Við erum með allt sem þú þarft – hér er einmitt annar ungur maður að máta skólabúninginn.“

Í innri hluta búðarinnar stóð fölur, langleitur strákur á skemli og önnur norn var að næla upp síðu, svörtu skikkjuna hans. Frú Malkin tyllti Harry upp á skemil við hliðina á honum og byrjaði að taka mál af honum.

„Hæ,“ sagði strákurinn, „ferð þú líka í Hogwartskóla?“ „Já,“ svaraði Harry.

„Pabbi er í næstu búð að kaupa bækur og mamma er að leita að góðum töfrasprota aðeins ofar í götunni,“ sagði strákurinn. Hann hafði tilbreytingarlausa, drafandi rödd. „Svo ætla ég að draga þau með mér að líta á keppniskústa. Ég skil ekki af

hverju fyrsta árs nemar mega ekki hafa sína eigin. Ég ætla að neyða pabba til að gefa mér galdrakúst og svo ætla ég að smygla honum með mér inn einhvern veginn.“

Hann minnti Harry óhugnanlega mikið á Dudley.

„Átt þú galdrakúst?“ hélt strákurinn áfram.

„Nei,“ sagði Harry.

„Spilarðu nokkuð Quidditch?“

„Nei,“ sagði Harry og velti því fyrir sér hvað í ósköpunum Quidditch gæti verið.

„Ég geri það – pabbi sagði að það væri skömm að því ef mér yrði ekki leyft að spila fyrir mína heimavist og ég verð að viðurkenna að ég er sammála honum. Veistu í hvaða heimavist þú verður?“ „Nei,“ sagði Harry aftur og fannst hann sífellt heimskari.

„Það veit það náttúrlega enginn fyrir víst fyrirfram en ég er viss um að ég verð í Slytherin. Öll fjölskyldan mín hefur verið

þar – ímyndaðu þér að búa í Hufflepuff. Ég held að ég myndi hætta í skólanum, en þú?“

„Mmm,“ sagði Harry og óskaði þess að hann hefði eitthvað meira spennandi til málanna að leggja.

„Sjáðu manninn þarna!“ sagði strákurinn skyndilega og kinkaði kolli í átt að glugganum. Hagrid stóð fyrir utan gluggann og brosti breitt til Harrys. Hann benti á tvo stóra rjómaísa sem hann hélt á til að gefa til kynna hvers vegna hann gæti ekki komið inn.

„Þetta er Hagrid,“ sagði Harry, feginn að vita loks eitthvað sem strákurinn vissi ekki. „Hann vinnur í Hogwartskóla.“

„Nú,“ sagði strákurinn. „Ég hef heyrt talað um hann. Hann er eins konar þjónn, er það ekki?“

„Hann er skógarvörður,“ sagði Harry. Honum líkaði æ verr við strákinn með hverri mínútunni sem leið.

„Ég frétti að hann væri hálfgerður villimaður – býr einn í kofa á skólalóðinni. Þegar hann verður fullur – sem gerist nokkuð

oft – reynir hann alltaf að fremja galdra og endar yfirleitt með því að kveikja í rúminu sínu.“

„Mér finnst hann frábær,“ sagði Harry kuldalega.

„Finnst þér það?“ sagði strákurinn hæðnislega. „Af hverju er hann með þér? Hvar eru foreldrar þínir?“

„Þeir eru dánir,“ sagði Harry stuttur í spuna. Hann langaði ekki að fara nánar út í þau mál með þessum strák.

„Ó, en leiðinlegt,“ sagði strákurinn án þess að hljóma vitund miður sín. „En þau voru ein af okkur, var það ekki?“

„Þau voru galdrafólk, ef þú átt við það.“

„Mér finnst að það ætti alls ekki að hleypa hinum inn í skólann. Hvað finnst þér? Þau eru ekki eins og við. Lífsstíllinn er allt annar en okkar. Hugsaðu þér, mörg þeirra hafa ekki einu sinni heyrt minnst á Hogwartskóla fyrr en þau fá bréfið. Mér finnst að skólinn ætti að halda sig við gömlu galdraættirnar. Hvað heitirðu annars fullu nafni?“

Áður en Harry náði að svara sagði frú Malkin: „Nú ert þú búinn, væni minn,“ og Harry stökk niður af skemlinum feginn því að sleppa við frekari samræður.

„Jæja, við sjáumst líklega í skólanum,“ sagði strákurinn með drafandi röddu.

Harry var óvenju þögull á meðan hann borðaði ísinn sem Hagrid hafði keypt handa honum (súkkulaði- og hindberjaís með söxuðum hnetum).

„Hvað er að?“ spurði Hagrid.

„Ekkert,“ laug Harry. Þeir námu staðar til að kaupa pergament og fjaðurpenna. Það glaðnaði yfir Harry þegar hann fann blek sem breytti um lit um leið og skrifað var með því. Þegar þeir yfirgáfu búðina spurði hann: „Hagrid, hvað er Quidditch?“

„Göldróttir gandálfar, Harry, ég gleymi alltaf hvað þú veist lítið – hugsa sér að þú skulir ekki vita hvað Quidditch er!“

„Mér líður nógu heimskulega nú þegar og þú bætir ekki úr skák,“ sagði Harry. Hann sagði Hagrid frá föla drengnum hjá frú Malkin.

„… og svo sagði hann að börn úr Muggafjölskyldum ættu ekki að fá inngöngu …“

„Þú ert að minnsta kosti ekki úr Muggafjölskyldu. Ef hann bara hefði vitað hver þú ert … þessi drengur hefur alist upp við að heyra sögur um þig, ef hann kemur þá úr alvöru galdrafjölskyldu. Þú sást viðbrögðin inni á Leka seiðpottinum. Hann veit heldur ekkert hvað hann er að tala um. Bestu galdramenn sem ég hef hitt eru af Muggaætt – sjáðu bara mömmu þína! Og hugsaðu þér hverslags systur hún á!“

„En hvað er Quidditch?“

„Það er íþróttin okkar. Íþrótt galdramanna. Það er eins og – eins og fótbolti í Muggaheiminum – allir fylgjast með Quidditch. Það er spilað uppi í loftinu á galdrakústum. Í leiknum eru notaðir fjórir boltar – það er dálítið erfitt að útskýra reglurnar.“

„Og hvað eru Slytherin og Hufflepuff?“

„Það eru tvær af heimavistum skólans. Þær eru fjórar alls. Það er sagt að það séu eintómir aular í Hufflepuff, en …“

„Ég þori að veðja að ég verð í Hufflepuff,“ sagði Harry niðurdreginn.

„Hufflepuff er langtum betri en Slytherin,“ sagði Hagrid myrkur á svip. „Hver einasti galdramaður sem gekk í lið með myrku öflunum hafði búið í Slytherin. Þú-veist-hver var einn af þeim.“ „Var Vol – úps – Þú-veist-hver í Hogwartskóla?“ „Fyrir mörgum, mörgum árum,“ sagði Hagrid.

Þeir keyptu skólabækur handa Harry í búð sem nefndist Flourish & Blotts. Þar náðu hillurnar upp í loft og svignuðu undan leðurbundnum bókum á stærð við gangstéttarhellur og bókum bundnum inn í silki sem voru jafn litlar og frímerki. Þarna voru bækur fullar af sérkennilegum táknum – og í nokkrum þeirra stóð ekki neitt. Þær hefði Dudley, sem aldrei las neitt, eflaust verið æstur í að skoða. Það lá við að Hagrid þyrfti að draga Harry í burtu frá Álögum og bölvunum (töfraðu vini þína og ruglaðu óvini þína með nýjustu hefndarbrögðunum: Hármissir, brauðfætur, tunguhnýtingar og margt, margt fleira) eftir Vindictus Viridian.

„Ég var að reyna að komast að því hvernig ætti að leggja álög á Dudley.“

„Hugmyndin er alls ekki svo slæm en þú mátt ekki nota galdra í Muggaheiminum nema í mjög sérstökum tilfellum,“ sagði Hagrid.

„Og þú gætir hvort sem er ekki lagt álög á neinn fyrr en þú hefur lært það. Það þarf langa skólagöngu til að komast á það stig.“

Hagrid vildi heldur ekki leyfa Harry að kaupa seiðpott úr gegnheilu gulli („það stendur tin á listanum þínum“), en þeir fundu snotra vog til að vigta töfraefni og látúnssjónauka sem hægt var að brjóta saman. Því næst héldu þeir í apótekið sem var svo heillandi að það gerði ekkert til þó að lyktin þar væri hrikaleg: blanda af rotnum eggjum og gömlu káli. Á gólfinu stóðu tunnur af slímugu efni og hillurnar meðfram veggjunum voru hlaðnar krukkum sem voru fullar af jurtum, þurrkuðum rótum og marglitu dufti. Ofan úr loftinu héngu búnt af fjöðrum og höggtennur og klær höfðu verið þræddar upp á snæri. Hagrid bað afgreiðslumanninn um að finna til skammta af töfraefnunum sem þá vantaði og á meðan skoðaði Harry silfrað horn af einhyrningi á tuttugu og eitt galleon stykkið og agnarlítil, blásvört bjölluaugu (fimm knúta fyrir ausufylli).

Fyrir utan apótekið fór Hagrid aftur yfir listann hans Harrys.

„Nú er bara töfrasprotinn eftir – ójá, ég á ennþá eftir að gefa þér afmælisgjöf.“

Harry fann að hann roðnaði.

„Þú þarft ekki …“

„Ég veit að ég þarf þess ekki. Ég fékk hugmynd, ég ætla að gefa þér dýr. Samt ekki halakörtu, þær fóru úr tísku fyrir mörgum árum, það yrði hlegið að þér – ég vil heldur ekki gefa þér kött, ég hef ofnæmi fyrir þeim. Ég gef þér uglu. Núna eru allir krakkar vitlausir í uglur. Þar að auki koma þær oft í góðar þarfir – þær bera út póst fyrir þig og allt mögulegt.“

Tuttugu mínútum síðar yfirgáfu þeir vængjasláttinn og glampandi, skær augun í Ugluverslun Eeylops. Inni hafði verið dimmt og drungalegt. Harry hélt á stóru búri sem í var falleg snæugla. Hún steinsvaf með höfuðið undir væng. Hann stamaði í sífellu út úr sér þökkum og fannst hann hljóma alveg eins og Quirrell prófessor.

„Ekkert að þakka,“ sagði Hagrid vandræðalegur. „Ég þykist vita að þú hafir ekki fengið of mikið af gjöfum frá Dursleyfjölskyldunni. Nú eigum við bara eftir að líta við hjá Ollivander – það er eina búðin sem selur töfrasprota. Við verðum að finna einn góðan handa þér.“

Töfrasproti … það var sá hlutur sem Harry hlakkaði mest til að eignast.

Síðasta búðin var þröng og niðurnídd. Fyrir ofan dyrnar stóð með gylltum stöfum sem farnir voru að flagna: Ollivander: Höfum framleitt vandaða töfrasprota síðan 382 f. Kr. Í rykugum búðarglugganum lá einmana töfrasproti á upplituðum, skarlatsrauðum púða.

Það klingdi í bjöllu einhvers staðar í iðrum búðarinnar þegar þeir gengu inn. Hún var pínulítil og tóm fyrir utan háfættan stól þar sem Hagrid settist á meðan þeir biðu. Harry leið undarlega – eins og hann væri kominn inn á afskaplega hefðbundið og alvörugefið bókasafn; honum komu ótal spurningar í hug en hann hélt aftur af sér og leit í staðinn í kringum sig. Nú kom hann auga á snyrtilega stafla af litlum, mjóum kössum. Staflarnir náðu alveg upp í loft svo að þetta hlutu að vera þúsundir kassa. Af einhverri ástæðu fann Harry

hárin rísa í hnakkagrófinni. Hérna virtust þögnin og sjálft rykið hlaðin leyndardómsfullum töfrum.

„Góðan dag,“ mælti mjúk rödd. Harry hrökk við. Hagrid hlaut að hafa brugðið líka, því að brak og brestir heyrðust um leið og hann stóð upp af stólnum.

Fyrir framan þá stóð gamall maður. Stór, ljós augu hans skinu eins og tvö tungl í rökkvaðri búðinni.

„Halló,“ sagði Harry aulalega.

„Ó, já. Já, já. Ég átti von á þér, Harry Potter,“ sagði maðurinn og hélt hiklaust áfram: „Þú hefur augun hennar móður þinnar. Mér finnst eins og það hafi verið í gær sem hún kom hingað til að kaupa fyrsta töfrasprotann sinn. Tuttugu og sex sentimetrar á lengd, sveigjanlegur pílviður. Góður sproti til galdrastarfa.“

Herra Ollivander færði sig nær Harry og starði á hann án afláts. Harry vildi óska að hann deplaði augunum. Þessir silfurlitu skjáir voru svolítið hrollvekjandi.

„Aftur á móti kaus faðir þinn sér mahónísprota. Tuttugu og átta sentimetrar. Mjög þjáll. Aðeins kraftmeiri og mjög hentugur til ummyndunar. Ég sagði að faðir þinn hefði kosið sér töfrasprota – en það er auðvitað sprotinn sem velur sér galdramann eða norn.“

Herra Ollivander var kominn svo þétt upp að Harry að þeir stóðu nef við nef. Harry sá spegilmynd sína í stórum, þokukenndum augunum.

„Og þarna er það sem …“

Herra Ollivander snerti örið á enni Harrys með löngum, hvítum fingri.

„Mér þykir leitt að segja frá því að ég seldi töfrasprotann sem olli þessu,“ sagði hann lágri röddu. „Þrjátíu og fimm sentimetrar. Seisei, svo sannarlega kraftmikill sproti. Mjög öflugur en lenti í röngum höndum … Ef ég hefði vitað hvaða afleiðingar þessi sproti ætti eftir að hafa …“

Hann hristi höfuðið og kom þá auga á Hagrid, Harry til mikils léttis.

„Rubeus, Rubeus Hagrid! Gaman að sjá þig aftur … Eik, fjörutíu og einn sentimetri, frekar sveigjanlegur, ekki satt?“ „Einmitt, herra, alveg rétt,“ sagði Hagrid.

„Það var góður töfrasproti. En ég geri ráð fyrir að hann hafi verið brotinn í tvennt þegar þú varst rekinn?“ sagði herra Ollivander og varð skyndilega strangur á svip.

„Eh – já, hann var brotinn,“ sagði Hagrid og tvísté vandræðalegur. „Ég á þó ennþá stykkin tvö,“ bætti hann glaðlega við.

„En þú notar þau vonandi ekki?“ sagði herra Ollivander hvasst.

„Nei, nei, nei, nei,“ flýtti Hagrid sér að svara. Harry tók eftir því að hann greip fast um bleiku regnhlífina sína um leið og hann svaraði.

„Hmm,“ sagði herra Ollivander og sendi Hagrid stingandi augnaráð. „Jæja, herra Potter. Látum okkur sjá.“ Hann dró langt málband með silfurmerkingum upp úr vasanum. „Með hvorri hendinni galdr arðu?“

„Eh – ja, ég er rétthentur," sagði Harry.

„Haltu handleggnum útréttum. Svona." Hann mældi lengdina frá öxl fram á fingur, frá úlnlið upp að olnboga, öxl niður á gólf, frá hné upp í handarkrika og í kringum höfuðið. Um leið og hann mældi sagði hann: „Hver einasti Ollivandersproti hefur kjarna úr kraftmiklu töfraefni, herra Potter. Við notum einhyrningahár, fjöður úr fuglinum Fönix og hjartarætur dreka. Engir tveir Ollivandersprotar eru eins, líkt og engir tveir einhyrningar eða drekar eru nákvæmlega eins. Og þú nærð auðvitað aldrei sama árangri með töfrasprota annars galdramanns."

Það rann skyndilega upp fyrir Harry að málbandið, sem í augnablikinu var að mæla bilið á milli nasavængja hans, gerði það upp á eigin spýtur. Herra Ollivander var upptekinn við að skjótast á milli hillnanna og velja kassa úr stöflunum.

„Þetta ætti að nægja," sagði hann og um leið datt málbandið niður á gólf og rúllaðist upp. „Jæja, herra Potter. Prófaðu þennan. Beykiviður og hjartarót úr dreka. Tuttugu og þrír sentimetrar. Fallegur og sveigjanlegur. Taktu hann og sveiflaðu honum aðeins."

Harry tók sprotann og (honum leið dálítið kjánalega) veifaði honum nokkrum sinnum út í loftið; en herra Ollivander þreif hann samstundis af honum.

„Hlynur og fjöður úr fuglinum Fönix. Átján sentimetrar. Frekar eftirgefanlegur. Prófaðu – “

Harry prófaði og hafði varla hafið hann á loft þegar herra Ollivander reif hann úr höndunum á honum.

„Nei, nei – hérna, íbenholt og einhyrningshár, tuttugu og tveir sentimetrar, fjaðurmagnaður. Drífðu þig – prófaðu.“

Harry prófaði og prófaði. Hann hafði ekki hugmynd um eftir hverju herra Ollivander var að leita. Hrúgan af prófuðum sprotum á háfætta stólnum varð hærri og hærri. En því fleiri sprota sem herra Ollivander þurfti að ná í þeim mun glaðari virtist hann verða.

„Erfiður viðskiptavinur, ha? Hafðu ekki áhyggjur, við finnum fullkominn sprota hérna einhvers staðar. Það væri gaman að sjá … já, af hverju ekki – óvenjuleg samsetning – kristþyrnir og fjöður úr fuglinum Fönix, tuttugu og átta sentimetrar, sérstakur og sveigjanlegur.“

Harry tók við sprotanum og fann hita breiðast út í fingurna. Hann hóf sprotann yfir höfuð sér og sveiflaði honum niður í gegnum rykugt loftið svo að hvein í. Rauðir og gylltir neistar skutust úr öðrum enda stafsins eins og flugeldar. Neistarnir dönsuðu í kringum þá og lýstu upp myrka búðina. Hagrid rak upp fagnaðaróp og klappaði og herra Ollivander hrópaði: „Bravó! Einmitt, já. Frábært. Það verð ég að segja … en undarlegt … mjög merkilegt …“

Hann lagði sprotann hans Harrys aftur ofan í kassann og vafði honum inn í brúnan pappír. Á meðan hélt hann áfram að muldra:

„Furðulegt … stórfurðulegt …“

„Fyrirgefðu,“ sagði Harry. „En hvað er svona furðulegt?“ Herra Ollivander starði á Harry fölum augum.

„Ég man eftir hverjum einasta sprota sem ég hef selt, herra Potter. Hverjum einasta. Það vill þannig til að hluti fjaðrarinnar sem notuð var í þinn sprota var notuð í annan sprota – en bara í einn. Það er mjög furðulegt að þessi sproti

skuli vera ætlaður þér, þar sem bróðursproti hans – já, bróðursprotinn, er sá sem gaf þér þetta ör á ennið.“

Harry svelgdist á.

„Já, hinn stafurinn var þrjátíu og fimm sentimetrar. Undarlegt hvernig hlutirnir æxlast. Mundu að sprotinn kýs galdramanninn … ég held að við getum búist við miklu af þér, herra Potter … Hann-sem-ekki-má-nefna gerði þrátt fyrir allt stórkostlega hluti – hrikalega, satt er það, en stórkostlega.“

Harry skalf. Hann var ekki viss um að honum líkaði sérstaklega vel við herra Ollivander. Hann borgaði sjö galleon fyrir töfrasprotann og herra Ollivander hneigði sig kurteislega fyrir þeim þegar þeir yfirgáfu búðina.

Síðdegissólin var lágt á lofti þegar þeir gengu til baka eftir Skástræti og í gegnum vegginn. Þeir fóru í gegnum Leka seiðpottinn sem nú var mannlaus. Harry sagði ekki orð á leiðinni. Hann gaf engan gaum að fólkinu sem starði forviða á þá þegar þeir settust inn í lestina með alla pinklana og snæugluna sofandi í fangi Harrys. Þeir fóru úr lestinni á Paddingtonstöð og tóku rúllustiga upp á götuna. Harry tók

ekki eftir því hvar hann var fyrr en Hagrid klappaði honum á öxlina.

„Við höfum tíma til að fá okkur smávegis matarbita áður en lestin þín fer,“ sagði hann.

Hann keypti hamborgara handa sér og Harry og þeir settust á plaststóla veitingahússins á meðan þeir borðuðu. Harry leit í kringum sig. Allt virtist einhvern veginn breytt frá því sem það var.

„Er allt í lagi, Harry? Þú ert svo þögull,“ sagði Hagrid.

Harry var ekki viss um að hann gæti útskýrt þetta. Hann hafði upplifað besta afmælisdag lífs síns – en samt – hann tuggði hamborgarann á meðan hann reyndi að koma orðum að þessu.

„Það halda allir að ég sé sérstakur,“ sagði hann loks. „Allt fólkið inni á Leka seiðpottinum, Quirrell prófessor, herra Ollivander … en ég hef ekki hundsvit á göldrum. Hvernig geta þau þá búist við stórkostlegum hlutum af mér? Ég er frægur og ég man ekki einu sinni fyrir hvað. Ég veit ekki hvað gerðist

nóttina sem Vol – fyrirgefðu – ég meina nóttina sem foreldrar mínir dóu.“

Hagrid hallaði sér fram á borðið. Á bak við úfið skeggið og loðnar augnabrúnirnar glitti í hlýlegt bros.

„Hafðu ekki áhyggjur, Harry. Þú verður fljótur að læra þetta. Í Hogwartskóla byrja allir á byrjuninni, þú átt eftir að standa þig. Vertu bara þú sjálfur. Ég veit að þetta er erfitt. Þú ert útvalinn og það er alltaf erfitt. En þú átt eftir að skemmta þér vel í skólanum – það gerði ég – og geri meira að segja enn.“

Hagrid hjálpaði Harry um borð í lestina sem átti að aka honum heim að Runnaflöt. Rétt áður en hún lagði af stað rétti hann Harry umslag.

„Miðinn til Hogwartskóla,“ sagði hann. „Fyrsta september – King’s Cross-lestarstöðin – það stendur allt á miðanum. Ef þú lendir í einhverjum vandræðum með Dursleyfjölskylduna sendir þú mér bara bréf með uglunni þinni – hún veit hvar mig er að finna … Sjáumst fljótlega, Harry.“

Lestin ók af stað frá stöðinni. Harry langaði að horfa á Hagrid þangað til hann hyrfi úr augsýn; hann reisti sig upp í sætinu og þrýsti nefinu upp að rúðunni. En Hagrid var þegar farinn.

# Sjötti kafli
# Ferðin frá brautarpalli níu og þrír fjórðu

Síðasti mánuðurinn hjá Dursleyfjölskyldunni var síður en svo skemmtilegur. Að vísu var Dudley svo hræddur við Harry að hann þorði ekki að vera í sama herbergi. Petunia frænka og Vernon frændi voru hætt að læsa hann inni í kompunni, þvinga hann til að gera leiðinlega hluti og öskra á hann – raunar yrtu þau alls ekki á hann. Þau voru bæði skelfingu lostin og hamslaus af reiði og létu eins og Harry væri ekki til. Þó að það væri ágætt út af fyrir sig varð það dálítið niðurdrepandi til lengdar.

Harry hélt sig því að mestu inni í herberginu sínu ásamt nýju uglunni sinni. Hann hafði ákveðið að kalla hana Hedwig, nafnið hafði hann fundið í Sögu galdranna. Skólabækurnar hans voru óhemju spennandi. Hann lá í rúminu sínu og las langt fram eftir nóttu á meðan Hedwig flögraði inn og út um

gluggann eins og henni þóknaðist. Það var eins gott að Petunia frænka var hætt að koma inn til að ryksuga vegna þess að Hedwig var dugleg að flytja inn með sér dauðar mýs. Hann var byrjaður að telja dagana til fyrsta september. Á hverju kvöldi áður en hann lagðist til svefns krossaði hann yfir enn einn dag á blaðinu sem hann hafði hengt upp á vegg.

Á síðasta degi ágústmánaðar ákvað Harry að nú væri tími til kominn að ræða við frænda sinn og frænku um það hvernig hann ætti að komast til King's Cross-lestarstöðvarinnar. Hann gekk niður í stofuna þar sem þau sátu og horfðu á spurningakeppni í sjónvarpinu. Hann ræskti sig til að láta vita af sér og Dudley hljóp æpandi út úr stofunni.

„Eh – Vernon frændi?“

Vernon frændi rumdi til merkis um að hann hlustaði.

„Ég þarf að fara á King's Cross-lestarstöðina á morgun til þess – til þess að komast í Hogwartskólann.“ Vernon frændi rumdi aftur.

„Gætirðu kannski keyrt mig þangað?“

Enn rumdi í honum. Harry gerði ráð fyrir að það þýddi já.

„Takk.“

Hann var í þann mund að ganga upp stigann þegar Vernon frændi tók til máls.

„Það er einkennilegt að þurfa að taka lest í skóla fyrir galdramenn. Eru göt á öllum töfrateppunum?“ Harry sagði ekki orð.

„Hvar er þessi skóli eiginlega?“

„Ég veit það ekki,“ sagði Harry. Reyndar hafði hann ekki leitt hugann að því fyrr en nú. Hann tók miðann sem Hagrid hafði rétt honum upp úr vasanum.

„Ég tek lestina frá brautarpalli níu og þrír fjórðu klukkan ellefu,“ las hann.

Frændi hans og frænka störðu á hann.

„Brautarpalli númer hvað?“

„Níu og þrír fjórðu.“

„Þetta er nú meira bullið,“ sagði Vernon frændi, „það er enginn brautarpallur númer níu og þrír fjórðu.“

„Það stendur á miðanum.“

„Þau eru rugluð,“ sagði Vernon frændi, „snælduvitlaus, öll með tölu. Sannaðu til. Við skulum keyra þig á lestarstöðina á morgun, við þurfum að fara inn til London hvort eð er, annars hefði ég aldrei gert mér það ómak.“

„Af hverju eruð þið á leiðinni til London?“ spurði Harry. Hann vildi gjarnan reyna að halda samræðunum á vinalegu nótunum.

„Við þurfum að fara með Dudley á spítalann,“ urraði Vernon frændi. „Við þurfum að láta fjarlægja þennan bölvaða hala áður en hann byrjar í Smeltingskóla.“

Harry vaknaði klukkan fimm næsta morgun og var of spenntur og taugaóstyrkur til að geta sofnað aftur. Hann fór á fætur og klæddi sig í gallabuxurnar; hann gat ekki hugsað sér að ganga inn á lestarstöðina í galdramannsfötunum. Hann

gæti skipt um föt um borð í lestinni. Hann fór enn einu sinni í gegnum minnislistann frá skólanum til að fullvissa sig um að ekkert hefði gleymst. Hann athugaði hvort búrið hennar Hedwigar væri ekki örugglega vel læst og gekk svo um gólf í herberginu sínu á meðan hann beið eftir því að Dursleyfjölskyldan vaknaði.

Tveimur tímum síðar lá gríðarstórt koffortið hans Harrys í skottinu á bíl Dursleyfjölskyldunnar. Petuniu frænku hafði með fortölum tekist að fá Dudley til að sitja við hliðina á Harry. Svo lögðu þau af stað.

Þau komu til King's Cross-lestarstöðvarinnar klukkan hálfellefu. Vernon frændi skellti koffortinu hans Harrys á kerru og keyrði það inn á stöðina fyrir hann. Harry undraðist þessa skyndilegu góðvild þar til Vernon frændi staðnæmdist snögglega fyrir framan brautarpallana með illkvittið bros á vör.

„Þá erum við komnir, drengur minn. Brautarpallur níu – brautarpallur tíu. Brautarpallurinn þinn ætti að vera þarna í miðjunni einhvers staðar, en það lítur ekki út fyrir að það sé búið að byggja hann ennþá.“

Auðvitað hafði hann alveg rétt fyrir sér. Það hékk stórt skilti sem á stóð níu yfir öðrum brautarpallinum og annað með stórri tíu yfir hinum. Á milli brautarpallanna var ekkert nema miðasala.

„Hafðu það gott í skólanum," sagði Vernon frændi með enn illkvittnara brosi; svo yfirgaf hann Harry án frekari málalenginga. Harry sneri sér við til að fylgjast með Dursleyfjölskyldunni keyra á brott.

Þau voru öll skellihlæjandi. Harry varð þurr í munninum. Hvað í ósköpunum átti hann að taka til bragðs? Fólk var byrjað að gefa honum auga út af Hedwig. Hann varð að spyrja einhvern til vegar.

Hann stöðvaði brautarvörð sem átti leið framhjá en þorði ekki að minnast á brautarpall níu og þrjá fjórðu. Brautarvörðurinn hafði aldrei heyrt minnst á Hogwartskóla og þegar Harry gat ekki einu sinni sagt honum í hvaða landshluta skólinn væri varð hann ergilegur og hélt að Harry væri að spila með sig. Harry spurði vonleysislega hvort einhver lest færi klukkan ellefu en brautarvörðurinn sagði svo ekki vera. Svo strunsaði hann í burtu tautandi eitthvað í barm sér um tímaþjófa.

Harry var orðinn mjög örvæntingarfullur. Samkvæmt stóru klukkunni sem hékk fyrir ofan komutilkynningaspjaldið hafði hann tíu mínútur til að koma sér um borð í lestina til Hogwartskóla og hann hafði ekki hugmynd um hvernig hann átti að fara að því. Hann var strandaglópur á miðri lestarstöð með koffort sem hann gat varla lyft, vasana fulla af galdrapeningum og stóra uglu.

Hagrid hlaut að hafa gleymt að segja honum frá einhverju bragði sem þyrfti að beita – eins og þegar þeir þurftu að banka í þriðja múrstein til vinstri til að komast inn í Skástræti. Hann hugleiddi að draga fram töfrasprotann og banka honum í miðasöluna sem var á milli brautarpalls níu og tíu.

Í sömu andrá heyrði hann á tal fólks sem gekk framhjá honum. „… og hér er allt yfirfullt af Muggum, eins og venjulega …“

Harry snarsnerist á hæli. Sú sem talaði var þybbin kona. Hún leiddi litla stúlku og beindi orðum sínum að fjórum drengjum sem allir voru með eldrautt hár. Þeir ýttu á undan sér sams konar koffortum og Harry var með – og allir héldu þeir á uglum.

Með dúndrandi hjartslátt ýtti Harry koffortinu af stað á eftir þeim. Þau námu staðar og Harry líka, nægilega nálægt til að heyra hvað þeim fór á milli.

„Jæja, númer hvað var brautarpallurinn?“ spurði móðir barn anna.

„Níu og þrír fjórðu!“ gall í litlu stelpunni sem líka var rauðhærð. „Af hverju má ég ekki fara með, mamma?“

„Þú ert ekki nógu gömul, Ginny, og hafðu nú hljótt. Jæja, Percy, þú ferð fyrstur.“

Drengurinn sem leit út fyrir að vera elstur þrammaði af stað í áttina að brautarpöllum níu og tíu. Harry horfði fast á eftir honum; hann þorði ekki að depla auga af ótta við að missa af honum – en um leið og drengurinn var kominn að skilveggnum á milli brautarpallanna tveggja gekk hópur ferðamanna framhjá og þegar síðasti bakpokinn var horfinn sást hvorki tangur né tetur af honum.

„Fred, þú ert næstur,“ sagði þybbna konan.

„Ég heiti ekki Fred. Ég er George,“ sagði drengurinn. „Ég meina það, kona! Þú kallar þig mömmu okkar og þekkir okkur ekki einu sinni í sundur!“

„Fyrirgefðu, George minn.“

„Bara að grínast, ég er Fred,“ sagði drengurinn og lagði af stað. Tvíburabróðir hans kallaði á eftir honum að drífa sig og það hlaut hann að hafa gert því að andartaki síðar var hann horfinn – en hvernig hafði hann farið að því?

Nú gekk þriðji bróðirinn rösklega í átt að miðasölunni – hann var næstum kominn þangað – og allt í einu sást hann hvergi.

Nú var ekki um nema eitt að ræða.

„Afsakið,“ sagði Harry við þybbnu konuna.

„Halló, væni minn,“ sagði hún. „Ertu að fara í Hogwartskóla í fyrsta skipti? Ron er líka nýr.“

Hún benti á þann síðasta og yngsta af sonum sínum. Hann var hár, grannur og slánalegur með stórar hendur og stóra fætur. Andlitið var þakið freknum og nefið langt.

„Já,“ svaraði Harry. „Málið er sko bara – að ég veit ekki hvernig á að …“

„Hvernig á að komast á brautarpallinn?“ sagði hún vingjarnlega, og Harry kinkaði kolli.

„Hafðu ekki áhyggjur,“ sagði hún. „Það eina sem þú þarft að gera er að ganga beint að skilveggnum milli brautarpalla níu og tíu. Þú mátt ekki nema staðar og ekki vera hræddur við að rekast á hann, það er mjög mikilvægt. Það er best að taka dálítið tilhlaup ef þú ert stressaður. Drífðu þig bara af stað, á undan Ron.“ „Allt í lagi,“ sagði Harry.

Hann sneri kerrunni með koffortinu við og starði á vegginn. Hann var mjög traustbyggður að sjá.

Hann gekk í áttina að veggnum. Fólk á leið að brautarpöllum níu og tíu stjakaði við honum. Harry herti á göngunni. Hann myndi klessa á miðasöluna og þá fyrst væri hann í vandræðum – hann hallaði sér fram á kerruna og byrjaði að hlaupa. Veggurinn færðist nær og nær – hann gæti ekki stöðvað sig núna – kerran var stjórnlaus – hann var bara eitt

skref frá veggnum – hann lokaði augunum og beið eftir árekstrinum –

En ekkert gerðist … hann hélt áfram að hlaupa … hann opnaði augun.

Hárauð járnbrautarlest stóð við brautarpall sem var fullur af fólki. Hann kom auga á skilti sem á stóð Hogwarthraðlestin, brottför klukkan 11. Hann leit aftur fyrir sig og sá bogagöng úr járni þar sem miðasalan hafði áður verið. Fyrir ofan bogagöngin stóð Brautarpallur níu og þrír fjórðu. Honum hafði tekist þetta.

Upp úr járnbrautarlestinni steig gufa sem barst yfir háværa mannþröngina á brautarpallinum og allavega litir kettir vöppuðu til og frá milli fóta fólksins. Uglurnar vældu úrillar hver á aðra og yfirgnæfðu blaðrið og ískrið í koffortum sem dregin voru um.

Fremstu lestarvagnarnir voru þegar orðnir fullir af nemendum. Sumir héngu hálfir út um gluggana til að kveðja fjölskyldur sínar og aðrir slógust um sæti. Harry ýtti koffortinu á undan sér eftir brautarpallinum í leit að auðu sæti. Hann

gekk framhjá kringluleitum dreng sem sagði: „Ég týndi halakörtunni minni aftur, amma.“

„Ó, Neville,“ heyrði hann gömlu konuna andvarpa. Drengur með rastafléttur var miðpunkturinn í litlum hópi.

„Leyfðu okkur að sjá, Lee, gerðu það.“

Drengurinn lyfti loki af kassa sem hann hélt á og fólkið í kringum hann æpti og öskraði þegar langur, loðinn fótur teygði sig upp úr kassanum.

Harry tróð sér í gegnum þvöguna þar til hann kom auga á auðan vagn aftarlega í lestinni. Hann setti Hedwig inn fyrst og byrjaði svo að baksa við koffortið. Hann reyndi af öllum kröftum að hífa það upp tröppurnar en honum tókst bara að lyfta því öðrum megin og tvívegis missti hann það ofan á tærnar á sér.

„Vantar þig aðstoð?“ Þetta var annar rauðhærðu tvíburanna sem hann hafði elt í gegnum miðasöluna.

„Já, takk,“ sagði Harry andstuttur.

„Heyrðu, Fred! Komdu og hjálpaðu okkur!“

Með hjálp tvíburanna tókst loksins að koma koffortinu hans Harrys inn í eitt horn klefans.

„Takk,“ sagði Harry og strauk svitastorkið hárið frá augunum.

„Hvað er þetta?“ spurði annar tvíburinn skyndilega og benti á örið á enni Harrys.

„Fjandakornið,“ sagði hinn tvíburinn. „Ert þú …?“

„Þetta er hann,“ sagði fyrri tvíburinn. „Er það ekki?“ bætti hann við og beindi orðum sínum að Harry.

„Hvað?“ spurði Harry.

„Harry Potter,“ sögðu tvíburarnir í kór.

„Ó, hann,“ sagði Harry. „Ég meina, jú, ég er hann.“

Drengirnir tveir göptu og Harry fann að hann roðnaði. Honum til mikils léttis barst nú rödd í gegnum opnar lestardyrnar.

„Fred? George? Eruð þið þarna?“

„Við erum að koma, mamma.“

Þeir gutu augunum enn einu sinni til Harrys áður en þeir stukku út úr lestinni.

Harry fékk sér sæti við gluggann þar sem hann gat fylgst hálffalinn með rauðhærðu fjölskyldunni á brautarpallinum og heyrt hvað þau sögðu. Mamma þeirra dró rétt í þessu fram vasaklút.

„Þú ert með eitthvað á nefinu, Ron.“

Yngsti drengurinn reyndi að slíta sig lausan en hún hélt honum föstum og fór að nudda á honum nefbroddinn.

„Mamma, hætt’essu.“ Hann reif sig lausan.

„Æ, æ, er Ronní litli með eitthvað á nebbanum sínum?“ sagði annar tvíburanna.

„Þegiðu,“ sagði Ron.

„Hvar er Percy?“ spurði móðir þeirra.

„Hann er að koma.“

Elsti drengurinn kom stikandi í áttina til þeirra. Hann var búinn að skipta um föt og klæddist nú svartri Hogwartskikkjunni sem bylgjaðist þegar hann gekk. Harry tók eftir skínandi silfurmerki sem nælt var í brjóstið á skikkjunni hans. Á því stóð bókstafurinn U.

„Ég verð að flýta mér, mamma.“ sagði hann. „Ég er með sæti framarlega, umsjónarmennirnir eru með tvo vagna út af fyrir sig …“

„Ó, ert þú umsjónarmaður, Percy?“ spurði annar tvíburanna og setti upp undrunarsvip. „Þú hefðir átt að segja okkur frá því. Við höfðum ekki hugmynd um það.“

„Bíddu við, mig minnir að hann hafi minnst lauslega á það,“ sagði annar tvíburinn. „Einu sinni …“

„Eða tvisvar …“

„Eða hundrað sinnum …“

„Eða stöðugt í allt sumar …“

„Æ, haldiði ykkur saman,“ sagði umsjónarmaðurinn Percy.

„Af hverju fékk Percy nýja skikkju?“ spurði annar tvíburanna.

„Af því að hann er orðinn umsjónarmaður,“ sagði móðir þeirra blíðlega. „Hlauptu bara af stað, elskan, og hafðu það gott í skólanum – sendu mér uglu þegar þið eruð komnir.“

Hún kyssti Percy á vangann og hann hvarf inn í þvöguna. Svo sneri hún sér að tvíburunum.

„Jæja, þið tveir – þetta árið hegðið þið ykkur vel. Ef ég fæ eina uglu í viðbót sem segir mér að þið hafið sprengt klósett í loft upp eða …“

„Sprengt upp klósett? Við höfum aldrei sprengt upp klósett.“

„En þetta er frábær hugmynd, mamma. Kannski notum við hana einhvern tíma.“

„Þetta er ekki fyndið. Og hafið auga með Ron.“

„Hafðu ekki áhyggjur, litla Ronníkrúttið þitt er öruggt hjá okkur.“

„Þegiðu,“ sagði Ron aftur. Hann var nú þegar næstum jafn hár tvíburunum og nefið á honum var ennþá rautt þar sem móðir hans hafði nuddað það.

„Heyrðu, mamma, gettu hvern við hittum í lestinni?“

Harry hallaði sér aftur á bak í sætið svo að þau sæju hann ekki fylgjast með þeim.

„Manstu eftir svarthærða stráknum sem stóð fyrir aftan okkur á lestarstöðinni? Veistu hver það er?“

„Nei, hver?“

„Harry Potter!“

Harry heyrði nú rödd litlu stúlkunnar.

„Ó, mamma, má ég fara um borð og sjá hann, ó, mamma, gerðu það …“

„Þú sást hann áðan, Ginny, og þú getur ekki gónt á aumingja drenginn eins og dýr í dýragarði. Var þetta virkilega hann, Fred? Hvernig veistu það?“

„Ég spurði hann. Og við sáum örið á enninu á honum. Það er þarna í raun og veru – alveg eins og elding í laginu.“

„Aumingja drengurinn – engin furða að hann skyldi vera einn á ferð. Hann var svo kurteis þegar hann spurði til vegar.“

„Skítt með það. Ætli hann muni hvernig Þú-veist-hver lítur út?“ Móðir þeirra varð skyndilega mjög ströng á svipinn.

„Þú mátt ekki spyrja hann út í þetta, Fred. Nei, þú vogar þér það ekki. Hann þarf áreiðanlega ekki á því að halda fyrsta skóladaginn að vera minntur á það.“ „Allt í lagi, slappaðu af.“ Nú heyrðist flautað.

„Drífið ykkur af stað!“ sagði móðir þeirra og drengirnir þrír klöngruðust upp í lestina. Þeir teygðu sig út um gluggann til að kyssa mömmu sína og litla systir þeirra fór að gráta.

„Hættu, Ginny mín, við skulum senda þér fullt af uglum.“

„Við sendum þér klósettsetu frá Hogwartskóla.“

„George!“

„Bara að grínast, mamma.“

Lestin rann af stað. Harry sá móður drengjanna veifa þeim og systur þeirra hálfhlæjandi og hálfgrátandi hlaupa á eftir lestinni þangað til hún jók hraðann. Þá nam hún staðar og veifaði þeim. Harry horfði á stúlkuna og móður hennar þar til þær hurfu úr augsýn við fyrstu beygjuna. Húsin þutu framhjá lestarglugganum. Harry varð skyndilega mjög eftirvæntingarfullur. Hann hafði ekki hugmynd um hvað framtíðin bæri í skauti sér – en það hlaut að vera betra en það sem var að baki.

Rennihurðin á lestarklefanum opnaðist og sá yngsti af rauðhærðu bræðrunum gægðist inn.

„Situr einhver þarna?“ spurði hann og benti á sætið á móti Harry. „Það er alls staðar fullt.“

Harry hristi höfuðið og strákurinn settist. Hann gaut augunum til Harrys en leit svo snöggt út um gluggann eins og hann væri alls ekkert forvitinn. Harry tók eftir því að hann var ennþá með svartan blett á nefinu.

„Heyrðu, Ron.“ Tvíburarnir voru komnir.

„Við ætlum að skjótast inn í miðja lest til Lees Jordans. Hann er með risastóra tarantúlu í klefanum hjá sér.“ „Allt í lagi,“ muldraði Ron.

„Harry,“ sagði annar tvíburinn, „við gleymdum víst að kynna okkur! Fred og George Weasley. Og þetta er Ron bróðir okkar. Sjáumst seinna.“

„Bless,“ sögðu Harry og Ron. Tvíburarnir lokuðu rennihurðinni á eftir sér.

„Ertu í alvörunni Harry Potter?“ fleipraði Ron út úr sér. Harry kinkaði kolli.

„Ó – ég hélt að þetta væri bara enn einn brandarinn hjá Fred og George,“ sagði Ron. „Og ertu virkilega með – þú veist …“ Hann benti á enni Harrys.

Harry lyfti toppinum til að sýna örið. Ron starði.

„Var það þarna sem Þú-veist-hver …“

„Já,“ sagði Harry, „en ég man ekkert eftir því.“ „Ekkert?“ spurði Ron ákafur.

„Ja – ég man eftir skæru, grænu ljósi, en það er það eina.“

„Vá,“ sagði Ron. Hann sat og starði á Harry nokkra stund. Svo áttaði hann sig og leit aftur út um gluggann.

„Eru allir í þinni fjölskyldu galdramenn?“ spurði Harry. Hann var alveg jafn spenntur fyrir Ron og Ron var fyrir honum.

„Já, ég held það,“ sagði Ron. „Ég held að mamma eigi einn frænda sem er endurskoðandi en það er aldrei minnst á hann heima.“

„Þú hlýtur þá að vita alveg helling um galdra.“ Weasleyfjölskyldan var greinilega ein af gömlu galdrafjölskyldunum sem föli pilturinn í Skástræti hafði talað um.

„Ég heyrði að þú hefðir verið alinn upp hjá Muggunum," sagði Ron. „Hvernig voru þeir eiginlega?"

„Hrikalegir – ja, reyndar ekki allir, en frændi minn, frænka og sonur þeirra eru ömurleg. Ég vildi óska að ég ætti þrjá galdrabræður eins og þú."

„Fimm," sagði Ron. Af einhverjum ástæðum varð hann dapur á svip. „Ég er sá sjötti í fjölskyldunni sem fer í Hogwartskóla. Það er óhætt að segja að ég verði að standa mig vel. Bill og Charlie eru búnir með skólann – Bill var efstur í sínum bekk og Charlie var fyrirliði Quidditchliðsins. Núna er Percy umsjónarmaður. Fred og George eru alltaf með einhver fíflalæti, en þeir fá samt frábærar einkunnir og öllum finnst þeir skemmtilegir. Allir gera ráð fyrir því að ég standi mig jafn vel og þeir og þótt það takist finnst engum það neitt merkilegt. Það er bara sjálfsagt. Og þegar maður er yngstur af sex bræðrum fær maður aldrei neitt nýtt. Ég fékk gömlu skikkjuna hans Bills, gamla sprotann hans Charlies og gömlu rottuna hans Percys."

Ron fór ofan í vasa á jakkanum sínum og dró fram feita, gráa rottu sem var steinsofandi.

„Hann heitir Scabber og er gjörsamlega gagnslaus. Það er næstum ómögulegt að vekja hann. Percy fékk uglu frá pabba þegar hann var kosinn umsjónarmaður, en þau höfðu ekki efni … ég meina, Scabber verður að duga mér svona fyrst um sinn.“

Eyrun á Ron urðu rauð. Honum fannst greinilega að hann hefði sagt of mikið, því að hann fór aftur að horfa út um gluggann.

Harry fannst ekkert athugavert við að hafa ekki efni á að kaupa uglu. Þegar allt kom til alls hafði hann aldrei haft neina peninga á milli handanna fyrr en hann hitti Hagrid. Hann flýtti sér að segja Ron frá samskiptum sínum við Dursleyfjölskylduna; frá notuðu fötunum af Dudley sem voru allt of stór og hræðilegum, gjafalausum afmælisdögum. Þetta virtist bæta skap Rons.

„… og þangað til Hagrid sagði mér frá foreldrum mínum vissi ég ekkert um galdramenn eða Voldemort …“ Ron greip andann á lofti.

„Hvað er að?“ spurði Harry.

„Þú nefndir Þúveisthvern á nafn!“ sagði Ron með samblandi af hneykslun og hrifningu í rómnum. „Ég hefði haldið að þú af öllum …“

„Ég er ekkert að reyna að vera hugrakkur með því að nefna hann á nafn,“ sagði Harry. „Ég vissi bara ekki að það mætti ekki. Sérðu þá hvað ég á við? Ég á svo margt ólært … og ég er viss um,“ bætti hann við lágri röddu og lét nú í fyrsta skipti nokkuð í ljós sem hafði hvílt á honum, „ég er viss um að ég verð lélegastur í bekknum.“

„Þú verður ekki lélegastur. Það er fullt af nemendum sem koma úr Muggafjölskyldum og þeir eru alveg jafn fljótir að læra og hinir.“

Á meðan þeir töluðu saman ók lestin út úr London. Hún þaut framhjá ökrum þar sem kýr og kindur stóðu á beit. Þeir þögðu um stund og fylgdust með beitilöndum og sveitagötum fara hratt hjá. Um hálfeittleytið heyrðist mikill skarkali frammi á gangi. Brosmild kona með spékoppa opnaði rennidyrnar á klefanum þeirra og sagði: „Má bjóða ykkur eitthvað af matarvagninum, elskurnar?“

Harry hafði ekki borðað neinn morgunverð svo að hann spratt á fætur til að líta á úrvalið. Eyrun á Ron urðu aftur rauð þegar hann muldraði í barm sér að hann hefði tekið með sér nesti. Harry fór fram á gang.

Á meðan hann bjó á Runnaflöt hafði hann aldrei haft efni á að kaupa sér sælgæti. En núna voru vasar hans fullir af gulli og silfri og hann var reiðubúinn að kaupa eins mörg Marssúkkulaðistykki og hann gat borið – en konan átti ekkert Marssúkkulaði. Hún átti hins vegar fjöldabragðbaunir Berta Botts, súkkulaðifroska, lakkríssprota, graskerskökur, seiðpottatertur og ýmislegt fleira skrítið sem Harry hafði aldrei séð áður. Hann vildi ekki missa af neinu svo hann keypti dálítið af öllu og borgaði konunni ellefu silfursikkur og sjö knúta. Ron starði á Harry þegar hann rogaðist inn í klefann með fangið fullt af sælgæti og hrúgaði því í auða sætið við hliðina á sér.

„Þú hlýtur að vera svangur."

„Glorsoltinn," sagði Harry og fékk sér stóran bita af graskersköku. Ron náði í nestið sitt úr koffortinu og tók utan af því. Í pakkanum voru fjórar samlokur. Hann tók eina þeirra í sundur og sagði:

„Mamma gleymir því alltaf að ég borða ekki lifrarkæfu.“

„Ég skal skipta við þig,“ sagði Harry og rétti fram seiðpottatertusneið. „Gjörðu svo vel …“

„Þú hefur örugglega ekki lyst á þessu brauði,“ sagði Ron. „Það er eins og þerripappír. Hún hefur svo lítinn tíma af því að við erum svo mörg,“ bætti hann afsakandi við.

„Fáðu þér það sem þú vilt,“ sagði Harry. Hann hafði aldrei áður haft tækifæri til að deila neinu með öðrum – eða hitt neinn sem vildi taka við einhverju frá honum. Það var notaleg tilfinning að sitja þarna með Ron og úða í sig sælgæti og kökum (samlokurnar voru löngu gleymdar).

„Hvað er þetta?“ spurði Harry og lyfti upp pakka af súkkulaðifroskum. „Þetta eru ekki alvöru froskar, er það nokkuð?“ Honum var farið að líða eins og ekkert gæti framar komið honum á óvart.

„Nei,“ sagði Ron. „En líttu á myndina sem fylgir með – mig vantar Agrippu.“

„Ha?“

„Nei, alveg rétt. Þetta gastu ekki vitað – það eru myndir inni í súkkulaðifroskunum, þú veist, til að safna – á þeim eru frægustu nornir og galdramenn allra tíma. Ég á eitthvað í kringum fimm hundruð en mig vantar Agrippu og Ptolemy.“

Harry tók utan af súkkulaðifroski og fann myndina. Á henni var karlmannsandlit. Hann var með gleraugu, langt, bogið nef, sítt, silfurlitað hár og skegg. Undir myndinni stóð nafn: Albus Dumbledore.

„Svo að þetta er Dumbledore!“ hrópaði Harry upp yfir sig.

„Ætlarðu að reyna að telja mér trú um að þú hafir aldrei séð Dumbledore áður!“ sagði Ron. „Má ég fá frosk? Kannski fæ ég Agrippu – takk …“

Harry sneri myndinni við og las:

Albus Dumbledore, núverandi skólastjóri Hogwartskóla. Af mörgum talinn mesti galdramaður nútímans. Dumbledore er einkum og sér í lagi þekktur fyrir að hafa sigrað galdramann myrku aflanna, Grindelwald, árið 1945, fyrir uppgötvun sína á

tólf möguleikum til nýtingar drekablóðs og vinnu sína við gullgerðarlist ásamt félaga sínum Nicolasi Flamel. Áhugamál Dumbledore prófessors eru kammertónlist og keiluspil.

Harry sneri myndinni aftur við og sá sér til mikillar undrunar að andlit Dumbledore var horfið.

„Hann er horfinn!“

„Hann fer náttúrlega ekki að hanga þarna í allan dag,“ sagði Ron.

„Hann kemur aftur seinna. Nei, ég fékk Morgönu aftur. Ég á að minnsta kosti sex myndir af henni … vilt þú eiga hana? Þú getur byrjað að safna.“

Augu Rons hvíldu á hrúgu af súkkulaðifroskum sem biðu þess að verða teknir upp.

„Fáðu þér,“ sagði Harry. „En, þú veist, í Muggaheimi er fólk kyrrt á myndunum.“

„Er það? Hreyfir það sig ekkert?“ Ron var gáttaður á svip. „En furðulegt!“

Undrun Harrys varð ekki minni þegar Dumbledore smeygði sér aftur inn á myndina og sendi honum lítið bros. Ron hafði meiri áhuga á að borða súkkulaðifroskana en að skoða fræga galdramenn og nornir, en Harry var alveg heillaður af þeim. Fljótlega átti hann, auk Dumbledore og Morgönu, Hengis frá Woodcroft, Alberic Grunnion, Circe, Paracelsus og Merlin. Hann átti sérstaklega erfitt með að slíta augun af myndinni af drúídafrúnni Cliodnu sem var að klóra sér í nefinu. Svo opnaði hann pakka af fjöldabragðbaunum Berta Botts.

„Þú skalt fara varlega með þessar," aðvaraði Ron hann. „Þetta eru fjöldabragðbaunir í bókstaflegri merkingu. Þú getur fengið þessar venjulegu með súkkulaði-, piparmyntu- og marmelaðibragði, en þú átt líka á hættu að fá spínat- eða lifrarbragð. George heldur að hann hafi einu sinni fengið baun með horbragði."

Ron tók græna baun upp úr pakkanum og skoðaði hana vandlega áður en hann tók örlítinn bita af henni.

„Ooojj – þarna sérðu! Spírur."

Þeir skemmtu sér vel við að borða fjöldabragðbaunirnar. Harry fékk ost, kókoshnetu, bakaða baun, jarðarber, karrý, gras, kaffi og sardínur. Hann prófaði meira að segja að bíta í eina gráa sem Ron vildi ekki snerta. Það kom í ljós að hún bragðaðist eins og pipar.

Landslagið sem þaut hjá varð stöðugt villtara. Snyrtilegu akr arnir voru á bak og burt. Nú keyrði lestin framhjá skógum, dökkgrænum hlíðum og ám sem liðuðust áfram.

Það var bankað á klefadyrnar og kringluleitur strákur kom inn. Harry mundi eftir að hafa séð hann á brautarpallinum. Hann var með tárin í augunum.

„Afsakið,“ sagði hann, „en hafið þið séð halakörtu hérna einhvers staðar?“

Þegar þeir hristu höfuðið brast hann í grát: „Ég er búinn að týna henni! Hún er alltaf að strjúka frá mér!“ „Hún finnst,“ sagði Harry.

„Já,“ sagði strákurinn vesaldarlega. „En ef þið sjáið hana …“ Hann fór aftur.

„Ég skil ekki hvernig hann nennir að æsa sig yfir þessu," sagði Ron. „Ef ég ætti halakörtu hefði ég reynt að týna henni sem fyrst. En ég ætti nú ekki að segja mikið, með Scabber í eftirdragi."

Rottan lá enn dottandi í kjöltunni á Ron.

„Hann gæti hæglega dáið án þess að ég tæki eftir því," sagði Ron með fyrirlitningu. „Ég reyndi að galdra hann gulan í gær, til að gera hann meira spennandi, en það virkaði ekki. Ég skal sýna þér dálítið …" Hann rótaði í koffortinu sínu og dró upp afar slitinn töfrasprota. Hann var farinn að flagna og eitthvað hvítt stakkst út úr öðrum endanum.

„Einhyrningshárið er alveg að detta úr. Hvað um það … "

Hann var rétt búinn að lyfta stafnum þegar klefadyrnar opnuðust á nýjan leik. Halakörtustrákurinn var kominn aftur en nú var stúlka í för með honum. Hún var klædd nýju skólaskikkjunni sinni.

„Hefur einhver séð halakörtu? Neville týndi sinni," sagði hún. Það var stjórnsemi í rómnum; hún var með mikið, brúnt hár og stórar framtennur.

„Við vorum búnir að segja honum að við hefðum ekki séð hana,“ sagði Ron en stúlkan var ekki að hlusta. Hún horfði á töfrasprotann sem hann hélt á.

„Ó, ertu að galdra? Leyfðu okkur að sjá hvað þú kannt.“ Hún settist. Ron varð hvumsa.

„Eh – allt í lagi.“ Hann ræskti sig.

„Sólskin, fífill, galdraþula, gerðu heimsku rottuna gula.“

Hann veifaði sprotanum en ekkert gerðist. Scabber hélt áfram að vera grár og steinsofandi.

„Ertu viss um að þetta sé alvöru töfraþula?“ spurði stelpan. „Hún er í það minnsta ekkert sérstaklega góð. Ég er búin að prófa nokkrar einfaldar töfraþulur – bara til að æfa mig – og þær hafa allar virkað. Enginn í minni fjölskyldu kann neitt að galdra svo ég varð alveg steinhissa þegar ég fékk bréfið, ég var svo ánægð, ég meina, þetta er besti galdraskóli sem til er, eftir því sem ég hef heyrt – ég er búin að læra allar námsbækurnar utan að, auðvitað, ég vona bara að það sé

nóg – annars heiti ég Hermione Granger, hverjir eruð þið?“ Þessu bunaði hún öllu út úr sér.

Harry leit á Ron og var feginn að sjá að af undrunarsvipn um á andliti hans að dæma hafði hann heldur ekki lært allar bækurnar utan að.

„Ég heiti Ron Weasley,“ muldraði Ron.

„Harry Potter,“ sagði Harry.

„Ertu í alvörunni Harry Potter?“ spurði Hermione. „Ég veit allt um þig – ég útvegaði mér aukalega nokkrar grunnbækur og það er fjallað um þig í Galdrasögu nútímans og Uppgangi og falli myrku aflanna og Stærstu galdraviðburðum tuttugustu aldarinnar.“ „Er fjallað um mig?“ spurði Harry ringlaður.

„Guð minn góður, vissirðu það ekki? Ég hefði sko lesið allt sem væri þess virði að vita í þínum sporum,“ sagði Hermione. „Vitið þið á hvaða heimavist þið verðið? Ég hef verið að spyrjast fyrir og ég vona að ég lendi í Gryffindor. Ég held að það sé langbesta heimavistin, ég frétti að Dumbledore hefði verið þar á sínum tíma, en það væri eflaust ágætt að vera í Ravenclaw … Jæja, ég ætla að halda áfram að leita að

halakörtunni hans Nevilles. Þið tveir ættuð að fara að skipta um föt, við erum að verða komin.“

Svo fór hún og tók halakörtustrákinn með sér.

„Á hvaða heimavist sem ég lendi, þá vona ég bara að hún verði ekki þar,“ sagði Ron. Hann fleygði töfrasprotanum aftur ofan í koffortið. „Heimskuleg töfraþula – George kenndi mér hana. Hann hefur örugglega vitað að hún er gagnslaus.“

„Á hvaða heimavist eru bræður þínir?“ spurði Harry.

„Gryffindor,“ sagði Ron. Dapurleikinn virtist vera að ná tökum á honum aftur. „Mamma og pabbi voru þar líka. Ég veit ekki hvað þau segja ef ég lendi annars staðar. Ég held að vísu að Ravenclaw sé í lagi en hugsaðu þér ef ég verð settur í Slytherin.“

„Það er heimavistin sem Vol – ég meina Þú-veist-hver var í, er það ekki?“

„Jamm,“ sagði Ron. Hann hallaði sér aftur í sætið niðurdreginn á svip.

„Veistu, ég held að veiðihárin á Scabber hafi gulnað örlítið,“ sagði Harry og reyndi að leiða huga Rons að einhverju öðru en heimavistinni. „Hvað gera elstu bræður þínir núna?“

Harry hafði velt því dálítið fyrir sér hvað galdramenn hefðu fyrir stafni þegar þeir væru búnir með skólann.

„Charlie er í Rúmeníu að rannsaka dreka og Bill er í Afríku að vinna fyrir Gringottbankann,“ sagði Ron. „Heyrðirðu fréttirnar um Gringottbankann? Það stóð í Spámannstíðindum, en þau koma víst ekki út í Muggaheiminum – það var reynt að ræna eina af fjárhirslunum.“ Harry starði á hann.

„Í alvörunni? Og hvað kom fyrir ræningjana?“

„Ekkert. Þess vegna er þetta svona mikil frétt. Þeir náðust ekki. Pabbi segir að mjög voldugur galdramaður frá myrku öflunum hafi verið að verki í Gringottbankanum. Engum hefur áður tekist að brjótast inn í hann. En það furðulega er að engu var stolið. Og nú óttast allir að Þú-veist-hver standi á bak við þetta.“

Harry velti þessum fréttum fyrir sér. Hann var farinn að fá gæsahúð í hvert sinn sem minnst var á Þú-veist-hvern. Hann

gerði ráð fyrir að það væri óhjákvæmileg afleiðing þess að verða hluti af galdraheiminum, en það hafði verið svo miklu þægilegra að geta sagt „Voldemort“ án þess að skjálfa á beinunum.

„Hvert er uppáhalds Quidditchliðið þitt?“ spurði Ron.

„Öh – ég þekki engin,“ játaði Harry.

„Ha!“ Ron var agndofa. „Ó, bíddu, það er skemmtilegasti leikur í heimi“ – og hann fór þegar að útskýra allt um boltana fjóra og stöðu leikmannanna sjö, og lýsa frægum leikjum sem hann hafði séð með bræðrum sínum og talaði um galdrakústinn sem hann langaði að eignast, ef hann hefði efni á honum. Hann var í miðjum klíðum að útlista fyrir Harry einstök atriði leiksins þegar rennihurðin opnaðist enn einu sinni. Í þetta skipti var það hvorki Neville halakörtustrákur né Hermione Granger.

Þrír strákar gengu inn og Harry þekkti strákinn í miðjunni samstundis aftur; þetta var föli strákurinn úr skikkjubúð frú Malkins. Hann virti Harry fyrir sér með mun meiri áhuga en hann hafði gert þegar þeir hittust í búðinni.

„Er það satt?“ sagði hann. „Það eru allir að tala um að Harry Potter sé í þessum klefa. Ert það þá þú?“

„Já,“ sagði Harry og horfði á hina strákana. Þeir voru báðir feitlagnir og ákaflega grimmir á svip. Þeir litu út eins og lífverðir þar sem þeir stóðu sinn við hvora hlið föla stráksins.

„Ójá, þetta eru Crabbe og Goyle,“ sagði föli strákurinn kæruleysislega þegar hann tók eftir því hvert Harry horfði. „Og ég heiti Malfoy, Draco Malfoy.“

Ron ræskti sig þannig að það hljómaði eins og niðurbælt fliss. Draco Malfoy leit á hann.

„Finnst þér nafnið mitt sniðugt? Ég þarf ekki að spyrja hver þú ert. Faðir minn sagði mér að Weasleyfjölskyldan væri rauðhærð með freknur og ætti fleiri börn en þau hefðu efni á að eiga.“ Hann sneri sér aftur að Harry.

„Þú kemst fljótlega að því að sumar galdramannafjölskyldur eru mun betri en aðrar, Potter. Þú skalt ekki leggja lag þitt við þær sem ekki eru þess virði. Þar get ég hjálpað þér.“

Hann rétti út höndina, en Harry lést ekki sjá hana.

„Ég held að ég geti sjálfur sagt til um hverjar eru þess virði, þakka þér fyrir,“ sagði hann kuldalega.

Draco Malfoy roðnaði ekki beinlínis en það vottaði fyrir bleikum blæ á fölum kinnunum.

„Ég væri varkár í þínum sporum, Potter,“ sagði hann rólega. „Ef þú lærir ekki dálitla almenna kurteisi fer eins fyrir þér og foreldrum þínum. Þau vissu heldur ekki hvað var þeim fyrir bestu. Ef þú heldur áfram að umgangast skríl eins og Weasleyfjölskylduna og Hagrid smitastu af þeim.“

Bæði Ron og Harry risu á fætur. Andlitið á Ron var jafn rautt og hárið á honum.

„Viltu endurtaka þetta,“ sagði hann.

„Ó, ætlið þið að slást við okkur?“ sagði Draco háðslega.

„Nema þið komið ykkur út á stundinni,“ sagði Harry og hljómaði mun hugrakkari en hann í rauninni var. Bæði Crabbe og Goyle voru langtum stærri en hann og Ron.

„En okkur langar ekki til að fara, er það nokkuð, strákar? Við erum búnir með allan matinn okkar, en það lítur út fyrir að hér sé nóg að borða.“

Goyle teygði sig í súkkulaðifroskana sem lágu við hliðina á Ron – Ron stökk í áttina að Goyle, en áður en hann náði að snerta hann gaf Goyle frá sér ægilegt vein.

Rottan Scabber hafði bitið sig fasta í höndina á honum með litlum, hvössum tönnunum. Crabbe og Draco hörfuðu út að hurðinni en Goyle sveiflaði Scabber hring eftir hring öskrandi á hjálp. Þegar Scabber losaði loks takið þeyttist hann út í gluggarúðuna. Strákarnir létu sig hverfa undireins. Ef til vill héldu þeir að fleiri rottur leyndust meðal sælgætispokanna eða kannski heyrðu þeir fótatak nálgast, því að andartaki síðar birtist Hermione Granger.

„Hvað gengur eiginlega á hér?“ spurði hún og horfði á sælgætið sem lá eins og hráviði út um allt gólf. Ron lyfti Scabber upp á halanum.

„Ég held að hann hafi rotast,“ sagði Ron við Harry. Hann skoðaði Scabber nánar. „Nei – þetta er lygilegt – hann er sofnaður aftur.“ Og það var engin lygi.

„Hefurðu hitt Draco Malfoy áður?“

Harry útskýrði fyrir honum hvernig fundum þeirra hafði borið saman hjá frú Malkin.

„Ég hef heyrt talað um fjölskylduna hans,“ sagði Ron þungbúinn.

„Þau voru meðal þeirra fyrstu til að snúast aftur á okkar band eftir að Þú-veist-hver hvarf. Sögðust hafa verið í álögum. Pabbi trúir því ekki. Hann segir að pabbi hans Dracos hafi ekki þurft neina afsökun fyrir því að ganga í lið með myrku öflunum.“ Hann sneri sér að Hermione: „Getum við gert eitthvað fyrir þig?“

„Þið ættuð að drífa ykkur í skikkjurnar ykkar, ég var að tala við lestarstjórann og hann sagði að við værum alveg að koma. Voruð þið að slást? Strax búnir að lenda í vandræðum og eruð ekki einu sinni byrjaðir í skólanum!“

„Scabber var að slást, ekki við,“ sagði Ron og yggldi sig framan í hana.

„Allt í lagi – ég kom bara hingað af því að hinir láta eins og smábörn frammi; hlaupandi fram og til baka um gangana,“ sagði Hermione móðguð. „Og þú ert skítugur á nefinu, bara svo að þú vitir það!“

Ron starði reiðilega á eftir henni þegar hún gekk út. Harry rýndi út um gluggann. Það var farið að dimma. Hann greindi fjöll og skóga undir dimmrauðum kvöldhimninum. Lestin virtist vera farin að hægja á sér.

Þeir Ron fóru úr jökkunum og smeygðu síðum skikkjunum yfir sig. Skikkjan hans Rons var aðeins of stutt svo að það sást í íþróttabuxurnar hans niður undan henni.

Rödd hljómaði um lestina: „Við komum til Hogwartskólans eftir fimm mínútur. Vinsamlega skiljið farangur ykkar eftir um borð í lestinni. Hann verður fluttur í skólann.“

Harry var með hnút í maganum af taugaóstyrk og þegar hann leit á Ron sá hann að hann var fölur undir freknunum. Þeir tróðu síðustu sælgætispokunum í vasana og flýttu sér út í þvöguna frammi á ganginum.

Lestin hægði óðum á sér og nam að lokum staðar. Þau tróðust öll í áttina að dyrunum og út á lítinn, dimman brautarpall. Harry skalf í svalri kvöldgolunni. Skyndilega birtist lugt sem sveiflaðist yfir höfðum nemendanna og Harry heyrði kunnuglega rödd: „Fyrsta árs nemar! Fyrsta árs nemar komið hingað! Er allt í lagi með þig, Harry?“

Stórt, loðið andlit Hagrids ljómaði í glaðlegu brosi þegar hann kom auga á Harry í miðri þvögunni.

„Eltið mig – eru fleiri fyrsta árs nemar þarna? Gáið að því hvar þið stígið! Fyrsta árs nemar, fylgið mér!“

Þau eltu Hagrid hrasandi niður þröngan og brattan stíg. Það var dimmt beggja vegna stígsins svo að Harry gerði ráð fyrir að þau hlytu að vera að ganga niður skógi vaxna brekku. Flestir þögðu. Neville, strákurinn sem alltaf týndi halakörtunni sinni, saug upp í nefið við og við.

„Þið komið auga á Hogwartskóla eftir augnablik,“ kallaði Hagrid yfir öxlina, „við beygjum hér.“

Það heyrðist hávært „vááááááá!“ frá öllum börnunum.

Við endann á þrönga stígnum var stórt, dökkleitt stöðuvatn. Efst uppi á fjallinu hinum megin við vatnið stóð gríðarstór kastali með upplýstum gluggum og turnum.

„Ekki fleiri en fjórir í hvern bát!“ kallaði Hagrid og benti á heilan flota af litlum bátum sem lágu bundnir við vatnsbakkann. Hermione og Neville eltu Harry og Ron upp í einn bátinn.

„Eru allir komnir um borð?“ kallaði Hagrid. Hann hafði einn bát út af fyrir sig. „Leysið bátana – af stað!“

Allur smábátaflotinn lagði samtímis af stað frá bakkanum og leið eftir spegilsléttu vatninu. Þau störðu í þögulli lotningu á stóra kastalann á klettinum. Hann gnæfði yfir þau þegar þau nálguðust hinn bakkann.

„Beygið ykkur,“ skipaði Hagrid þegar fyrstu bátarnir komu að klettinum. Þau beygðu sig og bátarnir báru þau áfram undir bergfléttuþykkni sem huldi stórt gat á hamraveggnum. Þau liðu áfram eftir myrkum göngum sem virtust flytja þau undir sjálfan kastalann. Loks komu þau að nokkurs konar neðanjarðarhöfn þar sem þau stigu á land.

„Heyrðu, þú þarna! Er þetta halakartan þín?“ spurði Hagrid sem var að ganga úr skugga um að enginn hefði verið skilinn eftir í bátunum.

„Trevor!“ hrópaði Neville alsæll og rétti fram hendurnar. Svo klöngruðust þau af stað eftir þröngum göngum inn í klettinn. Týran frá lampanum hans Hagrids leiddi þau loks út á mjúka, döggvota grasflöt í skugga kastalans.

Þau gengu upp steinþrep og söfnuðust saman í kringum breiðar og miklar eikardyrnar.

„Eru allir komnir? Þú þarna, hafðu auga með halakörtunni þinni!“ Hagrid lyfti risavöxnum hnefanum og barði þrisvar sinnum á kastaladyrnar.

# Sjöundi kafli

# Flokkunarhatturinn

Hurðinni var svipt upp undireins. Í dyragættinni stóð hávaxin, svarthærð norn í smaragðsgrænni skikkju. Þegar Harry sá hörkulegt andlit hennar var fyrsta hugsun hans sú að þessa konu borgaði sig ekki að reita til reiði.

„Hér eru fyrsta árs nemarnir, McGonagall prófessor," sagði Hagrid. „Takk, Hagrid. Ég skal taka við þeim núna."

Hún opnaði dyrnar upp á gátt. Forsalurinn sem þau gengu inn í var svo stór að hús Dursleyfjölskyldunnar hefði auðveldlega getað staðið inni í honum. Hann var lýstur upp með logandi kyndlum sem héngu með jöfnu millibili á veggjunum eins og í Gringottbankanum. Loftið var of hátt til að hægt væri að greina úr hverju það var gert en stórfenglegar marmaratröppur lágu upp á næstu hæð.

Þau eltu McGonagall prófessor yfir hellulagt gólfið. Harry heyrði mikinn klið úr næsta herbergi – hinir nemendurnir hlutu að vera komnir – en McGonagall prófessor vísaði fyrsta árs nemunum inn í minna herbergi við endann á salnum. Þangað hópuðust þau og stóðu þéttar saman en þau hefðu annars gert á meðan þau biðu taugaóstyrk eftir því sem koma skyldi.

„Velkomin í Hogwartskóla," sagði McGonagall prófessor. „Skólasetningin hefst fljótlega, en áður en þið setjist inn í Stóra salinn verður ykkur skipt niður á heimavistir. Flokkun nemendanna er mjög mikilvæg athöfn, því að meðan á dvöl ykkar stendur er heimavistin ykkar heimili í Hogwartskóla og félagar ykkar á heimavistinni nokkurs konar fjölskylda. Þið sækið tíma með þeim, sofið í sömu svefnálmu og verjið frítíma ykkar í setustofu heimavistarinnar.

Heimavistirnar eru fjórar og heita Gryffindor, Hufflepuff, Ravenclaw og Slytherin. Hver heimavist á sér stórbrotna sögu og þær hafa allar getið af sér afburða galdramenn og nornir. Á meðan þið eruð í Hogwartskóla munu sigrar ykkar ávinna heimavist ykkar stig en brot á reglum skólans leiða til þess að heimavistin missir áunnin stig. Í lok skólaársins mun sú heimavist sem unnið hefur sér inn flest stig vinna

heimavistarbikarinn en það er mikill heiður. Ég vona að hvert ykkar verði heimavist sinni til sóma hvar sem þið lendið.

Flokkunarathöfnin fer fram eftir nokkrar mínútur að hinum nemendunum viðstöddum. Ég legg til að þið hressið aðeins upp á útlitið á meðan þið bíðið.“

Augu hennar hvíldu andartak á krumpaðri skikkju Nevilles og skítugu nefi Rons. Harry reyndi í miklu fáti að slétta á sér hárið.

„Ég kem aftur þegar við erum tilbúin að byrja,“ sagði McGonagall prófessor. „Ég vil biðja ykkur um að vera stillt þangað til.“ Hún yfirgaf herbergið. Harry fann til kvíða.

„Hvernig er okkur eiginlega skipt niður á heimavistir?“ spurði hann Ron.

„Ætli það sé ekki lagt fyrir okkur einhvers konar próf. Fred sagði að það væri alveg hrikalegt, en ég held að hann hafi verið að grínast.“ Hjartað í Harry missti úr slag. Próf? Fyrir framan allan skólann? En hann kunni ekkert að galdra – hvað í ósköpunum átti hann að taka til bragðs? Hann hafði ekki búist við þessu svona fyrsta daginn. Hann leit áhyggjufullur í

kringum sig og sá að hinir voru líka skelfingu lostnir. Enginn mælti orð nema Hermione Granger sem rifjaði óðamála upp alla galdrana sem hún kunni og velti því fyrir sér hver þeirra kæmi að góðum notum núna. Harry reyndi að hlusta ekki á hana. Hann hafði aldrei verið jafn taugaóstyrkur, ekki einu sinni þegar hann þurfti að koma með tilkynningu heim til Dursleyhjónanna þess efnis að honum hefði einhvern veginn tekist að gera hárkollu kennarans bláa. Hann einblíndi á dyrnar. McGonagall prófessor var væntanleg á hverri stundu og þá yrði dómurinn kveðinn upp.

Þá gerðist nokkuð sem kom honum til að hrökkva í kút – nokkrir hinna öskruðu.

„Hvað í …?“

Hann tók andköf og það gerðu hinir í hópnum líka. Um það bil tuttugu draugar komu svífandi út úr veggnum fyrir enda herbergisins. Þeir liðu yfir gólfið, perluhvítir og örlítið gegnsæir, í hróka samræðum án þess að virða fyrsta árs nemana viðlits. Þeir virtust vera að rökræða eitthvað. Draugur sem líktist litlum, feitum munki sagði:

„Látum þetta gleymt og grafið. Ég legg til að við gefum honum annað tækifæri …“

„Minn kæri ábóti, höfum við ekki gefið Peeves öll þau tækifæri sem hann á skilið? Hann kemur óorði á okkur öll og þú veist það jafn vel og ég að hann er ekki einu sinni alvöru draugur – hamingjan sanna, hvað eruð þið öll að gera hér?“

Draugur klæddur pípukraga og sokkabuxum tók skyndilega eftir fyrsta árs nemunum.

Enginn svaraði.

„Nýir nemendur!“ sagði feiti ábótinn og brosti til þeirra allra. „Þið eruð að bíða eftir flokkuninni, ekki satt?“ Nokkrir kinkuðu þegjandi kolli.

„Ég hlakka til að sjá ykkur í Hufflepuff!“ sagði ábótinn. „Það er nefnilega gamla heimavistin mín.“

„Komiði ykkur nú í burtu,“ sagði myndugleg rödd. „Flokkunarathöfnin er að hefjast.“

McGonagall prófessor var komin aftur. Einn af öðrum hurfu drauga rnir í gegnum vegginn á móti.

„Nú skuluð þið mynda röð,“ sagði McGonagall prófessor, „og elta mig.“

Harry hafði undarlega á tilfinningunni að fæturnir á honum væru úr blýi, en kom sér samt í röðina fyrir aftan strák með ljóst hár. Ron stillti sér upp á bak við hann og saman gengu allir nýnemarnir í gegnum forsalinn og inn um tvöfaldar dyr sem lágu inn í Stóra salinn.

Harry hefði aldrei getað ímyndað sér að til væri jafn sérkennilegur og stórfenglegur staður. Hann var lýstur upp af mörg þúsund kertum sem svifu í lausu lofti yfir fjórum langborðum. Þar sátu nú þegar eldri nemendur skólans. Á borðunum stóðu glóandi gullnir diskar og bikarar. Fyrir framan langborðin fjögur var eitt borð sem stóð þvert á hin borðin; það var kennaraborðið. McGonagall prófessor vísaði hópnum að borðinu þar sem hann staðnæmdist í röð andspænis hinum nemendunum með bakið í kennarana. Hundruð fölra andlita störðu á þau og minntu helst á ljósker í flöktandi kertaljósinu. Draugarnir sem svifu yfir nemendunum vörpuðu silfurbjarma yfir salinn. Harry leit upp í loft til að forðast öll

þessi starandi augu og sá að það var flauelssvart með stjörnum á víð og dreif. Hann heyrði Hermione hvísla: „Svo var lagt á og mælt um að loftið skyldi vera nákvæm eftirmynd himinhvolfsins, ég las það í Sögu Hogwartskóla.“ Það var erfitt að trúa að þetta væri loft en ekki raunverulegur himinn. Stóri salurinn var svo mikilfenglegur að Harry hefði alveg getað trúað því að hann opnaðist upp í himininn.

Augu Harrys beindust niður aftur þegar McGonagall prófessor stillti þrífættum kolli hljóðlaust fyrir framan fyrsta árs nemana. Ofan á kollinn lagði hún uppmjóan galdramannshatt. Hatturinn var bættur, slitinn og hrikalega skítugur. Petunia frænka hefði aldrei leyft hann á heimilinu.

Kannski áttu þau að reyna að draga kanínu upp úr honum. Það hlaut maður að þurfa að kunna. Harry tók eftir því að allir í salnum störðu á hattinn svo að hann starði með þeim. Nokkur andartök ríkti grafarþögn. Svo byrjaði hatturinn að hristast. Rifa á hattbarðinu galopnaðist eins og munnur – og hatturinn hóf upp raust sína:

Þér finnst ég víst ei fagur

en frómt ég segi þér
að hattar engir eru
andríkari mér.

Kúluhattar! Prjál og pjatt;
og pípuhattar með.
Ég flokka Hogwarts fræga lið
og finnst ég ekkert peð.

Ef ég kemst á einhvern haus
ég inn í hann mun sjá.
Set mig upp, ég segi þér
hver sess þér hæfa má.

Í Gryffindor þú gætir flust,
með görpum dvalist þar.
Þeir hraustir eru og hugrakkir
og hræðast ekki par.

Í Hufflepuff þú halda skalt
ef hugarró þú átt,
þolinmæði og þrautseigju,
þrek og seiglu og mátt.

Í Ravenclaw þú reynist vel
ef römm er viska þín.
Þeir vita sínu viti þar;
þar viskusólin skín

Í Slytherin, ef slægur ert,
þú sleppur fullvel inn.
Þar segja menn að meðölin
móti endirinn.

Set mig upp, ei óttast neitt,
þér óhætt verður hér.
Ég held þér traustum höndum í (þótt hafi engar);
ég hattur visku er.

Mikil fagnaðarlæti brutust út í salnum þegar hatturinn hætti að syngja. Hann hneigði sig fyrir öllum fjórum borðunum og varð síðan hreyfingarlaus á ný.

„Svo að við þurfum bara að máta hattinn!“ hvíslaði Ron að Harry. „Ég drep Fred, hann sagði að við þyrftum að berjast við tröll.“

Harry brosti dauflega. Já, það var skömminni skárra að máta hattinn en neyðast til að sýna galdrabrögð; hann vildi samt óska að það þyrfti ekki að gerast fyrir framan allan skólann. Hatturinn virtist gera miklar kröfur en í augnablikinu fannst Harry hann hvorki vera hraustur né hugrakkur eða yfirleitt fær um nokkurn skapaðan hlut. Ef hatturinn hefði minnst á heimavist fyrir þá sem leið illa og voru taugaóstyrkir, þá hefði það verið rétti staðurinn fyrir hann.

McGonagall prófessor steig fram og hélt á rúllu af pergamenti í höndunum.

„Þegar ég kalla nafnið ykkar – eftirnafnið fyrst – skuluð þið ganga fram, setja á ykkur hattinn og fá ykkur sæti. Hatturinn tilkynnir ykkur hvar þið eigið að búa,“ sagði hún. „Abbott, Hanna!“

Stúlka með ljósa tíkarspena og rauðar kinnar steig óstyrk út úr röðinni. Hún setti á sig hattinn (sem féll niður fyrir augun á henni) og settist. Andartak leið.

„Hufflepuff!“ æpti hatturinn.

Félagar hennar á borðinu til hægri blístruðu og klöppuðu þegar Hanna gekk til þeirra og fékk sér sæti. Harry sá draug feita ábótans veifa glaðlega til hennar.

„Bones, Susan!“

„Hufflepuff!“ æpti hatturinn aftur. Susan hraðaði sér að borðinu og settist við hliðina á Hönnu.

„Boot, Terry!“

„Ravenclaw!“

Í þetta sinn klappaði annað borð frá vinstri; nokkrir félagar hans úr Ravenclaw stóðu upp til að taka í höndina á Terry þegar hann kom að borðinu.

Mandy Brocklehurst fór einnig til Ravenclaw, en Lavender Brown varð fyrsti nýi nemandinn í Gryffindor og háværfagnaðaróp bárust frá borðinu lengst til vinstri. Harry sá að tvíburabræður Rons hrópuðu og blístruðu hástöfum.

Millicent Bullstrode varð fyrsti Slytherinfélaginn. Kannski var það ímyndun hjá Harry eftir allt sem hann hafði heyrt um Slytherin, en honum fannst þetta frekar fráhrindandi hópur.

Harry var farið að líða verulega illa. Hann mundi allt of vel eftir þeim skiptum þegar verið var að kjósa í íþróttalið í gamla skólanum hans. Hann var alltaf valinn síðastur; ekki vegna þess að hann væri svo lélegur, heldur vegna þess að enginn vildi setja sig upp á móti Dudley og klíkunni hans með því að láta Dudley halda að þeim líkaði vel við Harry.

„Finch-Fletchley, Justin!“

„Hufflepuff!“

Harry tók eftir því að oft kallaði hatturinn heimavistina upp án þess að hika en stundum tók það hann nokkra stund að ákveða sig. Seamus Finnegan – sem var fyrir framan Harry í röðinni – sat í næstum heila mínútu á kollinum áður en hatturinn skar úr um að hann skyldi búa í Gryffindor.

„Granger, Hermione!“

Hermione hljóp næstum að kollinum og þrýsti hattinum áköf á höfuðið.

„Gryffindor!“ kallaði hatturinn. Ron stundi.

Hræðilegri hugsun sló niður í kollinn á Harry; hvað ef honum yrði ekki úthlutað neinni heimavist? Hvað nú ef hann sæti bara með hattinn á höfðinu án þess að nokkuð gerðist þangað til McGonagall kæmi, kippti honum af honum og segði honum að það hefðu orðið mistök og hann þyrfti að taka næstu lest heim?

Þegar Neville Longbottom, strákurinn sem alltaf var að týna halakörtunni sinni, var kallaður upp varð honum svo um og ó að hann datt kylliflatur á leiðinni að kollinum. Hatturinn tók sér langan tíma til umhugsunar. Þegar hann æpti loks „Gryffindor!“ hljóp Neville í áttina að borðinu með hattinn á höfðinu og varð að snúa við undir hlátrasköllum hinna og rétta Morag MacDougal hattinn.

Draco Malfoy rigsaði að kollinum þegar nafnið hans var kallað upp og fékk ósk sína samstundis uppfyllta; hatturinn hafði varla snert höfuð hans þegar hann öskraði: „Slytherin!“

Draco slóst í lið með vinum sínum Crabbe og Goyle ánægður á svip. Nú voru ekki margir eftir.

Moon … Nott … Parkinson … því næst tvíburasystur, Patil og Patil … svo kom Sally-Anne Perks … og loks …

„Potter, Harry!“

Þegar Harry steig fram fór kliður um allan salinn.

„Sagði hún virkilega Potter?“

„Er það hinn eini sanni Harry Potter?“

Það síðasta sem Harry sá áður en hatturinn datt niður fyrir augu hans var fullur salur af fólki sem teygði fram álkuna og starði á hann. Svo sat hann og beið í myrkrinu undir hattinum.

„Hmmm,“ sagði lítil rödd í eyrað á honum. „Erfitt að segja. Mjög erfitt. Hér er nóg af hugrekki sé ég. Og miklar gáfur. Hæfileikar og hamingjan sanna, já – mikil löngun til að sanna hvað í þér býr. Mjög spennandi samsetning. Ja, hvar á ég að setja þig?“

Harry greip um stólsetuna og hugsaði stíft: „Ekki Slytherin, ekki Slytherin.“

„Ekki Slytherin, segirðu?“ sagði litla röddin. „Ertu viss? Þú gætir orðið stórmenni, það er allt til staðar hér í höfðinu á þér, og Slytherin gæti hjálpað þér í átt að mikilleik og frama, enginn vafi á því – nei? Jæja, fyrst þú ert viss þá verður það Gryffindor!“

Harry heyrði hattinn öskra síðasta orðið yfir allan salinn. Hann tók af sér hattinn og gekk óstyrkum fótum að Gryffindorborðinu. Hann var svo ósegjanlega feginn að hafa ekki lent í Slytherin að hann tók varla eftir því að hann fékk hæstu fagnaðarópin hingað til. Umsjónarmaðurinn Percy stóð á fætur og hristi höndina á honum kröftuglega á meðan tvíburabræður hans kölluðu: „Við fengum Potter! Við fengum Potter!“ Harry settist á móti draugnum með pípukragann sem hann hafði séð fyrr um kvöldið. Draugurinn klappaði honum á höndina og Harry fékk það ónotalega á tilfinninguna að henni hefði verið dýft ofan í fötu af ísköldu vatni.

Héðan var hægt að virða fyrir sér háborðið sem kennararnir sátu við. Hagrid sat við endann næst honum. Hann brosti og

kinkaði kolli til Harrys. Harry brosti á móti. Og þarna, við miðju háborðsins, sat Albus Dumbledore í stórum gullstól. Harry þekkti hann strax af myndinni sem hann hafði fengið úr súkkulaðifroskinum. Silfurgrátt hár Dumbledore var það eina í salnum sem skein jafn skært og draugarnir. Harry kom líka auga á Quirrell prófessor, taugaveiklaða, unga prófessorinn af Leka seiðpottinum. Hann leit mjög sérkennilega út með stóran, ljósrauðan vefjarhött á höfðinu.

Nú voru bara þrír nemendur eftir. Lisa Turpin var send til Ravenclaw og svo var komið að Ron. Hann var orðinn grænn í framan. Harry krossaði fingur undir borðinu og andartaki síðar kallaði hatturinn: „Gryffindor!“

Harry klappaði ákaft með hinum við borðið þegar Ron hrundi niður í stólinn við hliðina á honum.

„Gott hjá þér, Ron, aldeilis frábært,“ sagði Percy Weasley hátíðlega um leið og Blaise Zabini var gerð að Slytherinnemanda. McGonagall prófessor vafði nemendalistanum upp og fjarlægði flokkunarhattinn.

Harry leit niður á tóman gulldiskinn. Hann fann nú hversu svangur hann var orðinn. Það virtist heil eilífð síðan hann sat í lestinni og tróð í sig graskerskökum.

Albus Dumbledore var staðinn á fætur. Hann brosti til nemendanna og breiddi út faðminn eins og ekkert hefði getað glatt hann meira en að sjá þau samankomin fyrir framan hann.

„Velkomin," sagði hann. „Velkomin enn eitt árið í Hogwartskóla! Áður en við byrjum að borða langar mig að segja nokkur orð. Og hér koma þau: Kjáni! Selspik! Rembihnútur! Glingur! Takk, það var ekkert fleira."

Hann fékk sér aftur sæti. Allir klöppuðu og fögnuðu með húrrahrópum. Harry vissi ekki hvað hann átti að halda.

„Er hann … dálítið brjálaður?" spurði hann Percy hikandi.

„Brjálaður?" sagði Percy glaðlega. „Hann er snillingur! Besti galdram aður í heiminum! En já, hann er dálítið brjálaður. Kartöflur, Harry?"

Harry missti andlitið. Borðið sem hann sat við svignaði undan kræsingum. Hann hafði aldrei séð svo marga girnilega rétti í einu: Roastbeef, grillaðan kjúkling, svínakjöt, lambakótelettur, pylsur, beikon og steik, soðnar kartöflur, steiktar kartöflur, falskan héra, baunir, gulrætur, sósu, tómatsósu og, af einhverjum einkennilegum ástæðum, piparmyntur.

Dursleyhjónin höfðu ekki beinlínis svelt Harry, en hann fékk aldrei að borða eins mikið og hann vildi. Dudley hafði alltaf tekið það sem Harry langaði mest í – jafnvel þó að hann þyrfti að borða þar til hann var að því kominn að kasta upp. Harry fékk sér dálítið af öllu nema piparmyntum á diskinn og tók til matar síns. Þetta bragðaðist dásamlega.

„Þetta lítur svo sannarlega vel út,“ sagði draugurinn með pípukragann. Hann fylgdist dapur í bragði með Harry skera steikina sína. „Geturðu ekki …?“

„Ég hef ekki borðað í næstum fjögur hundruð ár,“ sagði draugurinn. „Ég þarf þess auðvitað ekki en ég sakna þess nú samt. Ég held að ég hafi gleymt að kynna mig. Herra Nicholas de Mimsy-Porpington, til þjónustu reiðubúinn. Búsettur í Gryffindor.“

„Ég veit hver þú ert!“ sagði Ron skyndilega. „Bræður mínir sögðu mér frá þér – þú ert Næstum hauslausi Nick!“

„Ég myndi fremur kjósa að þú kallaðir mig Herra Nicholas de Mimsy …“ byrjaði draugurinn stirðlega en hinn ljóshærði Seamus Finnegan greip fram í fyrir honum.

„Næstum hauslausi? Hvernig geturðu verið næstum hauslaus?“

Herra Nicholas leit út fyrir að vera sármóðgaður. Samræðurnar höfðu ekki þróast í þá átt sem hann hefði kosið.

„Svona,“ sagði hann pirraður. Hann greip í vinstra eyrað á sér og togaði. Höfuðið á honum sveiflaðist niður á öxlina eins og það væri á hjörum. Einhver hafði greinilega reynt að höggva það af honum en ekki tekist betur upp. Hann setti höfuðið aftur á sinn stað, greinilega ánægður með undrunarsvip viðstaddra, ræskti sig og sagði:

„Jæja, nýju Gryffindorbúar! Ég vona að þið leggið ykkar af mörkum við að hjálpa okkur að vinna heimavistarbikarinn þetta árið! Það hefur aldrei liðið svona langt á milli sigra hjá Gryffindor. Slytherin hefur nú unnið bikarinn sex ár í röð!

Blóðugi baróninn er að verða gjörsamlega óþolandi – hann er draugurinn í Slytherin.“

Harry leit yfir á Slytherinborðið og sá hryllilegan draug við borðið. Hann var með tóm, starandi augu, magurt andlit og silfurlitaðar blóðslettur á skikkjunni. Hann sat við hliðina á Draco sem virtist ekkert allt of ánægður með borðfélagann, Harry til mikillar gleði. „Hvernig varð hann svona blóðugur?“ spurði Seamus áhugasamur.

„Ég hef aldrei spurt hann að því,“ sagði Næstum hauslausi Nick hógvær á svip.

Þegar allir höfðu borðað nægju sína hurfu leifarnar smám saman af diskunum og þeir urðu jafn skínandi hreinir og áður. Andartaki síðar birtist eftirrétturinn. Búðingur, heilu ísfjöllin með öllum hugsanlegum bragðtegundum, eplakökur, marsípantertur, súkkulaðitertur, pönnukökur með sírópi, kleinuhringir, jarðarber, hlaup …

Á meðan Harry gæddi sér á pönnuköku byrjaði talið að snúast um fjölskyldurnar heima.

„Ég er blandaður,“ sagði Seamus. „Pabbi er Muggi. Mamma sagði honum ekki að hún væri norn fyrr en eftir að þau giftust. Það var víst dálítið áfall fyrir hann.“ Hinir hlógu.

„Hvað með þig, Neville?“ spurði Ron.

„Amma ól mig upp og hún er norn,“ sagði Neville, „en fjölskyldan mín hélt lengi vel að ég væri venjulegur. Algie ömmubróðir minn reyndi sífellt að fá mig til að fremja galdra – einu sinni hrinti hann mér fram af bryggju – ég var næstum drukknaður – annars gerðist ekkert fyrr en ég var orðinn átta ára. Algie frændi kom í heimsókn og var að láta mig hanga á löppunum út um einn gluggann á efri hæðinni, en þegar Enid ömmusystir bauð honum marensköku sleppti hann óvart takinu. Að sjálfsögðu datt ég niður en meiddi mig ekkert heldur skoppaði eins og bolti eftir öllum garðinum og út á götu. Þau voru öll svo ánægð og amma grét af gleði. Og þið hefðuð átt að sjá þau þegar mér var boðin skólavist hérna – þau héldu nefnilega að ég hefði ekki nógu mikið galdrablóð í mér til að komast hingað. Algie frændi var svo ánægður að hann gaf mér halakörtu.“

Við hina hlið Harrys sátu Percy Weasley og Hermione í djúpum samræðum um námið. („Ég vona að við byrjum sem

fyrst, ég á svo margt ólært, ég hef sérstakan áhuga á ummyndun, þú veist að breyta hlutum í eitthvað allt annað, mér er sagt að það sé mjög flókið …“ „Þú byrjar bara smátt, breytir nálum í eldspýtur og þess háttar …“)

Harry var orðinn sveittur og syfjaður. Hann leit aftur yfir á háborðið. Hagrid drakk af áfergju úr bikarnum sínum. McGonagall prófessor var á tali við Dumbledore prófessor. Quirrell prófessor sat með fáránlegan vefjarhöttinn og talaði við kennara með fitugt, svart hár, arnarnef og fölgula húð.

Það gerðist mjög skyndilega. Kennarinn með arnarnefið leit framhjá Quirrell prófessor og beint í augun á Harry – og nístandi sársauki skaust leiftursnöggt í örið á enni Harrys.

„Ááii!“ Harry greip um ennið á sér.

„Hvað er að?“ spurði Percy.

„E-ekkert.“

Sársaukinn hvarf jafn snögglega og hann hafði komið. Það var erfiðara að gleyma augnaráðinu sem kennarinn hafði sent Harry – það hafði ekki verið mjög vinsamlegt.

„Hvaða kennara er Quirrell prófessor að tala við?“ spurði hann Percy.

„Nú, svo þú veist nú þegar hver Quirrell er? Það er ekki furða þótt hann virðist vera stressaður, hann er að tala við Snape prófessor. Snape kennir töfradrykki, sem er ekki uppáhaldsfagið hans. Hann er á höttunum eftir starfinu hans Quirrells. Snape karlinn veit nefnilega hrikalega mikið um myrku öflin.“

Harry fylgdist með Snape góða stund en Snape leit ekki á hann aftur.

Að lokum hurfu eftirréttirnir einnig af diskunum og Dumbledore prófessor reis aftur á fætur. Það varð þögn í salnum.

„Uhumm – nú höfum við öll borðað og drukkið nægju okkar og því langar mig að segja nokkur orð í viðbót. Hér koma fáeinar hagnýtar upplýsingar svona í upphafi skólaárs.

Fyrsta árs nemar ættu að leggja á minnið að öllum nemendum skólans er óleyfilegt að fara inn í skógana hér í

kring. Nokkrum eldri nemanna veitti ekki af að hafa það líka hugfast.“

Bjart augnaráð Dumbledore prófessors hvíldi andartak á Weasleytvíburunum.

„Herra Filch, húsvörður, bað mig líka um að minna ykkur á að allir galdrar eru bannaðir á göngunum.

Það verður haldin Quidditchæfingakeppni í annarri viku ann arinnar. Þeir sem hafa áhuga á að leika fyrir hönd heimavistar sinnar eru vinsamlega beðnir að hafa samband við fröken Hooch.

Að lokum vil ég benda á að gangurinn á hægri hönd uppi á þriðju hæð er lokaður öllum þeim sem ekki vilja deyja mjög kvalafullum dauðdaga.“

Harry hló en áttaði sig fljótt á því að hann var einn af sárafáum sem það gerðu.

„Honum er ekki alvara, er það nokkuð?“ hvíslaði hann að Percy.

„Jú, ég held það,“ sagði Percy og horfði þungur á brún á Dumbledore. „Þetta er skrítið, venjulega gefur hann okkur ástæðu fyrir lokun svæðanna. Það vita til dæmis allir að skógurinn er fullur af hættulegum skepnum. Í þessu tilfelli hefði hann að minnsta kosti getað tilkynnt okkur umsjónarmönnunum um þetta.“

„Og áður en við göngum til náða finnst mér að við ættum að syngja skólasönginn!“ hrópaði Dumbledore prófessor. Harry tók eftir því að bros hinna kennaranna voru orðin dálítið þvinguð.

Dumbledore sveiflaði sprotanum sínum lítið eitt og langur, gylltur borði bylgjaðist út úr enda hans. Borðinn flaug upp í loft og vatt sig eins og snákur þannig að hann myndaði orð yfir langborðunum.

„Nú velja allir sitt uppáhaldslag,“ sagði Dumbledore, „og svo byrjum við!“

Og allir sungu hástöfum:

Hogwart, Hogwart, skrambi góður skóli,
skal nú láta í té

kennslu handa körlum
og krökkum sem ég sé.

Nú hella skal í hausa,
hefst nú lærdóms basl.
Í hausum er nú aðeins
alls kyns rusl og drasl.

Við viljum öðlast visku
sem var oss gleymd og týnd.
Allt skal okkur kenna;
nú ástundun skal sýnd.

Allir luku söngnum í mismunandi takti og Weasleytvíburarnir langsíðast, því að þeir sungu eftir jarðarfararsálmi. Dumbledore stjórnaði lokahendingunum með sprotanum og að söngnum loknum var það hann sem klappaði hæst.

„Blessuð tónlistin,“ sagði hann og þerraði augun. „Stórkostlegustu töfrar sem til eru! Og nú er kominn háttatími. Af stað með ykkur!“

Nýju nemarnir í Gryffindor eltu Percy í gegnum skvaldrandi þvöguna, út úr Stóra salnum og upp marmarastigann.

Fæturnir á Harry voru aftur orðnir blýþungir; hann var sprengsaddur og óendanlega þreyttur. Hann var meira að segja of þreyttur til að furða sig mikið á því að andlitsmyndirnar á göngunum hvísluðu og bentu þegar þau gengu framhjá, eða að Percy leiddi þau tvívegis gegnum dyr sem faldar voru á bak við veggtjöld og hreyfanleg þil. Þau gengu upp fleiri stiga geispandi og dragandi á eftir sér fæturna. Harry var farinn að velta því fyrir sér hversu langt þau ættu eftir þegar þau námu snögglega staðar.

Búnt af göngustöfum sveif í lausu lofti fyrir framan þau og þegar Percy steig í áttina að þeim byrjuðu þeir einn af öðrum að kasta sér á hann.

„Þetta er Peeves,“ hvíslaði hann að furðu lostnum fyrsta árs nemunum. „Hann er ærsladraugur.“ Hann hækkaði röddina: „Peeves – sýndu þig.“

Hátt, dónalegt hljóð heyrðist – eins og þegar lofti er hleypt úr blöðru.

„Viltu að ég segi Blóðuga baróninum hvernig þú lætur?“

Það heyrðist hvellur og lítill maður með illileg, dökk augu og breiðan munn birtist. Hann sveif um í lausu lofti með krosslagða fætur og göngustafina í fanginu.

„Úúúúúúúh!“ sagði hann og hló illgirnislega. „Litlir, sætir fyrsta árs nemar! En gaman!“

Hann steypti sér skyndilega niður að þeim. Þau beygðu sig öll sem eitt.

„Snautaðu í burtu, Peeves, annars get ég lofað þér að Blóðugi baróninn fær að heyra af þessu!“ hrópaði Percy.

Peeves rak út úr sér tunguna og hvarf, en ekki fyrr en hann hafði hent öllum göngustöfunum í höfuðið á Neville. Þau heyrðu hann þjóta af stað og dangla í gömul herklæði á leiðinni eftir ganginum.

„Þið skuluð vara ykkur á Peeves,“ sagði Percy þegar þau gengu aftur af stað. „Blóðugi baróninn er sá eini sem hefur stjórn á honum. Hann neitar meira að segja að hlusta á okkur umsjónarmennina. Jæja, þá erum við komin.“

Við enda gangsins hékk málverk af afar feitri konu í bleikum silkikjól.

„Leyniorð?“ sagði hún.

„Caput Draconis,“ sagði Percy. Málverkið sveiflaðist til hliðar og í ljós kom kringlótt gat í veggnum. Þau klifruðu öll í gegnum það – Neville þurfti örlitla aðstoð – og komu inn í sameiginlega stofu Gryffindorheimavistarinnar. Þetta var hlýlegt, hringlaga herbergi með mjúkum hægindastólum.

Percy vísaði stúlkunum í gegnum dyr inn í svefnsal þeirra og drengjunum í gegnum aðrar dyr sem lágu upp í drengjasvefnsalinn. Hann var uppi í einum af turnunum – þeir þurftu að ganga upp brattan stiga – og þar var þeim loks vísað til sængur. Það voru himinsængur með þungum, vínrauðum tjöldum. Koffortin þeirra og annar farangur beið eftir þeim við rúmin þeirra. Þeir voru allir svo úrvinda af þreytu að þögn ríkti á meðan þeir fóru í náttfötin og fleygðu sér í rúmin.

„Maturinn var frábær, fannst þér það ekki?“ hvíslaði Ron í gegnum tjaldið. „Hættu, Scabber! Hann er að narta í sængurfötin.“

Harry ætlaði að spyrja Ron hvort hann hefði smakkað pönnukökurnar en hann sofnaði áður en hann náði að opna munninn.

Ef til vill hafði Harry borðað aðeins of mikið vegna þess að hann dreymdi mjög sérkennilegan draum. Hann var með vefjarhöttinn hans Quirrells prófessors á höfðinu og vefjarhötturinn talaði í sífellu við hann. Hann sagði honum að örlög hans væru að búa á Slytherin. Harry svaraði að hann vildi alls ekki búa á Slytherin en þá gerði vefjarhötturinn sig þyngri og þyngri. Hann reyndi að taka hann af sér en hann þrengdist stöðugt. Það var orðið mjög sársaukafullt og þá birtist Draco Malfoy og skellihló að honum. Svo breyttist Draco í kennarann með arnarnefið, Snape, sem hló háum og kuldalegum hlátri. Blindandi, grænt ljós leiftraði og Harry vaknaði skjálfandi í svitabaði. Hann velti sér á hina hliðina og sofnaði aftur. Þegar hann vaknaði næsta morgun var hann búinn að steingleyma draumnum.

# Áttundi kafli

# Töfradrykkjakennarinn

„Þarna, sjáðu.“

„Hvar?“

„Við hliðina á hávaxna stráknum með rauða hárið.“

„Þessi með gleraugun?“

„Sástu framan í hann?“

„Sástu örið?“

Það var mikið pískrað um Harry þegar hann yfirgaf heimavistina næsta dag. Gangarnir voru fullir af nemendum sem tylltu sér á tá til að koma auga á hann. Margir sneru við og gengu aftur framhjá honum til að skoða hann almennilega.

Harry óskaði þess að hann fengi að einbeita sér í friði að því að rata í réttar skólastofur.

Það voru hundrað fjörutíu og tveir stigar í skólanum. Sumir voru breiðir og bogadregnir, aðrir mjóir og hrörlegir. Nokkrir þeirra lágu í mismunandi áttir, allt eftir því hvaða vikudagur var og á öðrum voru sumar tröppurnar horfnar og þá þurfti maður að muna eftir því að stökkva yfir. Svo voru líka dyr sem ekki vildu opnast nema þær væru beðnar kurteislega eða kitlaðar á nákvæmlega réttum stöðum, og enn aðrar sem ekki voru ósviknar dyr heldur þykkir veggir í dulbúningi. Það var líka mjög erfitt að muna staðsetningu hluta, því að þeir virtust vera á sífelldri hreyfingu. Fólkið á málverkunum var í stöðugum heimsóknum hvert hjá öðru og Harry var viss um að herklæðin gátu gengið um eins og þeim hentaði.

Draugarnir voru líka erfiðir viðfangs. Það var alltaf hrikalegt áfall þegar þeir svifu í gegnum dyrnar sem maður var að reyna að opna. Næstum hauslausi Nick hjálpaði til við að beina nýjum Gryffindornemum í réttar áttir en ærsladraugurinn Peeves sá til þess að glíma þurfti við að minnsta kosti tvennar læstar dyr og hrasa um brellutröppur ef einhver var orðinn of seinn í tíma. Hann tók stundum upp á því að henda ruslafötum í höfuðið á nemendum eða kippa

teppinu undan fótum þeirra. Hann átti það líka til að fleygja í þá krítarmolum eða læðast aftan að þeim, grípa um nefið á þeim og öskra: „Þarna náði ég þér!“

Húsvörðurinn, Argus Filch, var þó jafnvel verri en Peeves. Harry og Ron tókst að lenda upp á kant við hann strax fyrsta daginn. Hann kom að þeim þar sem þeir voru að bisa við að opna dyr sem til allrar ólukku reyndust vera inngangurinn að forboðna ganginum. Hann trúði þeim ekki þegar þeir sögðust hafa villst og var viss um að þeir hefðu verið að reyna að brjótast inn. Hann hótaði að læsa þá ofan í dýflissunni en Quirrell prófessor kom þeim til bjargar á síðustu stundu.

Filch átti kött sem hét frú Norris, horað, rykgrátt kvikindi með útstæð augu eins og Filch. Hún vaktaði gangana upp á sitt einsdæmi. Ef einhver braut reglu eða svo mikið sem hugsaði um að gera það þaut hún af stað að ná í Filch sem var kominn á vettvang, móður og másandi, nokkrum sekúndum síðar. Filch þekkti hvern krók og kima í skólanum betur en nokkur annar (nema kannski Weasleytvíburarnir) og gat átt það til að birtast jafn skyndilega og draugarnir. Enginn nemendanna þoldi hann og það var heitasta ósk margra að gefa frú Norris almennilegt spark í afturendann.

Svo voru það tímarnir – þegar loks hafði tekist að finna kennslustofurnar. Harry komst fljótt að raun um að galdrar voru miklu meira en bara að veifa sprota og segja nokkur skringileg orð.

Á hverjum miðvikudegi á miðnætti skoðuðu þau næturhimininn í gegnum sjónaukana sína til að læra nöfnin á stjörnunum og rannsaka hreyfingar himintunglanna. Jurtafræði var kennd þrisvar í viku. Þá fóru þau út í gróðurhúsin fyrir aftan kastalann með feitri, lít illi norn sem kölluð var Spíra prófessor. Þar kenndi hún þeim að annast ýmsar furðulegar jurtir og sveppi og sagði þeim frá eiginleikum hverrar plöntu.

Leiðinlegasta fagið var án efa saga galdranna og það voru líka einu tímarnir þar sem kennarinn var draugur. Binns prófessor hafði verið mjög gamall þegar hann sofnaði fyrir framan arininn á kennarastofunni. Næsta morgun fór hann að kenna og skildi líkamann eftir við arininn. Þau hripuðu niður nöfn og dagsetningar sem Binns þuldi upp í síbylju og tókst alltaf að rugla saman Emeric hinum illa og Uric hinum undarlega.

Flitwick prófessor kenndi þeim töfrabrögð. Hann var pínulítill galdramaður sem þurfti að standa uppi á bókastafla til að sjá yfir kennaraborðið. Hann byrjaði önnina á því að merkja við þá sem voru mættir og þegar hann kom að nafni Harrys skrækti hann af gleði og kollsteyptist ofan af bókahlaðanum.

McGonagall prófessor var allt öðruvísi. Harry hafði haft á réttu að standa – þessa konu borgaði sig ekki að reita til reiði. Hún var bæði ströng og gáfuð. Það fyrsta sem hún gerði þegar þau höfðu fengið sér sæti var að leggja þeim lífsreglurnar: „Ummyndun er eitt af því flóknasta og hættulegasta sem þið lærið hérna í skólanum,“ sagði hún. „Ef eitthvert ykkar er með læti í tímum hjá mér rek ég viðkomandi út og hann skal ekki reikna með því að fá að koma aftur. Nú hafið þið fengið aðvörun.“

Svo breytti hún kennaraborðinu í svín og síðan aftur í borð. Þeim fannst öllum mikið til hennar koma og gátu varla beðið eftir að fá að byrja. Þau komust þó fljótt að raun um það að þau myndu ekki breyta húsgögnum í dýr í náinni framtíð. Þegar þau höfðu skrifað niður fullt af löngum og flóknum fyrirmælum fengu þau eldspýtu og máttu reyna að breyta henni í nál. Í lok kennslustundarinnar var Hermione Granger sú eina sem tekist hafði að breyta eldspýtunni sinni.

McGonagall sýndi bekknum eldspýtuna sem var orðin silfruð og oddhvöss og sendi Hermione eitt af sínum sjaldgæfu brosum.

Námsgreinin sem allir höfðu beðið með eftirvæntingu var vörn gegn myrku öflunum en tímarnir hjá Quirrell reyndust dálítið reyfara kenndir. Í kennslustofunni var sterk hvítlaukslykt. Þau vissu að það var vörn gegn vampíru sem hann hafði hitt í Rúmeníu og var hræddur um að kæmi að leita að honum einn góðan veðurdag. Hann sagði þeim að afrískur prins hefði gefið honum vefjarhöttinn í þakklætisskyni fyrir að hrekja á brott þreytandi uppvakning; en þau voru ekki viss um að þau tækju þá sögu trúanlega. Í fyrsta lagi roðnaði Quirrell og fór að tala um veðrið þegar Seamus Finnegan spurði hann að því hvernig hann hefði hrætt uppvakninginn á brott. Í öðru lagi var hryllileg hvítlaukslykt af vefjarhettinum og Weasleytvíburarnir sögðust vissir um að hann væri troðinn af hvítlauk svo að Quirrell væri varinn hvert sem hann færi.

Harry uppgötvaði sér til mikils léttis að hann stóð ekki verr að vígi en hin. Mörg þeirra komu úr Muggafjölskyldum og höfðu ekki haft hugmynd um að þau væru galdramenn og nornir frekar en hann. Það var svo mikið að læra að meira segja Ron sem var af gamalli galdraætt hafði lítið forskot.

Föstudagurinn var merkisdagur hjá Harry og Ron. Þeim tókst loksins að komast í morgunverð í Stóra salnum án þess að týnast í eitt einasta skipti á leiðinni.

„Hvaða tímar eru í dag?“ spurði Harry um leið og hann stráði sykri á hafragrautinn sinn.

„Tvöfaldur tími í töfradrykkjum með krökkunum í Slytherin,“ sagði Ron. „Snape er yfir Slytherinvistinni. Hann heldur víst sérstak lega upp á þau – nú fáum við að sjá hvort það er rétt.“

„Ég vildi að McGonagall prófessor héldi sérstaklega upp á okkur,“ sagði Harry. McGonagall prófessor var yfirmaður Gryffindor en það hafði ekki hindrað hana í að setja þeim fyrir heilan haug af heimavinnu daginn áður.

Í þeim töluðu orðum kom pósturinn. Harry var orðinn vanur því núna en honum hafði brugðið dálítið fyrsta morguninn þegar mörg hundruð uglur komu skyndilega fljúgandi inn í Stóra salinn á meðan þau sátu við morgunverðarborðið. Þær sveimuðu yfir borðunum uns þær komu auga á eigendur sína og létu þá bréf og pakka falla í fangið á þeim.

Hedwig hafði enn ekki fært Harry neitt. Hún flaug stundum til hans og nartaði í eyrað á honum eða fékk sér brauðbita áður en hún fór aftur að sofa ásamt hinum skólauglunum í ugluturninum. Þennan morgun kom hún samt flögrandi, settist á milli marmelaðikrukkunnar og sykurkarsins og lét lítið bréf falla á diskinn hans Harrys. Harry opnaði það samstundis.

Kæri Harry, stóð skrifað með mjög ólæsilegri skrift.

Ég veit að þú ert í fríi eftir hádegi á föstudögum, svo að ég vildi gjarnan bjóða þér í te um þrjúleytið. Mig langar að heyra hvernig fyrsta vikan þín í skólanum gekk. Sendu mér svar til baka með Hedwig.

Hagrid

Harry fékk lánaðan fjaðurstafinn hans Rons og skrifaði: Já, takk. Við sjáumst seinna, í flýti aftan á blaðið og sendi Hedwig aftur af stað.

Það var eins gott að Harry hafði heimsóknina að hlakka til, því að kennslustundin hjá Snape snerist upp í algjöra martröð.

Strax í veislunni fyrsta kvöldið hafði Harry fengið það á tilfinninguna að Snape prófessor líkaði ekki við hann. Í lok fyrsta töfradrykkjatímans varð hann að viðurkenna að það var rangt hjá honum. Það var of vægt til orða tekið að Snape líkaði ekki við hann – Snape hataði hann beinlínis.

Kennslustundirnar fóru fram niðri í einni af dýflissunum. Þar var langtum kaldara en annars staðar í kastalanum og upp um alla veggi voru dýr fljótandi í formalínglösum sem juku á óhugnaðinn.

Snape hóf kennslustundina eins og Flitwick með því að lesa upp nöfn nemendanna. Hann staldraði við nafn Harrys.

„Ó, já,“ sagði hann mjúklega, „Harry Potter. Nýja stjarnan okkar.“

Draco Malfoy og vinir hans, Crabbe og Goyle, flissuðu á bak við bækurnar. Snape lauk við að lesa upp nöfnin og leit yfir bekkinn. Augu hans voru dökk eins og augu Hagrids en gersneydd hlýjunni sem skein úr augnaráði risans. Þessi augu voru köld og tóm. Þau minntu Harry á endalaus, dimm göng.

„Þið eruð komin til að læra þá fínlegu list og nákvæmu vísi ndi sem felast í töfradrykkjagerð,“ byrjaði hann. Rödd hans var aðeins lágvært hvísl en þau misstu ekki af einu einasta orði. Eins og McGonagall prófessor gat Snape haldið athygli bekkjarins án áreynslu. „Þar sem hér er lítið um heimskulegar sveiflur með töfrasprota eiga mörg ykkar eflaust erfitt með að trúa að þetta séu raunverulegir galdrar. Ég á ekki von á að þið skiljið til fullnustu fegurðina í lágværu malli seiðpottanna og glitrandi gufunum sem upp úr þeim stíga, þá hárnæmu krafta sem leysast úr læðingi þegar þessir töfradrykkir seytla um æðar mannslíkamans, binda hugann í álög og draga skynfærin á tálar … Ég get kennt ykkur að fanga frægðina, brugga mikilfengleikann og jafnvel að stöðva dauðann – ef þið eruð ekki jafn miklir aulabárðar og þeir sem ég er vanur að kenna.“

Enn meiri þögn fylgdi þessari litlu ræðu. Harry og Ron litu hvor á annan með undrunarsvip. Hermione Granger sat á stólbrúninni og virtist óð og uppvæg vilja sanna að hún væri hreint enginn aulabárður.

„Harry!“ sagði Snape skyndilega. „Hvað fæ ég út ef ég bæti dufti af asfódelrót út í seyði af malurt?“

Dufti af hverju út í seyði af hverju? Harry gaut augunum á Ron sem virtist jafn furðu lostinn og Harry; höndin á Hermione Granger skaust upp í loft.

„Ég veit það ekki, kennari,“ sagði Harry. Varirnar á Snape kipruðust í hæðnislegu brosi.

„Ég verð að segja að það er greinilega ekki allt fengið með frægðinni.“

Hann lést ekki sjá höndina á Hermione.

„Reynum aftur. Harry, hvar myndir þú leita ef ég bæði þig að finna fyrir mig bezoar?“

Hermione rétti höndina eins hátt upp og mögulegt var án þess að standa upp úr sætinu, en Harry hafði ekki hugmynd um hvað bezoar gæti verið. Hann lét sem hann sæi ekki Draco, Crabbe og Goyle sem hristust af hlátri.

„Ég veit það ekki, kennari.“

„Þú hefur greinilega ekki nennt að líta í bók áður en þú komst hingað, Harry?“

Harry neyddi sig til þess að horfa beint í þessi köldu augu. Hann hafði lesið bækurnar heima hjá Dursleyfjölskyldunni en Snape gat ekki ætlast til að hann myndi allt úr bókinni Eitt þúsund töfrajurtir og sveppir.

Snape lét enn eins og hann sæi ekki skjálfandi hönd Hermione.

„En segðu mér þá, Harry, hver er munurinn á venusvagni og bláhjálmi?“

Núna gat Hermione ekki setið lengur; hún stökk á fætur og teygði handlegginn næstum upp í loft dýflissunnar.

„Ég veit það ekki,“ sagði Harry lágri röddu. „En ég held að Hermione viti þetta. Af hverju spyrðu hana ekki?“

Nokkrir skelltu upp úr; Harry kom auga á Seamus sem blikkaði hann. Snape var aftur á móti ekki ánægður.

„Sestu,“ hreytti hann í Hermione. „Bara svo að þú vitir það, Harry, ef asfódelrót og malurt er blandað saman verður úr svo sterkt svefnmeðal að það er kallað Drykkur hins lifandi

dauða. Bezoar er steinn úr maga geitar sem verndar gegn flestu eitri. Hvað venusvagni og bláhjálmi viðkemur eru þær ein og sama jurtin sem einnig gengur undir nafninu freyjublóm. Jæja, af hverju eruð þið ekki að glósa þetta hjá ykkur?“

Allir byrjuðu í fáti að leita að fjaðurpenna og pergamenti. Snape hækkaði röddina örlítið til að yfirgnæfa skyndilegan hávaðann: „Og hér með missir Gryffindor eitt stig fyrir ósvífni þína, Harry.“

Hlutirnir snerust Gryffindor ekki í hag eftir því sem leið á kennslustundina. Snape lét þau vinna saman tvö og tvö og kenndi þeim að búa til einfaldan töfradrykk til að lækna graftarkýli. Hann leið um í síðri, svartri skikkjunni og fylgdist með þeim vigta þurrk aðar brenninetlur og muldar höggtennur. Hann gagnrýndi næstum alla nema Draco sem virtist vera honum að skapi. Hann var að sýna þeim hversu fullkomlega soðnir hornsniglar Dracos voru þegar eitraður, grænn reykur og hávært, hvæsandi hljóð barst um dýflissuna. Neville hafði einhvern veginn tekist að bræða seiðpott Seamusar í fljótandi klessu og töfradrykkurinn þeirra vætlaði um steingólfið og brenndi göt á skó hinna nemendanna. Andartaki síðar stóð allur bekkurinn uppi á stól nema Neville

sem stundi af sársauka. Hann hafði fengið töfradrykkinn yfir sig þegar seiðpotturinn bráðnaði og nú spruttu óhugnanleg, rauð brunasár fram á höndum hans og fótum.

„Fávísi drengur," hvæsti Snape og fjarlægði töfradrykkinn með einni sveiflu töfrasprotans. „Þú settir broddana af puntsvíninu út í áður en þú tókst pottinn af eldinum, ekki satt?"

Neville kjökraði þegar brunablöðrur tóku að spretta fram á nefi hans.

„Farðu með hann í sjúkrahúsálmuna," hreytti Snape út úr sér við Seamus. Síðan sneri hann sér að Harry og Ron sem höfðu verið að vinna við hliðina á Neville.

„Þú þarna – Harry – af hverju varaðirðu hann ekki við því að setja broddana út í? Hélstu að það kæmi sér vel fyrir þig ef hann gerði mistök? Þarna missti Gryffindor annað stig."

Þetta var svo ósanngjarnt að Harry var kominn á fremsta hlunn með að mótmæla þegar Ron sparkaði í sköflunginn á honum á bak við seiðpottinn þeirra.

„Varaðu þig,“ hvíslaði hann, „Snape getur víst orðið mjög andstyggilegur.“

Þegar þeir gengu upp stigann úr dýflissunni eftir kennslustundina var hugur Harrys í uppnámi og skapið þungt. Hans vegna hafði Gryffindor misst tvö stig í fyrstu vikunni – og af hverju lagði Snape svona mikið hatur á hann?

„Hresstu þig við,“ sagði Ron, „Snape var alltaf að taka stig af Fred og George. Má ég koma með þér að hitta Hagrid?“

Klukkan fimm mínútur í þrjú yfirgáfu þeir kastalann og gengu áleiðis yfir skólalóðina. Hagrid bjó í litlum bjálkakofa í útjaðri forboðna skógarins. Fyrir framan útidyrnar lágu lásbogi og skóhlífar.

Þegar Harry bankaði á dyrnar heyrðist æðisgengið krafs inni í kofanum og á eftir fylgdi hávært gelt. Síðan glumdi rödd Hagrids: „Rólegur, Tryggur – rólegur.“

Stórt, loðið andlit Hagrids birtist í dyragættinni þegar hann opnaði.

„Bíðið aðeins,“ sagði hann. „Rólegur, Tryggur.“

Hann hleypti þeim inn um leið og hann barðist við að halda risastórum, svörtum veiðihundi í skefjum.

Inni í kofanum var aðeins eitt herbergi. Ofan úr loftinu héngu svínslæri og fasanar, það sauð á koparkatli í eldstæðinu og úti í horni stóð sterkbyggt rúm með bútasaumsteppi.

„Látið eins og þið séuð heima hjá ykkur," sagði Hagrid og sleppti takinu á hundinum sem stökk beint á Ron og hóf að sleikja á honum eyrun. Líkt og Hagrid var Tryggur greinilega ekki jafn ógnvekjandi og útlitið bar með sér.

„Þetta er Ron," tilkynnti Harry á meðan Hagrid hellti sjóðandi vatni í stóra tekönnu og setti sandköku á fat.

„Enn einn Weasleysnáðinn ef mér skjátlast ekki?" sagði Hagrid og horfði á freknurnar á Ron. „Ég hef eytt hálfri ævi minni í að reka tvíburabræður þína út úr skóginum."

Sandkakan braut næstum í þeim tennurnar en Harry og Ron létu eins og ekkert væri og sögðu Hagrid frá fyrstu kennslustundunum. Tryggur hvíldi höfuðið á hnjánum á Harry og slefaði yfir alla skikkjuna hans.

Harry og Ron voru fegnir að heyra að Hagrid kallaði Filch „gamla skarfinn“.

„Og hvað kettinum, frú Norris, viðkemur þá vildi ég gjarna kynna hana fyrir Tryggi einhvern tímann. Ég get sagt ykkur að þegar ég kem upp í skóla er hún alltaf á hælunum á mér. Ég losna ekki við hana – það er Filch sem sigar henni á mig.“

Harry sagði Hagrid frá kennslustundinni hjá Snape. Hagrid var sammála Ron um að hann ætti ekki að hafa áhyggjur og bætti við að Snape hefði hvort eð er ímugust á flestum nemendum sínum.

„En það var virkilega eins og hann hataði mig.“

„Vitleysa!“ sagði Hagrid. „Af hverju ætti hann að gera það?“

Samt komst Harry ekki hjá því að taka eftir að Hagrid forðaðist að líta í augun á honum þegar hann sagði þetta.

„Hvað er að frétta af Charlie bróður þínum?“ sagði Hagrid við Ron. „Mér líkaði mjög vel við hann – hann var svo laginn við dýr.“ Harry velti því fyrir sér hvort Hagrid hefði skipt um

umræðuefni af ásettu ráði. Á meðan Ron sagði Hagrid frá vinnu Charlies við drekana tók Harry upp blaðaúrklippu sem lá undir tehettunni. Hún var klippt út úr Spámannstíðindum:

Nýjustu fréttir af innbrotinu
í Gringottbankann

Rannsóknin á bankaráninu hinn 31. júlí heldur áfram. Talið er að óþekktar nornir eða galdramenn úr röðum myrku aflanna standi á bak við það.

Starfsmenn Gringottbankans halda því fram að engu hafi verið stolið. Fjárhirslan sem brotist var inn í hafði raunar verið tæmd fyrr um daginn.

„En við látum ekkert uppi um það hvað var í hirslunni svo að ykkur er best að vera ekki með nefið niðri í því sem ykkur kemur ekki við,“ sagði talsálfur Gringottbankans síðdegis í dag.

Harry mundi eftir því að Ron hafði sagt honum frá ránstilrauninni þegar þeir sátu í lestinni en hann hafði ekki minnst á hvenær hún átti sér stað.

„Hagrid,“ sagði Harry, „innbrotið í Gringottbankann var framið á afmælisdaginn minn! Kannski var meira að segja verið að fremja það á meðan við vorum þar!“

Nú lék enginn vafi á því að Hagrid forðaðist að líta í augu Harrys. Hann muldraði eitthvað og bauð honum meiri sandköku. Harry las fréttina aftur. Fjárhirslan sem brotist var inn í hafði raunar verið tæmd fyrr um daginn. Hagrid hafði tæmt fjárhirslu sjö hundruð og þrettán þegar hann tók þaðan litla, þvælda pakkann. Hafði pakkinn verið það sem þjófarnir voru á höttunum eftir?

Þegar Harry og Ron gengu aftur heim í kastalann til að borða kvöldmat voru vasar þeirra úttroðnir af sandkökusneiðum sem þeir höfðu verið of kurteisir til að afþakka. Harry hugleiddi þessa heimsókn til Hagrids. Hún hafði vakið með honum fleiri vangaveltur en allar kennslustundir dagsins samanlagðar. Hagrid hafði greinilega fjarlægt pakkann á síðustu stundu. En hvar var hann núna? Og vissi Hagrid eitthvað um Snape sem hann vildi ekki segja Harry?

# Níundi kafli

# Miðnætureinvígið

Harry hefði aldrei trúað að hann ætti eftir að hitta neinn sem honum líkaði verr við en Dudley, en það var áður en hann hitti Draco Malfoy. Sem betur fór þurftu fyrsta árs Gryffindornemar aðeins að sækja tíma með Slytherinkrökkunum í töfradrykkjum; hina tímana sluppu þau við félagsskap Dracos. Eða það héldu þau að minnsta kosti þar til þau lásu bréfmiða sem hékk á auglýsingatöflu Gryffindorvistarinnar. Tilkynningin kom þeim öllum til að stynja þunglega. Flugtímarnir áttu að byrja á fimmtudaginn – og Gryffindor og Slytherin áttu að sækja þá tíma saman.

„Dæmigert,“ sagði Harry niðurdreginn. „Þetta var einmitt það sem ég þurfti. Að gera mig að fífli á kústinum fyrir framan Draco.“ Hann sem hafði hlakkað svo mikið til að læra að fljúga.

„Þú veist ekki fyrirfram hvort þú gerir þig að fífli,“ sagði Ron skynsamlega. „Ég veit að Draco er alltaf að monta sig af því hvað hann er góður í Quidditch en ég er viss um að það er bara í nösunum á honum.“

Draco talaði svo sannarlega mikið um flug. Hann kvartaði hástöfum yfir því að fyrsta árs nemar fengju ekki að vera með í Quidditch liðum heimavistanna og sagði langar grobbsögur af sjálfum sér sem allar virtust enda á því að hann slapp naumlega undan þyrlum Mugganna. Hann var að vísu ekki sá eini sem talaði um reynslu sína af fluginu. Svo var að heyra sem Seamus Finnegan hefði eytt flestum barnæskuárum sínum í að fljúga um sveitir landsins. Jafnvel Ron sagði öllum sem heyra vildu frá því þegar hann hafði næstum rekist á svifdreka á gamla kústinum hans Charlies. Þeir sem komu úr alvöru galdrafjölskyldum töluðu stöðugt um Quidditch. Ron hafði þegar lent í hávaðarifrildi um fótbolta við Dean Thomas sem deildi með þeim svefnsal. Hann gat ekki skilið hvað var spennandi við leik með aðeins einum bolta og þar sem engum leyfðist að fljúga. Harry hafði komið að Ron þar sem hann var að pota í mynd Deans af Liverpoolliðinu til að athuga hvort leikmennirnir gætu hreyft sig.

Neville hafði aldrei á ævi sinni sest á galdrakúst af því að amma hans hafði harðbannað það. Harry fannst það mjög skiljanlegt. Neville var ótrúlegur hrakfallabálkur jafnvel þegar hann stóð með báða fætur á jörðinni.

Hermione Granger var næstum jafn hrædd við að fljúga og Neville. Flugið var nefnilega grein sem ekki var hægt að læra utanbókar – þó að hún hefði náttúrlega reynt það með því að lesa allar fáanlegar handbækur. Við morgunverðarborðið á fimmtudeginum gerði hún alla vitlausa úr leiðindum með því að veita ráðleggingar um flug upp úr bókasafnsbók sem hét Quidditch í aldanna rás. Neville var sá eini sem drakk í sig allt sem hún sagði í veikri von um einhverja visku sem gæti hjálpað honum að hanga á kústinum seinna um daginn. En hinir við borðið urðu guðslifandi fegnir þegar fyrirlestur Hermione stöðvaðist við komu póstuglanna.

Harry hafði ekki fengið eitt einasta bréf síðan Hagrid hafði sent honum boðskortið. Draco hafði að sjálfsögðu verið fljótur að veita því athygli og leit alltaf glaðhlakkalegur á Harry þegar pakkar fullir af sætindum bárust honum að heiman.

Turnugla færði Neville pakka frá ömmu hans. Hann opnaði gjöfina ákafur og sýndi þeim glerkúlu á stærð við dúfuegg sem virtist full af hvítum reyk.

„Þetta er minniskúla!“ útskýrði hann. „Amma veit hvað ég er gleyminn og þessi kúla lætur mig vita ef ég hef gleymt einhverju. Sjáiði, maður heldur henni fast svona og ef hún verður rauð – ó …“ bros hans fölnaði vegna þess að kúlan varð skyndilega skærrauð, „… þá hefur maður gleymt einhverju.“

Neville var að reyna að muna hverju hann hafði gleymt þegar Draco Malfoy gekk framhjá Gryffindorborðinu. Hann hrifsaði minniskúluna úr höndunum á Neville.

Harry og Ron spruttu á fætur. Þeir voru hálfpartinn að vonast eftir afsökun til að slást við Draco en McGonagall prófessor var fljót að skynja að vandræði voru í uppsiglingu og var samstundis mætt á staðinn.

„Hvað gengur hér á?“

„Draco tók minniskúluna mína, prófessor.“ Draco lagði kúluna á borðið með fýlusvip.

„Mig langaði bara að skoða hana,“ sagði hann og slangraði í burtu með Crabbe og Goyle á hælunum.

Klukkan hálffjögur síðdegis sama dag hlupu Harry, Ron og hin úr Gryffindor niður tröppurnar og út á útivistarsvæðið í fyrsta flugtímann. Dagurinn var bjartur en dálítið svalur. Grasið bylgjaðist um fætur þeirra þegar þau þrömmuðu niður brekkurnar í átt að sléttri grasflöt. Í fjarska mátti sjá tré forboðna skógarins sem svignuðu drungalega undan vindinum.

Krakkarnir úr Slytherin voru mættir og tuttugu kústar lágu í snyrtilegri röð á jörðinni. Harry hafði heyrt Fred og George Weasley kvarta yfir skólakústunum; þeir sögðu að sumir þeirra ættu það til að hristast ef flogið væri of hátt eða hallast aðeins til vinstri þó að reynt væri að fljúga til hægri.

Fröken Hooch, kennarinn þeirra, var mætt. Hún var með stutt, grátt hár og augu eins og fálki.

„Jæja, eftir hverju eruð þið að bíða?“ kallaði hún. „Takið ykkur stöðu við kústskaft. Áfram með ykkur.“

Harry gaut augunum á kústinn sem lá við hliðina á honum. Hann var gamall og hárin stungust út í allar áttir.

„Setjið hægri hönd ykkar yfir kústinn," kallaði fröken Hooch, „og segið upp!"

„Upp!" æptu allir í kór.

Kústurinn hans Harrys skaust upp í höndina á honum en hann var einn af fáum sem það gerðu. Kústur Hermione Granger rúllaði einfaldlega frá henni og kústur Nevilles hreyfðist ekki hið minnsta. Kannski voru kústar eins og hestar; gátu fundið ef maður var hræddur, hugsaði Harry. Það var að minnsta kosti auðheyrt á skjálftanum í rödd Nevilles að hann vildi frekar hafa báða fæturna á jörðinni.

Fröken Hooch sýndi þeim hvernig best væri að fara upp á kústinn án þess að renna niður af honum. Hún gekk fram og til baka eftir röðinni til þess að leiðrétta gripið hjá þeim. Harry og Ron kættust mjög þegar hún sagði Draco að hann hefði greinilega haldið kústinum vitlaust í mörg ár.

„Þegar ég blæs í flautuna spyrnið þið ykkur fast frá jörðinni," sagði fröken Hooch. „Haldið kústunum stöðugum, hefjið ykkur

einn metra upp í loftið og komið beint niður aftur. Það gerið þið með því að halla ykkur aðeins fram á við. Tilbúin? Nú flauta ég ...“

En Neville var svo óstyrkur og hræddur um að verða skilinn eftir niðri á jörðinni að hann spyrnti frá áður en fröken Hooch hafði náð að bera flautuna upp að vörum sér.

„Komdu hingað, strákur!“ hrópaði hún, en Neville skaust beina leið upp í loftið eins og korktappi – átta metra – fimmtán metra. Harry sá náfölt andlit hans horfa niður á jörðina sem fjarlægðist óðum, sá hann grípa andann á lofti, byrja að renna út á hlið af kústinum og ...

Búmm – með miklum dynk féll Neville endilangur á magann í grasið. Kústurinn hans hélt áfram upp í loftið og rak hægt og rólega í áttina að forboðna skóginum. Að lokum hvarf hann alveg úr augsýn.

Fröken Hooch stumraði yfir Neville. Andlit hennar var alveg jafn fölt og hans.

„Brotinn úlnliður,“ heyrði Harry hana tauta. „Svona nú – þetta er allt í lagi, á fætur með þig, drengur minn.“ Hún sneri sér að hinum í bekknum.

„Þið verðið kyrr hér á meðan ég fylgi þessum dreng í sjúkrahúsálmuna! Ekkert ykkar svo mikið sem snertir kúst á meðan. Þeir sem ekki hlýða verða reknir úr skólanum áður en þeir ná að segja Quidditch! Komdu nú, góði minn.“

Neville hélt grátbólginn um úlnliðinn og fylgdi fröken Hooch. Hún lagði handlegginn hughreystandi um axlir hans.

Þau voru varla komin úr heyrnarmáli þegar Draco sprakk úr hlátri. „Sáuð þið svipinn á hlunkinum?“

Hinir í Slytherin tóku undir hláturinn.

„Þegiðu, Draco,“ hreytti Parvati Patil út úr sér.

„Nei, á nú að fara að verja Neville litla Longbottom?“ sagði Pansy Parkinson, Slytherinstúlka með hörkulegt andlit. „Ekki vissi ég að þú værir svona veik fyrir litlum, feitum grenjuskjóðum, Parvati.“

„Sjáiði!“ sagði Draco. Hann tók skyndilega undir sig stökk, beygði sig niður og tók eitthvað upp úr grasinu. „Þetta er asnalega kúlan sem amma Longbottoms sendi honum.“

Minniskúlan glitraði í sólinni þegar hann hóf hana á loft.

„Láttu mig fá hana, Draco,“ sagði Harry rólega. Allir þögnuðu og fylgdust með þeim.

Draco brosti kvikindislega.

„Ég hugsa að ég skilji hana eftir einhvers staðar. Þá getur Longbottom náð í hana sjálfur – hvernig væri … að setja hana upp í tré?“

„Láttu mig fá hana og það strax!“ æpti Harry en Draco var þegar stokkinn upp á kústinn og floginn af stað. Hann hafði ekki verið að grobba sig. Hann gat flogið og það meira að segja prýðilega. Yfir efstu greinum eikartrés kallaði hann hæðnislega: „Komdu og náðu í hana, Potter!“

Harry greip kústinn sinn.

„Nei!“ æpti Hermione Granger. „Fröken Hooch bannaði okkur að snerta kústana – þú kemur okkur öllum í vandræði.“

Harry lét sem hann heyrði ekki í henni. Hann var svo reiður að blóðið dundi í eyrum hans. Hann steig upp á kústskaftið, spyrnti fast frá jörðinni og sveif hærra og hærra með vindinn í hárinu og skikkjuna flaksandi aftur af öxlunum – í sæluvímu uppgötvaði hann að þetta gat hann án þess að þurfa að læra það fyrst. Þetta var auðvelt, þetta var dásamlegt. Hann stýrði kústinum ögn hærra. Hann vildi freista þess að komast alveg upp að Draco. Neðan af jörðinni heyrðust öskur og andköf í stelpunum og aðdáunaróp frá Ron. Hann lét kústinn taka krappa beygju í loftinu og nam staðar andspænis Draco sem var agndofa á svipinn.

„Komdu með hana!“ kallaði Harry. „Annars hrindi ég þér af kústinum!“

„Jæja, þú segir það?“ sagði Draco og reyndi að setja upp hæðnisglott en áhyggjusvipurinn skein í gegn.

Eins og af eðlishvöt vissi Harry hvað hann átti að gera. Hann beygði sig fram, greip þéttingsfast um kústinn með báðum höndum og skaust í áttina að Draco eins og raketta. Draco

rétt náði að víkja sér undan. Harry sneri sér við og hélt kústinum stöðugum. Nokkrir af nemendunum á jörðu niðri klöppuðu.

„Hér eru engir Crabbe og Goyle til að bjarga þér, Draco," kallaði Harry.

Draco virtist einnig hafa gert sér grein fyrir þeirri staðreynd.

„Gríptu hana þá ef þú getur!" æpti hann og fleygði glerkúlunni hátt upp í loftið. Síðan þaut hann eins og elding niður á grasflötina. Það var eins og tíminn stæði kyrr þegar Harry horfði á kúluna svífa í boga fyrir ofan sig áður en hún byrjaði að falla til jarðar. Hann beygði sig fram á við og beindi kústskaftinu í átt að jörðinni – á næsta andartaki steypti hann sér á fleygiferð á eftir kúlunni. Vindurinn þaut í eyrum hans og blandaðist öskrum krakkanna sem stóðu og fylgdust með. Hann teygði fram höndina – í mesta lagi hálfan metra frá jörðinni – og greip kúluna augnabliki áður en hann rétti kústskaftið af og lenti mjúklega á grasinu með minniskúluna í lófanum.

„Harry Potter!"

Hjarta hans sökk samstundis ofan í maga. McGonagall prófessor kom hlaupandi í áttina til þeirra. Hann steig af kústskaftinu skjálfandi á beinunum.

„Alla mína daga í Hogwartskóla hef ég aldrei …“

McGonagall prófessor var næstum orðlaus af skelfingu. Augu hennar skutu gneistum á bak við gleraugun. „Hvernig vogarðu þér – þú hefðir getað hálsbrotnað …“

„Þetta var ekki honum að kenna, prófessor …“

„Þögn, Parvati …“

„En Draco …“

„Þetta nægir, Ron. Harry, fylgdu mér strax.“

Harry kom auga á sigrihrósandi andlitin á Draco, Crabbe og Goyle þegar hann dróst af stað á eftir McGonagall sem skálmaði í áttina að kastalanum. Nú yrði hann rekinn, hann var viss um það. Hann langaði að segja eitthvað sjálfum sér til varnar en það var eins og röddin hefði brugðist honum. McGonagall prófessor geystist áfram án þess að líta á hann;

hann varð að hlaupa við fót til að halda í við hana. Nú hafði hann aldeilis komið sér í klípu. Og það voru aðeins liðnar tvær vikur af skólatímanum. Eftir tíu mínútur yrði hann sjálfsagt sendur upp að pakka niður. Hvað myndi Dursleyfjölskyldan segja þegar hann birtist aftur á dyraþrepinu hjá þeim?

Þau gengu upp kastalatröppurnar og áfram upp langan marmarastigann. McGonagall prófessor hafði enn ekki mælt orð af vörum. Hún reif dyr upp á gátt og þrammaði taktfast eftir löngum göngum og Harry tölti niðurdreginn í kjölfarið. Kannski tæki hún hann með sér til Dumbledore. Hann hugsaði til Hagrids sem hafði á sínum tíma verið rekinn en leyft að vera áfram sem skógarvörður. Kannski hann gæti orðið aðstoðarmaður Hagrids. Hann fékk hnút í magann af tilhugsuninni um að hann ætti eftir að sjá Ron og alla hina klára skólann og verða alvöru galdramenn á meðan hann þrammaði um skólalóðina ásamt Hagrid með töskuna hans á bakinu.

McGonagall prófessor nam staðar fyrir utan eina af kennslustofunum. Hún opnaði dyrnar og stakk höfðinu inn fyrir.

„Afsakið, Flitwick prófessor, mætti ég fá Wood lánaðan eitt augnablik?“

Wood? hugsaði Harry ruglaður; var það einhvers konar hegningartæki sem hún ætlaði að nota á hann?

En í ljós kom að Wood var manneskja; stór og kraftalegur fimmta árs nemi. Hann var álíka undrandi og Harry þegar hann kom út úr skólastofunni.

„Komiði með mér, báðir tveir,“ sagði McGonagall prófessor og áfram héldu þau út ganginn. Wood gaut augunum forvitinn á Harry.

„Hérna inn.“

McGonagall prófessor vísaði þeim inn í kennslustofu sem var mannlaus nema hvað Peeves var þar önnum kafinn við að skrifa dónaleg orð á töfluna.

„Út með þig, Peeves!“ æpti hún. Peeves fleygði krítinni í ruslafötuna svo að small í og leið bölvandi út. McGonagall skellti hurðinni á eftir honum og sneri sér að drengjunum tveimur.

„Harry, þetta er Oliver Wood. Oliver, ég er búin að finna handa þér leitara.“

Nú vék undrunin í svip Wood fyrir hrifningu.

„Er þér alvara, prófessor?“

„Fullkomin,“ sagði McGonagall prófessor þurrlega. „Drengurinn er fæddur leitari. Ég hef aldrei séð neitt þessu líkt. Var þetta í fyrsta skipti sem þú flaugst á kústi, Harry?“

Harry kinkaði þögull kolli. Hann hafði ekki hugmynd um hvað var á seyði, en svo virtist sem ekki stæði til að reka hann. Hann fór smám saman að fá tilfinningu í fæturna aftur.

„Hann greip þessa minniskúlu eftir fimmtán metra dýfu,“ sagði McGonagall prófessor við Wood. „Fékk ekki eina skrámu. Charlie Weasley hefði ekki getað leikið þetta eftir.“

Wood var á svipinn eins og allar hans óskir hefðu ræst í einni andrá.

„Hefurðu einhvern tíma séð Quidditchleik, Harry?“ spurði hann spenntur.

„Oliver er fyrirliði Gryffindorliðsins,“ útskýrði McGonagall prófessor.

„Hann hefur einmitt réttu líkamsbygginguna fyrir leitara,“ sagði Wood og gekk rannsakandi hringinn í kringum Harry. „Léttur – fljótur – við verðum að gefa honum almennilegan kúst, prófessor – annaðhvort Nimbus 2000 eða Cleansweep 7.“

„Ég tala um þetta við Dumbledore. Við verðum fyrst að athuga hvernig við komumst hjá reglum skólans um fyrsta árs nema. Það veit sá sem allt veit að við þörfnumst betra liðs en við höfðum á síðasta ári. Slytherin malaði okkur í lokakeppninni. Ég gat ekki horft framan í Severus Snape í margar vikur …“

McGonagall prófessor leit hvasst á Harry yfir gleraugun.

„Svo vil ég ekki heyra annað en að þú verðir duglegur að æfa þig, Harry. Annars gæti ég skipt um skoðun varðandi refsinguna.“

Svo brosti hún allt í einu.

„Faðir þinn hefði orðið stoltur af þér,“ sagði hún. „Hann var sjálfur afburða Quidditchleikmaður.“

„Þú ert að grínast.“

Það var matartími. Harry hafði nýlokið við að segja Ron frá því sem gerðist eftir að hann yfirgaf skólalóðina í fylgd McGonagall. Gaffallinn sem Ron hélt á stöðvaðist á miðri leið að munninum þar sem hann steingleymdist.

„Leitari?“ sagði hann. „En fyrsta árs nemar fá aldrei … þú verður yngsti leikmaðurinn á … “

„… á þessari öld,“ botnaði Harry og skóflaði upp í sig mat. Hann var hungraður eins og úlfur eftir viðburði dagsins. „Wood sagði mér það.“

Ron var svo forviða og fullur aðdáunar að hann sat opinmynntur og starði á Harry.

„Ég byrja að æfa í næstu viku,“ sagði Harry. „En ekki segja neinum. Wood vill halda þessu leyndu.“

Fred og George Weasley gengu nú inn í salinn. Þeir komu auga á Harry og flýttu sér yfir að borðinu til þeirra.

„Flott hjá þér,“ sagði George lágri röddu, „Wood sagði okkur frá þessu. Við erum líka í liðinu – varnarmenn.“

„Ég er viss um að við vinnum Quidditchbikarinn þetta árið,“ sagði Fred. „Við höfum ekki unnið bikarinn síðan Charlie hætti en í ár stöndum við okkur vel. Þú hlýtur að vera góður, Harry. Wood var í sjöunda himni þegar hann sagði okkur frá þessu.“

„Jæja, við verðum að fara. Lee Jordan segist hafa fundið ný leynigöng út úr skólanum.“

„Ég þori að veðja að þetta eru þau sömu og eru á bak við styttuna af Gregory hinum lata. Við fundum þau strax í fyrstu skólavikunni. Sjáumst.“

Fred og George voru varla komnir úr augsýn þegar mun óvinsælli maður birtist: það var Draco með Crabbe og Goyle sér við hlið.

„Er þetta síðasta máltíðin þín, Potter? Hvenær tekurðu lestina aftur til Mugganna?“

„Þú ert mun hugrakkari núna þegar þú hefur báða fætur á jörðinni og litlu vini þína með þér,“ sagði Harry kuldalega. Það var auðvitað ekkert lítið við stórvöxnu lífverðina sem Draco hafði valið sér en þar sem háborðið var þéttsetið kennurum gátu þeir lítið annað gert en að kreppa hnefana og yggla sig hvor framan í annan.

„Ég gæti tekið þig í gegn hvenær og hvar sem er,“ sagði Draco. „Í kvöld ef þú vilt. Hvað segirðu um galdraeinvígi? Bara sprotar – engin líkamleg snerting. Hvað er að? Hefurðu aldrei heyrt um galdraeinvígi?“

„Auðvitað hefur hann það,“ sagði Ron og sneri sér að þeim. „Ég er varamaðurinn hans. Hver er varamaður þinn?“ Draco mældi Crabbe og Goyle út.

„Crabbe,“ sagði hann. „Á miðnætti? Hittumst í minjagripaherberginu, það er aldrei læst.“

Þegar Draco var farinn litu Ron og Harry hvor á annan.

„Hvað er galdraeinvígi?“ spurði Harry. „Og hvað áttu við með því að þú sért varamaður minn?“

„Sko, varamaður er sá sem klárar einvígið ef þú deyrð,“ sagði Ron kæruleysislega og hélt áfram að borða. Þegar hann sá svipinn á Harry flýtti hann sér að bæta við: „En fólk deyr bara í alvöru einvígi. Þú veist, með alvöru galdramönnum. Þið Draco munuð í mesta lagi geta skotið gneistum hvor á annan. Hvorugur ykkar veit nægilega mikið um galdra til þess að geta meitt hinn alvarlega. Ég er viss um að hann reiknaði ekki með því að þú samþykktir þetta.“

„En hvað ef ég veifa sprotanum og ekkert gerist?“

„Þá fleygirðu honum frá þér og kýlir Draco,“ stakk Ron upp á.

„Er ég að trufla?“

Þeir litu upp. Þetta var Hermione Granger.

„Er ekki hægt að fá næði til þess að borða hérna?“ sagði Ron.

Hermione lést ekki sjá hann og beindi orðum sínum til Harrys.

„Ég komst ekki hjá því að heyra hvað þið Draco voruð að tala um …“

„Örugglega ekki,“ muldraði Ron.

„… og þú mátt ekki flækjast um skólann að næturlagi. Hugsaðu um stigin sem það kostar Gryffindor ef þú verður gripinn – sem þú verður áreiðanlega. Þetta er satt að segja mjög eigingjarnt af þér.“ „Og þetta kemur þér satt að segja ekkert við,“ sagði Harry.

„Bless, bless,“ sagði Ron.

En það var ekki beint hægt að kalla þetta fullkominn endi á góðum degi, hugsaði Harry þegar hann lá uppi í rúmi um kvöldið. Honum heyrðist Dean og Seamus vera sofnaðir, en Neville var ekki kominn aftur úr sjúkrahúsálmunni. Ron hafði eytt öllu kvöldinu í að gefa honum góð ráð eins og til dæmis: „Ef hann reynir að kalla yfir þig bölvun skaltu reyna að víkja þér undan henni vegna þess að ég man ekki hvernig á að stöðva svoleiðis.“ Það var auk þess ákveðin hætta á að þeir rækjust á Filch eða frú Norris og Harry gerði sér fulla grein fyrir því að hann var að storka örlögunum með því að brjóta

aðra skólareglu á einum og sama deginum. Á hinn bóginn stóð hrokafullt andlit Dracos honum skýrt fyrir hugskotssjónum – þetta yrði hans tækifæri til að sýna Draco í tvo heimana. Hann gat ekki sleppt því.

„Hún er orðin hálftólf,“ muldraði Ron. „Við skulum drífa okkur af stað.“

Þeir klæddu sig í náttsloppana sína, náðu í töfrasprotana og lædd ust í gegnum svefnsalinn, niður hringstigann og inn í setustofu Gryffindor. Það logaði enn í glæðunum í arninum og þungu hægindastólarnir vörpuðu ógnvekjandi skuggum á veggina. Þeir voru næstum komnir að málverkinu sem huldi gatið á veggnum þegar rödd heyrðist úr hægindastólnum næst þeim: „Ég trúi þessu ekki upp á þig, Harry.“

Það kviknaði á lampa. Þarna sat Hermione Granger í bleikum náttslopp ásakandi á svip.

„Hvað ert þú að gera hér?“ spurði Ron ævareiður. „Farðu aftur í rúmið!“

„Það munaði engu að ég segði bróður þínum frá þessu,“ hreytti Hermione út úr sér, „honum Percy – hann er umsjónarmaður og hefði stöðvað þessa vitleysu.“

Harry átti bágt með að trúa að nokkur gæti verið jafn afskiptasamur og Hermione.

„Komdu,“ sagði hann við Ron. Hann ýtti málverkinu af feitu konunni til hliðar og klifraði í gegnum gatið.

Hermione var ekki á þeim buxunum að gefast upp svona auðveldlega. Hún elti Ron í gegnum gatið og hvæsti á þá eins og reið gæs.

„Ykkur er alveg sama um Gryffindor. Þið hugsið bara um sjálfa ykkur. Ég vil í það minnsta ekki að Slytherin vinni heimavistarbikarinn enn einu sinni og þetta mun kosta okkur öll stigin sem McGonagall gaf mér fyrir að standa mig vel í ummyndun.“

„Farðu.“

„Allt í lagi. En ég er búin að vara ykkur við. Ég vona að þið munið það þegar þið sitjið í lestinni á leiðinni heim á morgun. Þið eruð svo …“

Þeir fengu þó ekki að heyra hvað henni fannst um þá. Hermione hafði snúið sér að málverkinu af feitu konunni en það var autt. Feita konan var farin í næturheimsókn og Hermione komst ekki aftur inn í Gryffindorturninn.

„Hvað geri ég nú?“ spurði hún hvellum rómi.

„Það er þitt vandamál,“ sagði Ron. „Við verðum að fara, við erum að verða of seinir.“

Þeir voru ekki komnir út ganginn þegar Hermione náði þeim.

„Ég kem með ykkur,“ sagði hún.

„Nei, það gerirðu ekki.“

„Haldið þið að ég ætli bara að standa og bíða eftir að Filch finni mig? Ef hann finnur okkur öll ætla ég að segja honum eins og er. Að ég hafi verið að reyna að stöðva ykkur og þið

getið staðfest það.“ „Það vantar ekki ósvífnina …“ sagði Ron hárri röddu.

„Þegiði, bæði tvö!“ sagði Harry höstugur. „Ég heyrði eitthvað.“ Þau heyrðu einhvers konar soghljóð.

„Frú Norris?“ hvíslaði Ron og rýndi út í myrkrið.

Þetta var ekki frú Norris heldur Neville. Hann lá steinsofandi í hnipri á gólfinu, en þegar þau læddust nær hrökk hann upp.

„Je minn, hvað ég er feginn að þið funduð mig! Ég er búinn að vera hérna í óratíma af því að ég mundi ekki nýja leyniorðið.“ „Talaðu lágt, Neville. Leyniorðið er „grísatrýni“, en það kemur ekki að neinum notum núna vegna þess að feita konan er farin eitthvað.“

„Hvernig ertu í hendinni?“ spurði Harry.

„Fínn,“ sagði Neville og rétti fram höndina. „Það tók fröken Pomfrey innan við mínútu að græða hana.“

„Gott. Sjáðu til, Neville, við þurfum að fara á ákveðinn stað þannig að við sjáumst seinna …“

„Ekki fara!“ sagði Neville og brölti á fætur. „Ég vil ekki vera einn eftir. Blóðugi baróninn er búinn að koma hérna tvisvar.“

Ron leit á klukkuna og starði síðan bálreiður á Hermione og Neville.

„Ef annað hvort ykkar kemur upp um okkur verð ég ekki í rónni fyrr en ég er búinn að læra púkabölvunina sem Quirrell sagði okkur frá og nota hana á ykkur.“

Hermione opnaði munninn, kannski til að útskýra fyrir Ron hvernig ætti að framkvæma bölvunina en Harry þaggaði niður í henni. Svo benti hann þeim að fylgja sér.

Þau læddust hljóðlega eftir illa upplýstum göngunum. Tunglið sendi stöku geisla inn um háa, bogadregna gluggana. Við hverja beygju bjóst Harry við að hlaupa í flasið á Filch og frú Norris en heppnin var með þeim. Þau flýttu sér upp stigann á þriðju hæð og læddust á tánum að minjagripaherberginu.

Draco og Crabbe voru ókomnir. Kristalsskáparnir endurvörpuðu birtu í mánaskininu. Bikarar, skildir, medalíur og styttur úr silfri og gulli glitruðu í myrkrinu. Þau læddust

meðfram veggjunum og höfðu augun á dyrunum við sinn hvorn enda herbergisins. Harry tók fram töfrasprotann ef ske kynni að Draco stykki skyndilega fram og byrjaði að galdra fyrirvaralaust. Mínúturnar siluðust áfram.

„Hann er of seinn. Kannski hefur hann guggnað á þessu," hvíslaði Ron.

Þau hrukku í kút þegar hávaði barst úr næsta herbergi. Harry var rétt búinn að lyfta sprotanum þegar þau heyrðu rödd – en það var ekki rödd Dracos.

„Þefaðu að vild, mín kæra. Máske eru þeir í felum í einhverju horninu."

Þetta var Filch og hann var að tala við frú Norris. Skelfingu lostinn gaf Harry hinum bendingu um að fylgja sér. Þau skutust hljóðlega að dyrunum sem lágu í hina áttina. Skikkjan hans Nevilles hafði varla sveiflast fyrir hornið þegar þau heyrðu Filch ganga inn í minjagripaherbergið.

„Þau eru hérna einhvers staðar," heyrðu þau hann muldra, „líklega að fela sig."

„Þessa leið!“ Harry myndaði orðin með vörunum og frávita af ótta læddust þau á eftir honum inn í stóran sýningarsal fullan af herklæðum. Þau heyrðu Filch nálgast. Skyndilega gaf Neville frá sér hræðsluóp og byrjaði að hlaupa – hann hrasaði og greip utan um mittið á Ron og saman hrundu þeir beint á eina brynjuna.

Hávaðinn og lætin hefðu nægt til þess að vekja allan kastalann.

„Hlaupum!“ æpti Harry og öll fjögur hlupu þau í einum spretti í gegnum salinn án þess að líta um öxl til að athuga hvort Filch væri á eftir þeim. Þau þutu út um dyragættina og áfram eftir hverjum ganginum á fætur öðrum. Harry var í fararbroddi án þess að hafa minnstu hugmynd um hvar þau voru eða hvert ferðinni var heitið. Þau æddu inn á milli veggtjalda og voru þá skyndilega stödd í leynigöngum. Þau hlupu eftir göngunum og komu út nálægt galdrakennslustofunni. Hún var langt frá minjagripaherberginu!

„Ég held að okkur hafi tekist að hrista hann af okkur,“ stundi Harry upp. Hann hallaði sér upp að köldum veggnum og

þurrkaði sér um ennið. Neville stóð í keng, másandi og blásandi.

„Ég sagði þetta,“ stundi Hermione og hélt um síðuna. Hún var með hrikalegan hlaupasting. „Ég sagði þetta.“

„Við verðum að komast aftur í Gryffindorturninn,“ sagði Ron, „eins fljótt og mögulegt er.“

„Draco plataði þig,“ sagði Hermione við Harry. „Þú gerir þér væntanlega grein fyrir því? Hann ætlaði sér aldrei að heyja við þig einvígi – Filch vissi að það var einhver í minjagripaherberginu og það er ekki erfitt að reikna út hver hefur sagt honum frá því.“

Harry vissi að líklega hafði hún rétt fyrir sér en vildi ekki viðurkenna það.

„Drífum okkur.“

En það var ekki eins einfalt og þau héldu. Þau höfðu aðeins gengið nokkur skref þegar hurðarhúnninn hreyfðist og eitthvað kom þjótandi út úr kennslustofunni á móti þeim.

Það var Peeves. Hann kom auga á þau og skríkti af gleði.

„Þegiðu, Peeves – annars verðum við rekin.“ Peeves hneggjaði af hlátri.

„Litlu busarnir ráfandi um skólann um miðjar nætur? Svei, svei, óþekktarangarnir, þeir verða fangaðir.“

„Ekki ef þú kjaftar ekki frá, Peeves. Gerðu það fyrir okkur.“

„Ég ætti að segja Filch frá þessu,“ sagði Peeves með heilagri röddu en í augum hans var illkvittinn glampi. „Þið vitið að það er ykkur fyrir bestu.“

„Færðu þig nú,“ hreytti Ron út úr sér og sló til Peeves. Það hefði hann betur látið ógert.

„Nemendur á næturrölti!“ æpti Peeves. „Nemendur á næturrölti hjá galdrakennslustofunni!“

Þau beygðu sig undir Peeves og hlupu eins og þau ættu lífið að leysa. Þegar þau komu út að enda gangsins hlupu þau beint á læstar dyr.

„Við erum búin að vera!“ stundi Ron þegar þau hömuðust árangurs laust á hurðinni. „Það er úti um okkur! Nú er þetta búið!“

Þau heyrðu fótatak – það hlaut að vera Filch sem kom hlaupandi eins hratt og hann gat.

„Æi, færið ykkur,“ sagði Hermione höstuglega. Hún greip töfrasprotann hans Harrys, sló honum í lásinn og hvíslaði: „Alohom ora!“ Það small í lásnum og dyrnar opnuðust upp á gátt – þau tróðust inn, skelltu hurðinni á eftir sér og lögðu eyrun upp að henni til að hlusta.

„Í hvaða átt fóru þau, Peeves?“ heyrðu þau Filch segja. „Fljótur, segðu mér það.“

„Þú verður að biðja mig kurteislega!“

„Láttu ekki svona, Peeves, segðu mér hvert þau fóru?“

„Ég segi ekkert. Þú verður að biðja mig fallega,“ sönglaði Peeves.

„Æ – jæja þá: Kæri Peeves, viltu vera svo vænn að segja mér hvert þau fóru?“

„Ekkert! Ha haaa! Ég sagði þér að ég myndi segja EKKERT ef þú bæðir mig fallega! Ha ha! Haaaaaa!“ Þau heyrðu Peeves þjóta í burtu og Filch krossbölva.

„Hann heldur að þessar dyr séu læstar,“ hvíslaði Harry. „Ég held að við séum sloppin. Slepptu mér, Neville!“ Neville hafði staðið og togað í ermina á Harry síðustu mínúturnar. „Hvað er að?“

Harry sneri sér við – og sá mjög greinilega hvað var að. Eitt augnablik hélt hann að þetta hlyti að vera martröð – þetta var of mikið ofan á allt hitt.

Þau voru ekki stödd í herbergi eins og hann hafði haldið. Þau voru stödd á gangi. Forboðna ganginum á þriðju hæð. Og nú skildu þau hvers vegna hann var forboðinn.

Þau horfðu beint í augun á risavöxnum hundi. Hann fyllti út í ganginn frá gólfi til lofts. Hann var með þrjú höfuð, þrjú pör af brjálæðislegum augum sem ranghvolfdust, þrjú trýni sem

þefuðu og titruðu hvert í sína áttina og þrjú slefandi gin með gulum vígtönnum.

Hann stóð grafkyrr og starði stíft á þau með öllum augunum. Harry vissi að eina ástæðan fyrir því að þau voru enn á lífi var sú að þau höfðu komið honum í opna skjöldu. Þrumandi urrið gaf til kynna að hann væri óðum að jafna sig eftir áfallið.

Harry fálmaði eftir hurðarhúninum – ef valið stæði á milli Filch og dauðans var Filch illskárri kosturinn.

Þau duttu aftur fyrir sig út um dyrnar – Harry skellti hurðinni á eftir þeim og svo flugu þau nánast eftir ganginum til baka. Filch hlaut að hafa flýtt sér í burtu að leita að þeim, því hann var hvergi sjáanlegur – ekki það að þeim væri ekki sama á þessari stundu. Það eina sem þau hugsuðu um var að komast sem lengst frá ófreskjunni. Þau hættu ekki að hlaupa fyrr en þau komu að málverkinu af feitu konunni á sjöundu hæð.

„Hvar í ósköpunum hafið þið verið?“ spurði hún og starði á flakandi náttsloppana, sem héngu á öxlum þeirra, og eldrauð, sveitt andlitin.

„Það skiptir ekki máli – grísatrýni, grísatrýni,“ stundi Harry og málverkið sveiflaðist til hliðar. Þau klifruðu inn í setustofuna og hrundu ofan í hægindastólana skjálfandi á beinunum.

Það leið drjúg stund áður en nokkurt þeirra mælti orð frá vörum. Neville leit út fyrir að hafa misst málið endanlega.

„Hvað á það að þýða að geyma svona ófreskju inni í skóla?“ spurði Ron að lokum. „Ef ég hef einhvern tíma séð hund sem þarfnast hreyfingar, þá er það þessi.“

Hermione var búin að ná andanum og aftur komin í slæmt skap.

„Eruð þið steinblindir?“ hreytti hún út úr sér. „Sáuð þið ekki á hverju hann stóð?“

„Á gólfinu?“ spurði Harry. „Ég gaf mér ekki tíma til að líta á hrammana á honum. Ég var of upptekinn við að fylgjast með öllum hausunum.“

„Nei, ekki á gólfinu. Hann stóð ofan á hlera. Hann er greinilega að halda vörð um eitthvað.“

Hún stóð á fætur og starði reiðilega á þá.

„Ég vona að þið séuð ánægðir með ykkur. Við hefðum öll getað dáið – eða það sem verra er – verið rekin. Ef ykkur er sama þá er ég farin í rúmið.“

Ron góndi á eftir henni með opinn munninn.

„Já, okkur er sama,“ sagði hann. „Það mætti halda að við hefðum dregið hana með okkur.“

Þegar Harry skreið upp í rúm hugsaði hann um það sem Hermione hafði sagt. Hundurinn stóð vörð um eitthvað … Hvað hafði Hagrid aftur sagt? Að Gringottbankinn væri öruggasti staður á jarðríki ef maður vildi fela eitthvað – að Hogwartskóla undanskildum.

Það leit út fyrir að Harry væri búinn að finna litla, skítuga pakkann úr fjárhirslu sjö hundruð og þrettán.

# Tíundi kafli

# Hrekkjavakan

Draco trúði varla sínum eigin augum þegar hann sá að Harry og Ron voru enn í skólanum næsta dag – þreyttir en mjög hamingjusamir. Raunar fannst þeim eftir á að hyggja að það hefði verið heilmikil upplifun að sjá þríhöfða hundinn og voru alveg til í að endurtaka leikinn. Þessa stundina var Harry að segja Ron frá pakkanum sem hafði verið fluttur frá Gringottbanka í Hogwartskólann og þeir brutu lengi heilann um það hvað gæti mögulega þarfnast svo öflugrar öryggisgæslu.

„Það er annaðhvort mjög verðmætt eða mjög hættulegt,“ sagði Ron.

„Eða hvort tveggja,“ sagði Harry.

En það eina sem þeir vissu fyrir víst var að dularfulli hluturinn var um það bil fimm sentimetrar að lengd, en þó gátu þeir

ekki ímyndað sér, án frekari vísbendinga, hvað þetta gæti verið.

Hvorki Neville né Hermione virtist hafa minnsta áhuga á að vita hvað væri undir hleranum sem hundurinn gætti. Neville óskaði þess bara að þurfa aldrei að koma nálægt hundinum framar.

Hermione talaði ekki við Ron og Harry en hún var hvort eð var svo stjórnsöm og góð með sig að þeir gátu ekki annað en hrósað happi yfir því. Nú höfðu þeir aðeins áhuga á að ná sér niðri á Draco og þeim til mikillar gleði kom tækifærið upp í hendurnar á þeim með póstinum um það bil viku síðar.

Þegar uglurnar streymdu inn í stóra matsalinn eins og venjulega beindist athygli allra að löngum, þunnum pakka sem sex stórar, skrækjandi uglur báru. Harry var jafn spenntur og allir aðrir að vita hvað væri í þessum stóra pakka. Hann varð furðu lostinn þegar uglurnar lækkuðu flugið og slepptu pakkanum beint fyrir framan hann svo beikonið hans datt í gólfið. Varla höfðu þær sleppt pakkanum þegar enn ein uglan kom flögrandi og lét bréf falla ofan á hann.

Til allrar hamingju byrjaði Harry á að opna bréfið vegna þess að í því stóð:

PAKKANN MÁ EKKI OPNA VIÐ BORÐIÐ.

Hann inniheldur nýjan Nimbus 2000, en við skulum halda því leyndu að þú sért búinn að fá nýjan galdrakúst – annars vilja allir eignast einn slíkan. Oliver Wood hittir þig á Quidditch velli klukkan sjö. Þar verður fyrsta æfingin.

M. McGonagall prófessor

Harry gat ekki dulið gleði sína þegar hann rétti Ron bréfið.

„Nimbus 2000," stundi Ron af öfund. „Ég hef ekki einu sinni komið nálægt slíkum grip."

Þeir flýttu sér út úr salnum, því þá langaði til að taka utan af kústinum á afviknum stað áður en næsta kennslustund hæfist.

Þegar þeir voru komnir hálfa leið gegnum forsalinn sáu þeir hvar Draco, Crabbe og Goyle sátu fyrir þeim í stiganum. Draco hrifsaði pakkann af Harry og þreifaði á honum.

„Þetta er galdrakústur," sagði hann og kastaði honum aftur til Harrys með svip sem lýsti bæði öfund og illgirni. „Nú liggurðu í því, Potter. Fyrsta árs nemum er bannað að vera með þá." Ron stóðst ekki freistinguna.

„Þetta er enginn venjulegur kústur," sagði hann. „Þetta er N imbus 2000. Hvers konar kúst sagðirðu að þú ættir heima, Draco? Var það Comet 2-60?" Ron glotti til Harrys. „Comet lítur vel út en hann er ekki nándar nærri eins góður og Nimbus."

„Hvað veist þú um það, Weasley? Þú hefðir ekki einu sinni efni á helmingnum af handfanginu," hvæsti Draco á móti. „Þú og bræður þínir yrðuð lengi að nurla saman fyrir honum."

Áður en Ron náði að svara kom Flitwick prófessor í ljós bak við Draco.

„Ég vona að þið séuð ekki að rífast, drengir?" tísti í honum.

„Potter fékk sendan galdrakúst,“ flýtti Draco sér að segja.

„Já, já, það er rétt,“ sagði Flitwick prófessor og ljómaði.

„McGonagall prófessor sagði mér frá þessum sérstöku kringumstæðum. Og hvaða tegund er þetta?“

„Nimbus 2000, herra,“ sagði Harry og barðist við að halda niðri í sér hlátrinum þegar hann sá skelfingarsvipinn á andliti Dracos. „Og það er í rauninni honum Draco hérna að þakka að ég fékk hann,“ bætti hann við.

Harry og Ron héldu áfram upp stigann í hláturskasti yfir undrun og reiði Dracos.

„Það er alveg satt,“ sagði Harry þegar þeir voru komnir upp marm aratröppurnar. „Ef hann hefði ekki stolið minniskúlunni frá Neville, þá væri ég ekki með í liðinu.“

„Svo þú heldur náttúrlega að þetta séu verðlaunin fyrir að brjóta reglurnar?“ var sagt reiðilegri röddu bak við þá. Hermione kom þrammandi upp stigann og leit með vanþóknun á pakkann í hendi Harrys.

„Ég hélt að þú vildir ekkert við okkur tala,“ sagði Harry.

„Já, blessuð vertu ekkert að byrja á því aftur,“ sagði Ron, „okkur líkar þetta ágætlega.“ Hermione strunsaði burtu með kerrtan hnakkann.

Harry átti erfitt með að einbeita sér í kennslustundunum þennan dag. Hann var stöðugt með hugann við nýja galdrakústinn sem lá undir rúminu hans eða Quidditchvöllinn þar sem fyrsta æfingin átti að fara fram um kvöldið. Hann gleypti í sig kvöldmatinn án þess að taka eftir því hvað hann borðaði og þaut svo loks upp á loft með Ron til að taka utan af Nimbus 2000.

„Váá,“ stundi Ron þegar kústurinn skoppaði úr umbúðunum yfir á rúmteppi Harrys. Harry vissi ekkert um töfrakústa en honum fannst hann dásamlegur. Hann var gljáfægður og glansandi og handfangið úr mahóníviði, vöndurinn gerður úr jöfnum, beinum kvistum og eftir endilöngu skaftinu var letrað Nimbus 2000 með gylltum stöfum.

Þegar klukkan var að verða sjö fór Harry út úr kastalanum og hélt í humáttina að Quidditchvellinum í rökkrinu. Hann hafði aldrei komið inn á leikvanginn áður. Þar voru hundruð sæta á

misháum pöllum svo áhorfendur gætu fylgst með því sem gerðist á vellinum. Við sinn hvorn enda vallarins voru þrír gullnir stólpar með hringjum á endanum. Þeir minntu Harry einna helst á plasthringina sem Muggakrakkarnir notuðu til að blása sápukúlur nema þessir voru í sautján metra hæð.

Harry gat ekki beðið eftir Wood – hann var svo spenntur. Hann steig á bak kústinum sínum og spyrnti frá jörðinni. Hvílík tilfinning – hann sveigði til og frá milli markstanganna og þaut fram og til baka yfir vellinum. Nimbus 2000 beygði skjótt og örugglega við minnstu snertingu.

„Halló, Harry! Komdu niður!“

Oliver Wood var mættur. Hann var með stóran trékassa undir handleggnum. Harry lenti við hliðina á honum.

„Mjög gott,“ sagði Wood með glampa í augum. „Ég skil hvað McGonagall átti við … þú hefur meðfædda hæfileika. Ég ætla bara að kenna þér reglurnar í kvöld. Eftir það æfirðu með liðinu þrisvar í viku.“

Hann opnaði kassann. Í honum voru fjórir boltar af mismunandi stærð.

„Jæja,“ sagði Wood. „Quidditch er auðvelt að læra – þótt það sé ekki jafn auðvelt að spila það. Í hvoru liði eru sjö leikmenn. Þrír þeirra eru kallaðir sóknarmenn.

„Þrír sóknarmenn,“ endurtók Harry um leið og Wood tók upp skærrauðan bolta á stærð við fótbolta.

„Þessi bolti er kallaður tromlan,“ sagði Wood. „Sóknarmennirnir kasta tromlunni á milli sín og reyna að koma henni í gegnum einn af hringjunum til að skora mark. Þeir fá tíu stig í hvert skipti sem tromlan fer í gegnum einhvern hringjanna. Skilurðu?“

„Sóknarmennirnir kasta tromlunni og koma henni í gegnum hringina til að skora,“ endurtók Harry. „Þetta er þá svipað körfubolta með sex körfum – á töfrakústum.“

„Hvað er körfubolti?“ spurði Wood forvitinn.

„Skiptir ekki máli,“ flýtti Harry sér að segja.

„Nú, það er einn leikmaður í hvoru liði sem er kallaður gæslumaður. Ég er gæslumaður hjá Gryffindor. Ég verð að

fljúga á milli hringjanna okkar og reyna að koma í veg fyrir að hitt liðið skori mark.“

„Þrír sóknarmenn og einn gæslumaður,“ sagði Harry og var ákveðinn í að muna þetta allt saman. „Og þeir spila með tromluna. Allt í lagi, ég er búinn að ná því. En til hvers eru þessir?“ Hann benti á boltana sem eftir voru í kassanum.

„Ég skal sýna þér það,“ sagði Wood. „Taktu þetta.“

Hann rétti Harry litla kylfu sem minnti dálítið á knatttré.

„Ég ætla að sýna þér hvernig á að nota rotarana,“ sagði Wood. „Þetta eru svokallaðir rotarar.“

Hann sýndi Harry tvo bolta sem voru nákvæmlega eins, kolsvartir og aðeins minni en rauða tromlan. Harry tók eftir því að þeir voru á sífelldu iði eins og þeir væru að reyna að losna úr böndunum sem héldu þeim föstum við kassann.

„Færðu þig,“ sagði Wood aðvarandi við Harry. Hann beygði sig niður og leysti annan rotarann. Á sama augnabliki tók svarti boltinn viðbragð og þaut upp í loftið og niður aftur í áttina að andliti Harrys. Harry sveiflaði kylfunni ósjálfrátt til

að koma í veg fyrir að boltinn bryti á honum nefið og sendi hann í hlykkjum til baka út í loftið. Boltinn þaut á ofsahraða í kringum þá og stefndi svo á Wood sem kastaði sér á hann og tókst að negla hann undir sér.

„Skilurðu nú?“ sagði Wood móður og másandi og tróð baráttuglöðum rotaranum aftur ofan í kassann og ólaði hann þar örugglega niður. „Rotararnir þjóta um og reyna að slá leikmennina af kústunum sínum. Þess vegna höfum við tvo varnarmenn í hvoru liði. Weasleytvíburarnir eru okkar varnarmenn. Þeirra hlutverk er að verja sinn vallarhelming gegn roturunum og reyna að slá þá í áttina að hinu liðinu. Jæja, heldurðu að þú hafir náð þessu öllu saman?“

„Þrír sóknarmenn reyna að skora með tromlunni, gæslumaðurinn gætir markanna, varnarmennirnir halda roturunum frá liðinu sínu,“ þuldi Harry upp úr sér.

„Mjög gott,“ sagði Wood.

„Ha-hafa rotararnir aldrei drepið neinn?“ spurði Harry og vonaði að spurningin hljómaði kæruleysislega.

„Aldrei hér í skólanum. Nokkrir hafa kjálkabrotnað, en ekkert verra en það. Jæja, síðasti meðlimur liðsins er leitarinn. Það ert þú. Og þú þarft ekkert að hugsa um tromluna eða rotarana.“

„Nema þeir brjóti á mér hausinn.“

„Hafðu ekki áhyggjur af því. Weasleybræðurnir halda þeim á mottunni. Þeir eru eins og gangandi rotarar sjálfir.“

Wood teygði sig eftir fjórða og síðasta boltanum í kassanum. Hann var lítill í samanburði við tromluna og rotarana. Hann var á stærð við valhnetu, gylltur og gljáandi með flögrandi silfurvængjum.

„Þetta,“ sagði Wood, „er gullna eldingin. Hún er langmikilvæga sti boltinn. Það er mjög erfitt að handsama hana, því hún fer svo hratt og auk þess er erfitt að koma auga á hana. Það er hlutverk leitarans að grípa hana. Þú verður að hringsóla milli sóknar- og varnarmannanna til að ná henni á undan leitara hins liðsins. Leitarinn sem nær gullnu eldingunni fær 150 stig aukalega fyrir liðið sitt, sem tryggir því næstum alltaf sigur. Þess vegna er mjög oft brotið á leitaranum. Quidditchl eik lýkur ekki fyrr en annar hvor

leitarinn nær gullnu eldingunni. Þess vegna getur einn leikur haldið áfram endalaust. Ég held að metið sé þrír mánuðir. Það varð stöðugt að setja inn varamenn svo að leikmennirnir fengju einhvern svefn. Þá held ég að það sé ekkert fleira – einhverjar spurningar?“

Harry hristi höfuðið. Hann skildi mætavel hvað hann átti að gera – vandamálið var hins vegar hvernig hann færi að því.

„Við æfum okkur ekki með eldinguna núna,“ sagði Wood og setti boltann varlega ofan í kassann. „Það er orðið of dimmt. Við gætum týnt henni. Við skulum láta þig spreyta þig á nokkrum svona.“

Hann dró upp poka af venjulegum golfkúlum. Stuttu síðar spyrntu þeir sér frá jörðinni. Wood henti golfkúlum eins fast og hann gat í allar áttir og Harry reyndi að grípa þær.

Honum tókst að ná þeim öllum og Wood var himinlifandi. Eftir hálftíma var skollið á myrkur og þeir gátu ekki haldið áfram.

„Nafnið þitt verður skráð á Quidditchbikarinn í ár,“ sagði Wood glaðlega þegar þeir þrömmuðu til baka í átt að kastalanum. „Það kæmi mér ekki á óvart að þú yrðir betri en

Charlie Weasley og hann hefði getað leikið með landsliðinu ef hann hefði ekki farið að eltast við dreka.“

Tíminn flaug áfram. Quidditchæfingarnar voru þrisvar í viku og Harry átti mjög annríkt eftir að þær bættust við heimanámið. Það var kannski þess vegna sem hann gat varla trúað því að hann væri búinn að vera í Hogwartskólanum í næstum tvo mánuði. Honum leið meira eins og heima hjá sér í kastalanum en honum hafði nokkru sinni liðið á Runnaflöt. Kennslustundirnar voru líka skemmtilegri eftir að þau höfðu náð undirstöðuatriðunum.

Á hrekkjavökumorgun vöknuðu þau við yndislegan ilm af nýbökuðum graskerjum sem barst um gangana. Og ekki var verra að Flitwick prófessor tilkynnti í töfrabragðatímanum að nú héldi hann að þau væru tilbúin til að láta hluti fljúga. Eftir því höfðu þau beðið með gríðarlegri eftirvæntingu síðan þau sáu hann láta halakörtuna hans Nevilles þjóta um loftið í kennslustofunni. Flitwick prófessor lét þau vinna saman tvö og tvö til að æfa sig. Harry lenti með Seamusi Finnegan (sem var mikill léttir, því að Neville hafði reynt að troða sér við hliðina á honum). Ron þurfti hins vegar að vinna með Hermione Granger. Það mátti ekki á milli sjá hvort þeirra varð

ergilegra. Hún hafði ekki yrt á þá síðan daginn sem Harry fékk töfrakústinn.

„Gleymið nú ekki litlu úlnliðshreyfingunni sem við höfum verið að æfa!“ tísti í Flitwick þar sem hann stóð uppi á bókastafla eins og hann var vanur. „Smella og sveifla, munið þið, smella og sveifla. Og segja töfraorðin rétt. Það er líka mjög mikilvægt. Munið eftir galdramanninum Baruffio sem sagði ess í staðinn fyrir eff og lenti á gólfinu með flóðhest ofan á sér.“

Þetta var erfitt. Harry og Seamus smelltu og sveifluðu en fjöðrin sem þeir áttu að senda upp í loftið lá hreyfingarlaus á borðinu. Að lokum varð Seamus svo óþolinmóður að hann ýtti við henni með töfrasprotanum sínum svo hún stóð í ljósum logum. Harry varð að slökkva í henni með hattinum sínum.

Ron sat við næsta borð og gekk ekki mikið betur.

„Wingardium leviosa!“ hrópaði hann og sveiflaði löngum handleggjunum eins og mylluvængjum.

„Þú segir þetta ekki rétt,“ heyrði Harry að Hermione hreytti út úr sér. „Það á að segja Wing-gar-dium levi-o-sa. Mundu að segja gar mjög rólega.“

„Gerðu það bara sjálf, fyrst þú ert svona klár,“ urraði Ron.

Hermione bretti upp ermarnar á skikkjunni sinni, lét hvína í töfrasprotanum sínum og sagði: „Wingardium leviosa!“

Fjöðrin þeirra lyftist upp frá borðinu og sveif um nokkrum metrum fyrir ofan höfuð þeirra.

„Frábært!“ hrópaði Flitwick prófessor og klappaði saman lófunum. „Sjáið þið – ungfrú Granger tókst það!“ Ron var í vondu skapi í lok tímans.

„Það er ekkert skrítið að enginn skuli þola hana,“ sagði Ron um leið og þeir olnboguðu sig í gegnum þvöguna á ganginum. „Hún er algjör martröð.“

Einhver rakst utan í Harry í þrengslunum á ganginum. Það var Hermione. Harry varð litið á hana og hann hrökk við þegar hann sá að hún var með tárin í augunum.

„Ég held að hún hafi heyrt í þér.“

„Hvað með það?“ sagði Ron, en honum virtist dálítið brugðið. „Það fer varla framhjá henni að hún á enga vini.“

Hermione kom ekki í næsta tíma og sást ekki allan síðari hluta dagsins. Þegar Ron og Harry voru á leið í hrekkjavökuveisluna í Stóra salnum heyrðu þeir Parvati Patil segja Lavender vinkonu sinni að Hermione væri grátandi inni á stelpnaklósettinu og vildi fá að vera í friði. Ron varð dálítið vandræðalegur yfir þessu en um leið og þeir komu inn í Stóra salinn, sem var allur skreyttur í tilefni hrekkjavökunnar, var Hermione gleymd.

Þúsund lifandi leðurblökur flögruðu frá lofti og veggjum og enn fleiri svifu yfir borðunum eins og dökkir skýjabólstrar svo kertaljósin í graskerjunum flöktu. Kvöldverðurinn birtist skyndilega á gullfötum eins og í veislunni fyrsta kvöldið.

Harry var að moka kartöflukökum á diskinn sinn þegar Quirrell prófessor kom æðandi inn í salinn. Vefjarhötturinn hallaðist á höfði hans og á andlitinu var skelfingarsvipur. Allir störðu á hann þegar hann hljóp að stól Dumbledore, kastaði sér fram á borðið og sagði með andköfum: „Tröll – það er tröll

niðri í kjallarahvelfingunni. Fannst rétt að láta þig vita.“ Síðan steinleið yfir hann.

Það varð uppi fótur og fit. Dumbledore varð að skjóta upp nokkrum purpurarauðum aðvörunarblysum úr töfrasprotanum sínum til að fá þögn í salnum.

„Umsjónarmenn,“ þrumaði hann. „Farið með skjólstæðinga ykkar upp í svefnsalina strax!“

Percy var í essinu sínu.

„Fylgið mér! Fyrsta árs nemar, haldið hópinn. Engin ástæða til að óttast tröllið ef þið gerið eins og ég segi! Fylgið mér! Víkið úr vegi. Fyrsta árs nemar eru á leiðinni. Gerið svo vel að færa ykkur. Ég er umsjónarmaður!“

„Hvernig tókst trölli að komast hér inn?“ spurði Harry á leiðinni upp stigann.

„Ekki spyrja mig. Það er sagt að tröll séu rosalega vitlaus,“ sagði Ron. „Kannski hefur þetta verið hrekkjavökubrandari hjá Peeves.“

Þeir fóru framhjá hópum nemenda sem voru á hlaupum í allar áttir. Þegar þeir tróðu sér gegnum þvögu af ringluðum Hufflepuffnemendum greip Harry skyndilega í handlegg Rons.

„Heyrðu – hvað með Hermione?“

„Hvað með hana?“

„Hún veit ekkert af tröllinu.“ Ron beit á vörina.

„Allt í lagi,“ sagði hann svo, stuttur í spuna. „En það er eins gott að Percy sjái ekki til okkar.“

Þeir beygðu sig niður og smeygðu sér inn í hópinn frá Hufflepuff sem var á leið í hina áttina. Síðan laumuðust þeir inn á auðan hliðargang og flýttu sér í áttina að stelpnaklósettinu. Þeir voru rétt komnir fyrir hornið þegar þeir heyrðu hratt fótatak að baki sér.

„Percy!“ hvíslaði Ron og dró Harry á bak við stóra styttu af flugskrímsli á ganginum.

Þegar þeir gægðust fram úr felustaðnum sáu þeir að hér var ekki Percy á ferð heldur Snape. Hann gekk þvert yfir ganginn og hvarf úr augsýn.

„Hvað er hann að gera?“ hvíslaði Harry. „Af hverju er hann ekki niðri í kjallarahvelfingunni með hinum kennurunum?“

„Spyrðu mig ekki að því.“

Þeir heyrðu fótatak Snape hverfa í fjarska og læddust hljóðlega eftir ganginum í sömu átt.

„Hann er á leiðinni upp á þriðju hæð,“ sagði Harry, en Ron lyfti aðvarandi upp hendi.

„Finnurðu lyktina?“

Harry hnusaði út í loftið og hræðileg ólykt, einhvers konar sambland af táfýlusokkum og illa hirtu almenningsklósetti, fyllti nasir hans.

Þá heyrðu þeir hljóð. Einhver rumdi lágt og steig risavöxnum fótum þunglamalega til jarðar. Ron benti – fyrir enda gangs sem lá þeim á vinstri hönd var eitthvert gríðarstórt flikki á

hreyfingu í áttina til þeirra. Þeir földu sig í skugga og horfðu á það birtast í tunglskininu.

Þetta var hrikaleg sjón. Það var um fimm metrar á hæð – húðin steingrá og líflaus og ofan á risastórum og klunnalegum skrokknum trónaði lítill, sköllóttur haus á stærð við kókoshnetu. Fótleggirnir voru stuttir og digrir eins og trjábolir og fæturnir flatir og hrjúfir.

Lyktin sem barst frá því var ólýsanleg. Handleggirnir voru svo langir að trékylfan sem það hélt á dróst eftir gólfinu.

Tröllið nam staðar við dyragætt og gægðist inn fyrir. Það hreyfði löng eyrun og virtist brjóta sinn litla heila um eitthvað og hengslaðist síðan inn í herbergið.

„Lykillinn er í skránni," muldraði Harry. „Við gætum læst það inni."

„Góð hugmynd," sagði Ron taugaóstyrkur.

Þeir læddust í átt að opnum dyrunum, þurrir í munninum af hræðslu, og báðu þess heitt og innilega að tröllið væri ekki á

leiðinni út aftur. Harry tókst í einu stökki að ná lyklinum, skella hurðinni og læsa henni.

„Frábært!“

Sigrihrósandi hlupu þeir af stað til baka eftir ganginum en þegar þeir komu að horninu heyrðu þeir nokkuð sem fékk blóðið til að frjósa í æðum þeirra. Hátt skelfingaróp barst frá herberginu sem þeir voru nýbúnir að læsa.

„Ó, nei,“ sagði Ron sem var orðinn fölari en Blóðugi baróninn.

„Þetta er stelpnaklósettið,“ stundi Harry.

„Hermione!“ sögðu þeir samtímis.

Þeir áttu engra kosta völ þótt þá langaði síst af öllu að snúa við. Þeir snerust á hæli og þutu til baka að dyrunum, fálmuðu eftir lyklinum í óðagoti og sneru honum í skránni. Harry opnaði dyrnar og þeir hlupu inn fyrir.

Hermione Granger hafði hörfað upp að veggnum gegnt dyrunum og virtist vera að yfirliði komin. Tröllið var á hægri

hreyfingu í áttina til hennar og mölvaði um leið hvern vaskinn á fætur öðrum með kylfunni.

„Reynum að rugla það!“ sagði Harry örvæntingarfullur og greip krana sem lá á gólfinu og kastaði honum í vegginn eins fast og hann gat.

Tröllið nam staðar í seilingarfjarlægð frá Hermione. Það sneri sér við með erfiðismunum og deplaði augunum heimskulega eins og það væri að reyna að sjá hvaðan þessi hávaði kæmi. Það beindi illskulegum glyrnum sínum að Harry, hikaði og lagði síðan af stað í áttina að nýjum andstæðingi með kylfuna á lofti.

„Halló – grautarhaus!“ æpti Ron úr hinum enda herbergisins og kastaði málmröri að tröllinu. Tröllið virtist ekki einu sinni finna þegar rörið lenti á öxlinni á því, en það heyrði í Ron, nam staðar og beindi ljótu trýninu að honum. Þá gafst Harry tími til að hlaupa aftur fyrir tröllið til Hermione.

„Svona nú, hlauptu – hlauptu!“ æpti Harry og reyndi að draga hana í áttina að dyrunum, en hún gat hvorki hreyft legg né lið. Hún þrýsti sér upp að veggnum og gapti af hryllingi.

Tröllið virtist vera að ganga af göflunum vegna hrópanna í þeim sem mögnuðust upp í ærandi hávaða við bergmálið. Það gaf frá sér öskur og lagði af stað í áttina að Ron sem var næstur því og hafði enga möguleika á að komast undan.

Þá gerði Harry dálítið sem var bæði afar djarft og óhemju heimskulegt. Hann tók mikið tilhlaup, stökk upp á bakið á tröllinu og læsti handleggjunum utan um hálsinn á því. Tröllið fann ekkert fyrir Harry en jafnvel tröll finna ef trépriki er stungið upp í nefið á þeim. Harry var nefnilega enn með töfrasprotann sinn í hendinni þegar hann stökk og sprotinn hafði lent beint uppi í annarri nösinni á tröllinu.

Tröllið öskraði af sársauka, engdist til og frá og sveiflaði kylfunni í allar áttir. Harry hékk á baki þess í dauðans angist, því tröllið gat á hverri stundu náð til hans eða veitt honum hræðilegt högg með kylfunni.

Hermione hafði hnigið í gólfið skelfingu lostin. Ron dró fram töfrasprotann sinn þótt hann vissi ekki almennilega hvað hann ætti að gera við hann og hrópaði áður en hann vissi af fyrstu töfraorðin sem komu upp í huga hans: „Wingardium leviosa!“

Kylfan flaug skyndilega úr hendi tröllsins hátt upp í loftið, snerist svo hægt við og féll með óhugnanlegu brothljóði á höfuð eiganda síns. Tröllið riðaði við og skall síðan beint á andlitið með braki og brestum svo herbergið lék á reiðiskjálfi.

Harry stóð á fætur. Hann skalf á beinunum og náði varla andanum.

Ron stóð enn með töfrasprotann á lofti og starði á afleiðingar gjörða sinna.

Það var Hermione sem rauf þögnina.

„Er það – dautt?“

„Ég held ekki,“ sagði Harry. „Ég held að það hafi bara rotast.“ Hann beygði sig niður og dró töfrasprotann sinn út úr nefi tröllsins. Hann var þakinn gráu, límkenndu slími. „Oj, tröllahor.“

Hann þurrkaði af sprotanum á buxum tröllsins.

Skyndilega heyrðust hurðaskellir og fótatak og þau litu öll upp. Þau höfðu ekki gert sér grein fyrir hávaðanum sem þau

höfðu valdið en auðvitað hafði einhver á neðri hæðinni orðið var við lætin og öskrin í tröllinu. Augnabliki síðar kom McGonagall prófessor þjótandi inn á stelpnaklósettið. Snape fylgdi fast á eftir og Quirrell rak lestina. Þegar Quirrell kom auga á tröllið stundi hann lágt og lét fallast á eitt klósettið með hönd á hjartastað.

Snape beygði sig yfir tröllið. McGonagall prófessor horfði á Ron og Harry. Harry hafði aldrei séð hana svona reiða. Hún herpti saman varirnar svo þær hvítnuðu. Vonir Harrys um að vinna stig handa Gryffindor fyrir sigurinn á tröllinu gufuðu samstundis upp.

„Hvað í ósköpunum voruð þið að hugsa?“ sagði McGonagall prófessor ískaldri röddu og horfði til skiptis á Ron og Harry. Harry leit á Ron sem stóð ennþá með töfrasprotann sinn á lofti. „Þið eruð heppin að vera ekki dauð. Af hverju eruð þið ekki í svefnsalnum ykkar?“

Snape horfði á Harry með hvössu, stingandi augnaráði. Harry leit niður. Hann var að vona að Ron léti töfrasprotann síga.

Þá heyrðist mjóróma rödd úr horninu.

„Þeir voru að leita að mér, McGonagall prófessor.“

„Hermione!“

Hermione hafði loks tekist að brölta á fætur.

„Ég fór að leita að tröllinu – af því að ég – ég hélt að ég gæti ráðið við það ein – af því að ég er búin að lesa svo mikið um þau.“

Ron missti töfrasprotann sinn á gólfið. Var Hermione Granger að ljúga upp í opið geðið á kennaranum?

„Ég væri dáin ef þeir hefðu ekki fundið mig. Harry stakk töfrasprotanum sínum upp í nefið á tröllinu og Ron rotaði það með kylfunni. Þeir höfðu ekki tíma til að sækja neinn. Tröllið var í þann veginn að kála mér þegar þeir komu.“

Harry og Ron reyndu að láta eins og þessi saga kæmi þeim á engan hátt á óvart.

„Jæja, fyrst svo er …“ sagði McGonagall prófessor og starði á þau öll þrjú. „Hermione, kjáninn þinn, hvernig datt þér í hug að halda að þú gætir ráðið við tröll upp á eigin spýtur?“

Hermione laut höfði. Harry var orðlaus. Það var afar ólíkt Hermione að brjóta reglurnar, en samt hafði hún gert það, bara til að bjarga þeim út úr vandræðum. Það var álíka fjarstæðukennt og ef Snape hefði farið að deila sælgæti út til nemendanna.

„Hermione – þín vegna tapar Gryffindorheimavistin fimm stigum,“ sagði McGonagall prófessor. „Þú veldur mér miklum vonbrigðum. Ef þú ert alveg ómeidd ættirðu að flýta þér yfir í Gryffindorturn. Nemendur eru að ljúka veisluhöldunum á heimavistunum sínum.“

Hermione hvarf á braut og McGonagall sneri sér að Harry og Ron.

„Jæja, heppnin var með ykkur, en það hefðu nú ekki margir fyrsta árs nemar ráðið við fullvaxið fjallatröll. Hvor um sig vinnur sér inn fimm stig fyrir Gryffindor. Dumbledore prófessor verður látinn vita af því. Þið megið fara.“

Þeir flýttu sér út og mæltu ekki orð af vörum fyrr en tveimur hæðum ofar. Hvað sem öllu öðru leið var mikill léttir að vera laus við óþefinn af tröllinu.

„Við hefðum átt að fá meira en tíu stig,“ nöldraði Ron.

„Þú meinar fimm. Hún tók fimm stig af Hermione.“

„Það var gott hjá henni að bjarga okkur út úr vandræðunum,“ viðurkenndi Ron. „En við björguðum henni nú líka.“

„Það hefði kannski ekki þurft að bjarga henni ef við hefðum ekki læst þetta fyrirbrigði inni hjá henni,“ minnti Harry hann á.

Þeir voru komnir að málverkinu af feitu konunni.

„Grísatrýni,“ sögðu þeir og fóru inn.

Það var mannmargt og hávaðasamt í setustofunni. Allir voru að borða matinn sem hafði verið sendur upp, nema Hermione sem stóð afsíðis við dyrnar og beið eftir þeim. Það varð mjög vandræðaleg þögn. Svo sögðu þau „takk“ hvert við annað í hálfum hljóðum án þess að skiptast á augnatilliti og flýttu sér að ná sér í diska.

En upp frá þeirri stundu varð Hermione Granger vinur þeirra. Það er sumt sem ekki er hægt að upplifa í sameiningu án þess að það endi með vináttu og að ganga frá fjögurra metra fjallatrölli er eitt af því.

# Ellefti kafli

# Quidditch

Þegar nóvember nálgaðist varð mjög kalt í veðri. Það gránaði í fjöll umhverfis skólann og stirndi á stálgrátt svellið á vatninu. Á hverjum morgni var jörðin alþakin hrími í frostinu. Það sást til Hagrids úr gluggunum á efri hæðinni þar sem hann var að þíða galdrakústa á Quidditchvellinum dúðaður í síðan gærufrakka, hanska úr kanínuskinni og risastór oturskinnsstígvél.

Quidditchleiktíminn var hafinn. Næsta laugardag átti Harry að leika sinn fyrsta leik eftir margra vikna þjálfun, Gryffindor gegn Slytherin. Ef Gryffindor ynni myndu þeir færast upp í annað sæti í keppni heimavistanna.

Fáir höfðu séð Harry spila af því að Wood hafði ákveðið að hann ætti að koma á óvart. Hann yrði leynivopnið þeirra. En einhvern veginn hafði það kvisast út að hann yrði í hlutverki leitarans og Harry vissi ekki hvort var verra: þegar fólk var að

segja honum að hann yrði frábær eða þegar ýmsir voru að bjóðast til að vera tilbúnir með öryggisdýnurnar!

Harry var lánsamur að eiga Hermione að þessa daga. Hann gat ekki ímyndað sér hvernig hann hefði komist yfir allan heimalærdóminn án hennar, því Wood var stöðugt að bæta við æfingum á síðustu stundu. Hún lánaði honum líka Quidditch í aldanna rás sem reyndist mjög áhugaverð lesning.

Harry komst meðal annars að því að hægt væri að nota rúmlega sjö hundruð aðferðir við að brjóta á andstæðingnum og þær hefðu allar verið notaðar í heimsmeistarakeppninni árið 1473, leitararnir væru venjulega minnstu og sneggstu leikmennirnir og að þeir virtust lenda í alvarlegustu óhöppunum í Quidditchleikjum, og enda þótt dauðsföll væru sjaldgæf í Quidditch kæmi það fyrir að dómarar hyrfu og skytu svo upp kollinum nokkrum mánuðum síðar í Saharaeyðimörkinni.

Hermione virtist ekki taka skólareglurnar eins hátíðlega eftir að Harry og Ron björguðu henni frá fjallatröllinu og núna líkaði þeim miklu betur við hana. Daginn fyrir fyrsta leik Harrys stóðu þau öll þrjú úti í ísköldum kastalagarðinum. Það voru frímínútur og hún hafði töfrað fram skæran, bláan loga

sem þau báru um í sultukrukku. Þau sneru bakinu í logann og voru að reyna að hlýja sér þegar Snape gekk í gegnum garðinn. Harry tók strax eftir því að hann var haltur. Harry, Ron og Hermione þjöppuðu sér betur saman til að fela eldinn því þau vissu að það var bannað að vera með eld á skólalóðinni. Til allrar óhamingju skynjaði Snape að þeim var ekki rótt og haltraði yfir til þeirra. Hann hafði ekki tekið eftir eldinum en reyndi samt að finna sér ástæðu til að skammast í þeim.

„Hvað ertu með þarna, Potter?“

Það var bókin Quidditch í aldanna rás og Harry sýndi honum hana.

„Það er bannað að fara með bókasafnsbækur út úr skólanum,“ sagði Snape. „Komdu með hana. Gryffindor tapar fimm stigum.“

„Hann var að semja þessa reglu,“ muldraði Harry reiðilega um leið og Snape hökti burt. „Hvað ætli sé að honum í fætinum?“

„Veit ekki, en ég vona að hann finni mikið til,“ sagði Ron biturlega.

Menn höfðu hátt í setustofunni á Gryffindor þetta kvöld. Harry, Ron og Hermione sátu saman við gluggann. Hermione var að fara yfir heimavinnu Rons og Harrys fyrir töfrabragðatímann. Hún vildi aldrei leyfa þeim að skrifa beint upp eftir sér. („Þið lærið ekkert á því!“) En ef þeir báðu hana um að fara yfir tókst þeim alltaf að fá réttu svörin.

Harry var eirðarlaus. Hann langaði til að fá Quidditch í aldanna rás aftur til að reyna að slaka á fyrir leikinn næsta morgun. Af hverju ætti hann svo sem að vera hræddur við Snape? Hann stóð á fætur og sagði Ron og Hermione að hann ætlaði að fara til Snape og sækja bókina.

„Gangi þér vel,“ sögðu þau vantrúuð, en Harry hafði á tilfinningunni að Snape myndi ekki neita honum um hana ef aðrir kennarar væru nálægir.

Hann fór niður á kennarastofuna og barði að dyrum. Enginn opnaði. Hann bankaði aftur en enginn kom.

Ef til vill hafði Snape skilið hana þarna eftir? Það borgaði sig að athuga málið. Hann opnaði dyrnar í hálfa gátt og gægðist inn fyrir – hræðileg sjón blasti við honum.

Snape og Filch voru einir þarna. Snape hafði dregið skikkjuna upp fyrir hnén og annar fóturinn á honum var blóðugur og sundurtættur. Filch var að rétta honum sárabindi.

„Bölvuð ófreskjan," sagði Snape. „Hvernig á maður að geta haft auga með öllum þremur hausunum í einu?"

Harry reyndi að loka dyrunum hljóðlega en –

„Potter!" æpti Snape og flýtti sér að láta skikkjuna falla yfir særða fótinn. Andlit hans var afskræmt af bræði. Harry kyngdi.

„Ég ætlaði bara að athuga hvort ég gæti fengið bókina mína."

„Út með þig! Út!"

Harry flýtti sér í burtu áður en Snape gæti hirt fleiri stig af Gryffindor. Hann þaut upp stigann.

„Fékkstu hana?“ spurði Ron þegar Harry kom til þeirra. „Hvað er að?“

Harry hvíslaði að þeim því sem hann hafði séð.

„Vitið þið hvað þetta þýðir?“ sagði hann andstuttur. „Hann hefur reynt að komast framhjá þríhöfða hundinum á hrekkjavökunni! Þangað var hann að fara þegar við sáum hann. Hann er að reyna að krækja í það sem hundurinn stendur vörð um! Ég þori að veðja töfrasprotanum mínum að það hefur verið hann sem hleypti tröllinu inn til að beina athyglinni frá því sem hann var að gera.“ Hermione glennti upp augun.

„Nei – það myndi hann aldrei gera,“ sagði hún. „Ég veit að hann er ekkert sérstaklega góður maður en hann myndi aldrei reyna að stela einhverju sem Dumbledore er annt um.“

„Í alvöru, Hermione – þú heldur að allir kennararnir séu einhverjir dýrlingar,“ heyrðist í Ron. „Ég er sammála Harry. Snape er trúandi til alls. En hverju er hann á höttunum eftir? Og hvað er það sem hundurinn stendur vörð um?“

Harry braut heilann um þetta þegar hann fór að sofa. Neville hraut hástöfum en Harry gat ekki sofnað. Hann reyndi að tæma hugann – hann yrði að fá einhvern svefn. Hann átti að leika sinn fyrsta Quidditchleik eftir nokkra klukkutíma. En það var ekki auðvelt að gleyma svipnum á andliti Snape þegar Harry uppgötvaði sárin á fæti hans.

Það var bjart og kalt næsta morgun. Í Stóra salnum var unaðslegur ilmur af steiktum pylsum og það mátti heyra á glaðværum kliði og hlátri að allir hlökkuðu til að horfa á góðan Quidditchleik.

„Þú verður að borða morgunmat.“

„Mig langar ekki í neitt.“

„Bara pínulítið ristað brauð,“ sagði Hermione lokkandi.

„Ég er ekki svangur.“ Harry leið ömurlega.

Eftir klukkutíma yrði hann á leiðinni inn á leikvanginn.

„Harry, þú þarft á öllum þínum kröftum að halda," sagði Seamus Finnegan. „Andstæðingarnir brjóta alltaf mest á leitaranum."

„Þakka þér fyrir, Seamus," sagði Harry og horfði á hann hrúga tómatsósu yfir pylsurnar sínar.

Þegar klukkan var orðin ellefu virtist allur skólinn vera samankominn á áhorfendapöllunum umhverfis Quidditchvöllinn. Margir nemendanna voru með kíki með sér. Þó að hægt væri að hækka sætin var oft erfitt að sjá það sem fram fór á vellinum.

Ron og Hermione voru ásamt Neville, Seamus og Dean, aðdáanda West Ham, í efstu sætaröðinni. Þau höfðu ákveðið að koma Harry á óvart og búið til risastóran borða úr einu af lökunum sem Scabber hafði eyðilagt. Á borðanum stóð: Potter er bestur og Dean sem var góður teiknari hafði málað stórt Gryffindorljón þar fyrir neðan. Síðan hafði Hermione beitt litlu töfrabragði þannig að fletirnir blikkuðu í mismunandi litum.

Á meðan voru Harry og liðið hans að klæða sig í skarlatsrauðu Quidditchskikkjurnar sínar í búningsherberginu (Slytherinliðið var í grænum).

Wood ræskti sig til að fá þögn.

„Jæja, piltar,“ sagði hann.

„Og stúlkur,“ sagði Angelina Johnson sóknarmaður. „Og stúlkur,“ sagði Wood vinsamlega. „Þá er komið að því.“ „Stóra tækifærinu,“ skaut Fred Weasley inn í.

„Því sem við höfum öll beðið eftir,“ sagði George.

„Við kunnum ræðuna hans Woods utan að,“ sagði Fred við Harry. „Við vorum í liðinu á síðasta ári.“

„Þegið þið báðir tveir,“ sagði Wood. „Þetta er besta lið Gryffindor til margra ára. Við eigum eftir að sigra, ég er viss um það.“

Hann sendi þeim augnaráð sem sýndi að annars væri honum að mæta.

„Jæja, af stað með ykkur. Gangi ykkur öllum vel.“

Harry gekk á eftir Fred og George út úr búningsherberginu og vonaði að hnén gæfu ekki eftir þegar hann gekk út á leikvanginn þar sem fagnaðarópunum ætlaði aldrei að linna.

Fröken Hooch var dómari. Hún stóð á miðjum vellinum og beið eftir liðunum með töfrasprotann sinn í hendinni.

„Jæja, ég ætlast til þess að þið spilið vel og drengilega," sagði hún þegar þau voru öll komin í hnapp í kringum hana. Harry tók eftir því að hún virtist beina orðum sínum að Marcusi Flint, sjötta árs nema og fyrirliða Slytherinliðsins. Harry fannst hann líta út fyrir að hafa tröllablóð í æðum. Út undan sér sá hann borðann sem blakti fyrir ofan áhorfendaskarann. Setningin Potter er bestur lýsti í öllum regnbogans litum. Hjarta hans tók kipp og kjarkurinn jókst.

„Leikmenn – stígið á kústana!"

Harry steig upp á Nimbus 2000 kústinn sinn.

Fröken Hooch blés hvellt í silfurflautuna.

Fimmtán töfrakústar stigu hátt til lofts. Leikurinn var hafinn.

„Angelina Johnson hjá Gryffindor hirðir tromluna umsvifalaust – hvílíkur sóknarmaður, þessi stúlka, og svo er hún líka falleg …“

„Jordan!“

„Afsakið, prófessor.“

Lee Jordan, vinur Weasleytvíburanna, var að lýsa leiknum undir ströngu eftirliti McGonagall prófessors.

„Og hún á í harðri baráttu þarna uppi – góð sending til A liciu Spinnet, sem er nýjasta uppgötvun Olivers Woods. Hún sat á varamannabekknum á síðasta ári og … nei, Slytherinliðið hefur náð troml unni … Marcus Flint, fyrirliði Slytherin, nær tromlunni og geysist af stað. Hann flýgur eins og örn um loftið – hann ætlar að sk… nei, hann er stöðvaður glæsilega af Wood, gæslumanni Gryffindor, og Gryffindor nær tromlunni. Og þarna fer Katie Bell, sóknarmaður Gryffindor – hún dýfir sér af öryggi framhjá Flint – flýgur upp völlinn og – æ, æ, þetta hlýtur að hafa verið sárt – fær bylmingshögg á hnakkann frá rotara. Slytherin hirðir tromluna – hér kemur Adrian Pucey á fullri ferð í áttina að markinu en á honum lendir annar rotari – Fred eða George Weasley – ég sé ekki

hvor – sló hann í áttina til Adrians, vel gert hjá varnarmanni Gryffindor. Angelina Johnson er aftur komin með tromluna – auður völlur framundan og hún flýgur af stað – geysist áfram – víkur sér undan ógnarhröðum rotara – markstangirnar eru framundan – áfram nú, Angelina – Bletchley gæslumaður tekur dýfu en missir af henni – Gryffindor skorar!“

Fagnaðarlæti stuðningsmanna Gryffindor fylltu kalt loftið en stunur og andvörp heyrðust frá áhangendum Slytherin.

„Flytjið ykkur aðeins – lofið mér að komast.“

„Hagrid!“

Ron og Hermione þjöppuðu sér saman svo Hagrid gæti sest hjá þeim.

„Ég er búinn að vera að fylgjast með úr kofanum mínum,“ sagði Hagrid og klappaði létt á gríðarlegan kíki sem hann hafði hangandi um hálsinn. „En það er ekki það sama og að vera inni í áhorfendahópnum. Hefur nokkuð borið á gullnu eldingunni ennþá?“

„Nei,“ sagði Ron. „Harry hefur ekki haft mikið að gera hingað til.“

„En ekki lent í vandræðum, það er út af fyrir sig ágætt,“ sagði Hagrid, lyfti upp sjónaukanum sínum og beindi honum til himins í áttina að deplinum sem hlaut að vera Harry.

Hátt uppi yfir höfðum þeirra sveif Harry um leikvanginn og skimaði eftir gullnu eldingunni. Það var hluti af leikáætlun hans og Woods.

„Hafðu hægt um þig þangað til þú kemur auga á eldinguna,“ hafði Wood sagt. „Við viljum ekki láta ráðast á þig fyrr en nauðsyn krefur.“

Þegar Angelina skoraði hafði Harry tekið nokkrar lykkjur í loftinu til að fá útrás fyrir gleði sína. Núna var hann aftur byrjaður að svipast um eftir eldingunni. Einu sinni þóttist hann sjá glampa á gull en það reyndist bara vera glampi frá armbandsúri annars Weasleybræðranna. Í annað sinn hafði rotari komið í veg fyrir hann eins og fallbyssukúla, en Harry hafði vikið sér undan og Fred Weasley hafði náð honum.

„Er allt í lagi með þig, Harry?“ hrópaði hann um leið og hann þeytti rotaranum reiðilega að Marcusi Flint.

„Slytherin er í sókn!“ Lee Jordan var að lýsa leiknum. „Pucey sóknarmaður sleppur undan tveimur roturum, báðum Weasleyb ræðrunum og Bell sóknarmanni. Hann þýtur í áttina að – bíðum við – var þetta gullna eldingin?“

Það barst kliður frá áhorfendabekkjunum. Adrian Pucey missti tromluna þegar hann var að skima aftur fyrir sig eftir gullnu eldingunni sem þaut framhjá vinstra eyra hans.

Harry sá hana. Hann stakk sér í áttina að henni með hjartslátt af æsingi. Terence Higgs, leitari Slytherin, hafði líka komið auga á hana. Hlið við hlið þutu báðir leitararnir áleiðis að gullnu eldingunni. Allir sóknarmennirnir virtust hafa gleymt hvað þeir áttu að vera að gera, héngu í lausu lofti og fylgdust spenntir með.

Harry var fljótari en Higgs. Hann sá litla, kringlótta boltann á fleygiferð framundan – hann herti flugið –

Bang! Reiðiöskur heyrðist frá stuðningsliði Gryffindor á jörðu niðri. Marcus Flint hafði af ásettu ráði flogið í veg fyrir Harry og kústur Harrys tapaði áttum. Harry hélt í hann dauðahaldi.

„Brot!“ æptu stuðningsmenn Gryffindor.

Fröken Hooch átaldi Marcus Flint reiðilega og dæmdi Gryffindor aukakast að markinu. En í allri ringulreiðinni hafði gullna eldingin auðvitað látið sig hverfa.

Niðri á pöllunum heyrðist í Dean Thomas: „Út af með hann, dómari – rautt spjald!“

„Þetta er ekki fótbolti, Dean,“ minnti Ron hann á. „Það er ekki hægt að senda fólk út af í Quidditchleik – og hvað er rautt spjald?“ En Hagrid var á sama máli og Dean.

„Það ætti að breyta reglunum. Flint hefði getað fellt Harry til jarðar.“

Lee Jordan átti bágt með að gæta hlutleysis. „Jæja, eftir þetta augljósa og andstyggilega brot …“ „Jordan!“ sagði McGonagall prófessor aðvarandi.

„Ég meina, eftir þetta viðbjóðslega brot …“

„Jordan – í síðasta sinn!“

„Allt í lagi – allt í lagi. Flint var nærri búinn að drepa leitara Gryffindor, sem gæti náttúrlega komið fyrir alla. Spinnet tekur vítið fyrir Gryffindor, og leikurinn heldur áfram – Gryffindor enn í sókn.“

Það gerðist þegar Harry var að víkja sér undan öðrum rotara sem sveimaði hættulega nærri höfði hans. Það kom snöggur, ógnvekjandi slinkur á töfrakústinn hans. Eitt augnablik hélt hann að hann myndi detta. Hann greip þétt um kústinn með báðum höndum og fótum. Hann hafði aldrei upplifað neitt þvílíkt áður.

Aftur kom slinkur. Það var eins og kústurinn væri að reyna að kasta honum af sér. En Nimbus 2000 ákveður ekki si-svona að kasta knapa sínum af baki. Harry reyndi að snúa við að marki Gryffindor og velti því fyrir sér hvort hann ætti að biðja Wood um að stöðva leikinn, en þá uppgötvaði hann að galdrakústurinn hans lét engan veginn að stjórn. Hann gat ekki snúið við. Hann gat ekki stýrt honum með neinu móti.

Hann fór í sveigjum og beygjum í loftinu og annað veifið hentist hann svo ofsalega að Harry var nærri dottinn af baki.

Lee var enn að lýsa leiknum.

„Slytherin er í sókn – Flint með tromluna – fer fram úr Spinnet og Bell – rotari kýlir hann í andlitið – ég vona að hann hafi nefbrotnað – bara að grínast, prófessor – ó, nei, hann skorar fyrir S lytherin …

Liðsmenn Slytherin fögnuðu. Enginn virtist taka eftir því hvað galdrak ústur Harrys hegðaði sér einkennilega. Hann bar Harry hærra upp í loftið frá leikvanginum með rykkjum og skrykkjum.

„Hvað ætli Harry sé að gera?“ muldraði Hagrid. Hann einblíndi í kíkinn sinn. „Ef ég vissi ekki betur myndi ég halda að hann hefði misst stjórn á kústinum sínum. En það getur ekki verið.“

Allt í einu voru áhorfendur á öllum bekkjum farnir að benda á Harry. Galdrakústurinn hans var byrjaður að snúast í hringi svo Harry gat með naumindum hangið á baki. Svo tóku áhorfendur and köf. Galdrakústurinn hafði tekið svo snögga

beygju að Harry hentist af baki en náði taki á kústinum með annarri hendi og hékk í lausu lofti.

„Kom eitthvað fyrir kústinn þegar Flint svínaði á honum?“ hvíslaði Seamus.

„Það getur ekki verið,“ sagði Hagrid skjálfraddaður. „Það á ekkert að geta truflað galdrakúst nema magnaður svartigaldur. Enginn krakki gæti farið þannig með Nimbus 2000.“

Þegar Hagrid sleppti orðinu greip Hermione kíkinn hans en í stað þess að horfa upp til Harrys beindi hún honum í æsingi að áhorfendapöllunum.

„Hvað ertu að gera?“ stundi Ron sem var orðinn grár í framan.

„Ég vissi það,“ sagði Hermione með öndina í hálsinum. „Það er Snape – sjáðu.“

Ron þreif kíkinn. Snape var fyrir miðju á áhorfendapöllunum beint á móti þeim. Hann einblíndi á Harry og þuldi stöðugt eitthvað fyrir munni sér.

„Hann er að gera eitthvað – hann er að leggja bölvun á kústinn,“ sagði Hermione.

„Hvað eigum við að gera?“

„Láttu mig um það.“

Hermione var horfin áður en Ron gat sagt meira. Hann beindi kíkinum aftur að Harry. Galdrakústurinn hans skalf svo mikið að það var næstum ómögulegt fyrir hann að hanga á honum öllu lengur. Áhorfendur voru staðnir á fætur og fylgdust skelfingu lostnir með þegar Weasleybræðurnir komu fljúgandi og ætluðu að bjarga Harry með því að koma honum yfir á annan galdrakústinn sinn. En það gekk ekki því að í hvert skipti sem þeir nálguðust hann stökk kústurinn hans hærra upp í loftið. Þeir lækkuðu flugið og hringsóluðu fyrir neðan hann. Þeir ætluðu augljóslega að reyna að grípa hann ef hann dytti. Marcus Flint náði tromlunni og skoraði fimm sinnum án þess að nokkur veitti því eftirtekt.

„Áfram nú, Hermione,“ muldraði Ron örvæntingarfullur.

Hermione hafði rutt sér braut yfir á áhorfendapallana þar sem Snape stóð og var nú á hraðri ferð eftir sætaröðinni fyrir neðan hann. Hún gaf sér ekki einu sinni tíma til að biðjast afsökunar þegar hún hrinti Quirrell prófessor beint á hausinn yfir næstu röð. Þegar hún var komin að Snape kraup hún niður, dró fram töfrasprotann sinn og hvíslaði nokkur vel valin orð. Skærir, bláir logar skutust út úr töfrasprotanum hennar að skikkjufaldi Snape.

Snape var örlitla stund að átta sig á að hann stóð í ljósum logum. Hún heyrði skyndilegt óp og vissi þá að henni hafði tekist ætlunarverk sitt. Hún skóflaði eldinum aftur ofan í sultukrukkuna sem hún var með í vasanum og hraðaði sér til baka eftir áhorfendapallinum – Snape myndi aldrei komast að því hvað hafði gerst.

Þetta dugði. Uppi í loftinu tókst Harry að klifra aftur upp á töfrakústinn sinn.

„Neville – þér er óhætt að horfa!“ sagði Ron. Neville hafði setið síðustu fimm mínúturnar og snökt ofan í jakkann hans Hagrids.

Harry stefndi á ofsahraða í átt til jarðar þegar áhorfendur sáu hann bera höndina upp að munninum eins og hann væri í þann veginn að kasta upp – hann lenti á fjórum fótum á jörðinni, hóstaði og eitthvað gyllt féll í hönd hans.

„Ég er með gullnu eldinguna!“ hrópaði hann og veifaði henni yfir höfði sér. Leikurinn endaði í algerri upplausn.

„Hann greip hana ekki – hann gleypti hana næstum því,“ nöldraði Marcus Flint eftir leikinn. En það breytti engu, Harry hafði ekki brotið neinar reglur og Lee Jordan tilkynnti niðurstöðurnar himinlifandi – Gryffindor hafði unnið leikinn með hundrað og sjötíu stigum gegn sextíu. Harry heyrði þó ekkert af þessu, því verið var að búa til sterkt te handa honum í kofa Hagrids.

„Þetta var Snape,“ útskýrði Ron. „Við Hermione sáum hann. Hann var að leggja bölvun á kústinn þinn og hafði ekki af þér augun.“

„Bull og vitleysa,“ sagði Hagrid. Hann virtist ekki hafa heyrt brot af því sem gekk á við hliðina á honum á leiknum. „Hvers vegna skyldi Snape gera þvílíkt og annað eins?“

Harry, Ron og Hermione horfðu hvert á annað og veltu því fyrir sér hvað þau ættu að segja. Harry ákvað að segja honum sannleikann.

„Ég komst að dálitlu um Snape,“ sagði hann Hagrid. „Hann reyndi að sleppa framhjá þríhöfða hundinum á hrekkjavökunni. Hundurinn beit hann. Við höldum að hann hafi verið að reyna að stela því sem hundurinn er að vakta.“

Hagrid missti teketilinn.

„Hvernig veist þú um Hnoðra?“ spurði hann.

„Hnoðra?“

„Já, ég á hann – keypti hann af grískum náunga sem ég hitti á kránni í fyrra. Ég lánaði Dumbledore hann til að halda vörð um …“ „Hvað?“ spurði Harry ákafur.

„Svona – ekki þessar spurningar,“ sagði Hagrid hranalega. „Þetta er algert leyndarmál – þá vitið þið það.“

„En Snape er að reyna að stela því.“

„Bull og vitleysa,“ sagði Hagrid aftur. „Snape er kennari við skólann. Hann myndi aldrei gera neitt slíkt.“

„En af hverju reyndi hann þá að drepa Harry?“ hrópaði Hermione. Það var greinilegt að viðburðir dagsins höfðu breytt áliti hennar á Snape.

„Ég þekki ill álög þegar ég sé þau, Hagrid. Ég er búin að lesa mér til um þau! Maður verður að halda augnsambandi og Snape deplaði ekki auga. Ég sá hann!“

„Og ég segi að þið hafið rangt fyrir ykkur!“ sagði Hagrid æstur. „Ég veit ekki af hverju töfrakústurinn hans Harrys lét svona en Snape myndi aldrei reyna að drepa nemanda! Hlustið nú á mig, öll þrjú! Þið eruð að skipta ykkur af hlutum sem koma ykkur ekkert við. Það er hættulegt. Þið skuluð hætta að hugsa um þennan hund og það sem hann stendur vörð um. Það er alfarið á milli Dumbledore prófessors og Nicolasar Flamel.“

„Aha!“ sagði Harry. „Svo það er einhver Nicolas Flamel flæktur í málið – eða hvað?“

Hagrid virtist helst langa til að bíta úr sér tunguna.

# Tólfti kafli

# Draumaspegillinn

Jólin nálguðust. Morgun einn um miðjan desember vöknuðu nemendur Hogwartskóla upp við að allt var hulið snjó. Stöðuvatnið varð að svelli og Weasleytvíburunum var refsað fyrir að nota galdrabrögð á nokkra snjóbolta svo að þeir fylgdu Quirrell hvert fótmál, hoppandi og skoppandi á vefjarhettinum hans. Þær fáu uglur sem náðu að brjótast í gegnum veðurhaminn til þess að bera út póst þurftu að fara í aðhlynningu hjá Hagrid áður en þær gátu flogið aftur til eigenda sinna.

Allir hlökkuðu til að komast í jólafrí. Setustofa Gryffindor og Stóri salurinn voru hlýir og notalegir staðir þar sem alltaf logaði í arninum. Á göngunum var aftur á móti ískalt og napur vindurinn gnauðaði í gluggum skólastofanna. Verstar af öllu voru kennslustundirnar hjá Snape prófessor niðri í dýflissunni, þar gátu þau séð sinn eigin andardrátt og reyndu af fremsta megni að halda sig nálægt heitum seiðpottunum.

„Ég vorkenni þeim sem þurfa að eyða jólunum hérna í skólanum vegna þess að þeir eru ekki velkomnir heima,“ sagði Draco Malfoy eitt sinn í töfradrykkjatíma.

Um leið og hann sagði þetta leit hann á Harry. Crabbe og Goyle flissuðu. Harry var önnum kafinn við að vigta malaðan hrygg úr ljónafiski og lést ekki taka eftir neinu. Eftir Quidditchleikinn hafði Draco verið jafnvel enn andstyggilegri en venjulega. Hann var svo fullur heiftar yfir að Slytherin skyldi hafa tapað að hann reyndi að fá alla til að hlæja að Harry með því að segja að breiðmynntur trjáfroskur myndi koma í hans stað í næsta leik. En hann komst fljótlega að því að engum þótti þetta fyndið vegna þess að Harry hafði vakið hrifningu allra þegar honum tókst að halda sér á baki á óstýrilátum kústinum. Þetta hafði gert Draco enn afbrýðisamari og reiðari þannig að nú var hann tekinn upp á því að minna Harry stöðugt á að hann ætti enga fjölskyldu.

Það var satt, Harry ætlaði ekki á Runnaflöt í jólafríinu. McGonagall prófessor hafði í vikunni áður útbúið lista yfir þá nemendur sem ekki færu heim um jólin. Harry var efstur á þeim lista. Hann vorkenndi sjálfum sér ekki neitt; þetta yrðu líklega bestu jólin hans til þessa. Ron og bræður hans yrðu

þarna líka vegna þess að Weasleyhjónin ætluðu að heimsækja Charlie í Rúmeníu.

Eftir töfradrykkjatímann voru þau á leið upp úr dýflissunni þegar þau rákust á risastórt grenitré sem fyllti alveg út í ganginn. Undan neðstu greinunum mátti sjá tvo gríðarstóra fætur og mikið más og hvás sagði þeim að á bak við það væri Hagrid að finna.

„Hæ, Hagrid, vantar þig aðstoð?“ spurði Ron og stakk höfðinu inn á milli greinanna.

„Nei, takk, þetta er allt í lagi, Ron.“

„Væri ykkur sama þó að þið færðuð ykkur?“ drafaði í Draco að baki þeim. „Ertu að reyna að vinna þér inn dálitla aukavasapeninga, Weasley? Þú vonast kannski eftir því að verða skógarvörður þegar þú ert búinn með skólann – kofinn hans Hagrids hlýtur að vera eins og höll í samanburði við það sem fjölskylda þín hefur átt að venjast.“ Ron stökk á Draco í sömu andrá og Snape birtist í stiganum.

„Ron!“

Ron sleppti takinu á skikkju Dracos.

„Honum var ögrað, Snape prófessor,“ sagði Hagrid og stakk skeggjuðu andlitinu út á milli greinanna. „Draco talaði niðurl ægj andi um fjölskyldu hans.“

„Hver sem ástæðan er, þá er þetta brot á reglum Hogwartskólans, Hagrid,“ sagði Snape silkimjúkri röddu. „Fimm stig verða dregin af Gryffindor og þakkaðu fyrir að þau eru ekki fleiri, Ron. Jæja, af stað með ykkur.“

Draco, Crabbe og Goyle tróðu sér framhjá trénu og reyndu að brjóta eins margar greinar og þeir gátu í leiðinni. Furunálar dreifðust út um allt gólf og þeir glottu illkvittnislega.

„Ég skal sko ná mér niðri á honum,“ hvæsti Ron og gnísti tönnum. „Einn góðan veðurdag tekst mér það …“

„Ég hata þá báða,“ sagði Harry, „bæði Draco og Snape.“

„Svona, svona, hvar er góða skapið? Það eru að koma jól,“ sagði Hagrid. „Ég veit: Af hverju komið þið ekki með mér upp í Stóra sal og sjáið hvað búið er að skreyta hann fallega?“

Öll þrjú fylgdu þau Hagrid og trénu upp í Stóra salinn þar sem McGonagall og Flitwick voru að leggja síðustu hönd á skreytingarnar.

„Ó, þarna kemur Hagrid loksins með síðasta tréð – myndirðu vilja setja það þarna í hornið?“

Salurinn var stórfenglegur. Kristþyrnir og mistilteinn héngu í sveigum á veggjunum og að minnsta kosti tólf risastór jólatré stóðu víðs vegar um salinn. Á sumum stirndi á agnarsmá grýlukerti en önnur voru uppljómuð af hundruðum kertaljósa.

„Hvað er langt þangað til þið komist í frí?“ spurði Hagrid.

„Bara einn dagur,“ svaraði Hermione. „Það minnir mig á eitt – Harry, Ron, það er bara hálftími í hádegismatinn. Við ættum að drífa okkur á bókasafnið.“

„Já, það er satt,“ sagði Ron og sleit augun af Flitwick prófessor. Út úr töfrasprotanum hans spruttu gylltar kúlur sem hann hengdi á greinar nýja trésins.

„Bókasafnið?“ sagði Hagrid og elti þau út úr salnum. „Svona rétt fyrir fríið? Þið eruð aldeilis áhugasamir nemendur, það verð ég að segja!“

„Ja, við erum nú ekki að fara að læra,“ sagði Harry glaðlega. „Alveg síðan þú minntist á Nicolas Flamel höfum við reynt að komast að því hver hann er.“

„Ha?“ Hagrid var brugðið. „Heyrið mig nú – ég sagði ykkur að gleyma þessu. Ykkur varðar ekkert um það sem hundurinn er að vakta.“

„Okkur langar bara að vita hver Nicolas Flamel er. Það er allt og sumt,“ sagði Hermione.

„Nema þú viljir segja okkur það og spara okkur ómakið,“ bætti Harry við. „Við erum þegar búin að fara í gegnum ógrynni af bókum en það er hvergi á hann minnst – gefðu okkur örlitla vísbendingu – ég er viss um að ég hef einhvers staðar rekist á nafnið hans.“ „Ég segi ekki orð …“ sagði Hagrid ákveðinn.

„Þá komumst við bara að þessu sjálf,“ sagði Ron. Svo flýttu þau sér á bókasafnið og skildu Hagrid eftir óánægðan á svip.

Allt frá því að Hagrid missti nafn Flamels út úr sér höfðu þau pælt í gegnum ótal bækur í leit að upplýsingum um hann. Hvernig áttu þau annars að komast að því hverju Snape var að reyna að stela? Vandamálið var að þau vissu ekki hvar þau áttu að byrja. Þau höfðu ekki hugmynd um hvað Flamel gæti hafa afrekað til þess að vera nefndur í bók. Nafnið hans var hvorki í Frægustu galdramenn tuttugustu aldarinnar né Athyglisverðustu töframenn okkar tíma. Það var heldur ekki að finna í Mikilvægar galdrauppgötvanir eða Rannsóknir á nútíma fjölkynngi. Stærð bókasafnsins auðveldaði ekki verkið; þar voru þúsundir bóka, mörg hundruð þröngar raðir af bókahillum.

Hermione bjó til lista yfir efni og titla sem hún hafði ákveðið að athuga kerfisbundið en á meðan skálmaði Ron meðfram hillustæðum og dró út eina og eina bók af handahófi. Harry rölti yfir í lokuðu deildina. Hann hafði á tilfinningunni að Flamel væri í einhverri af bókunum þar. Því miður þurfti skriflegt leyfi frá kennara til þess að fá að leita í þeim bókum og hann vissi að það fengi hann ekki. Þarna voru bækur um öfluga svartagaldra sem kennararnir myndu aldrei kenna nemendum sínum í skólanum. Þær voru einungis lesnar af

elstu nemendunum sem voru að læra um varnir gegn myrku öflunum.

„Að hverju ert þú að leita, drengur minn?“

„Engu,“ svaraði Harry.

Bókasafnsvörðurinn, fröken Pince, otaði að honum ryk kúst inum.

„Þá ættirðu að koma þér burt úr þessari deild. Svona – burt með þig!“

Harry yfirgaf bókasafnið og bölvaði sjálfum sér fyrir að hafa ekki verið fljótari að hugsa upp einhverja sögu. Hann, Ron og Hermione höfðu ákveðið að ráðfæra sig ekki við fröken Pince. Þau voru viss um að hún gæti sagt þeim hvar Flamel væri að finna en vildu ekki eiga á hættu að Snape frétti af fyrirspurnum þeirra.

Harry fór fram á gang og beið eftir hinum. Kannski höfðu þau fundið eitthvað. Honum þótti það reyndar frekar ólíklegt. Nú voru þau búin að leita í tvær vikur og höfðu enn ekkert fundið. Það var svo sem ekki að undra því að eini tíminn sem

þeim gafst til leitar voru örfáar stundir utan skólatíma. Þau þurftu að fá næði til að fara í gegnum bókasafnið án þess að hafa fröken Pince hangandi yfir sér. Fimm mínútum síðar komu Ron og Hermione. Þau hristu höfuðið. Það var ekki annað að gera en að fara í mat.

„Þið haldið áfram að leita á meðan ég er í burtu, er það ekki?“ sagði Hermione. „Þið sendið mér uglu ef þið uppgötvið eitthvað.“

„Og þú gætir spurt foreldra þína hvort þeir kannist við Flamel,“ sagði Ron. „Það ætti að vera óhætt að spyrja þau.“

„Alveg örugglega. Þau eru bæði tannlæknar,“ sagði Hermione.

Í jólafríinu skemmtu Harry og Ron sér allt of vel til þess að velta Flamel mikið fyrir sér. Þeir höfðu svefnsalinn út af fyrir sig og setustofan var yfirleitt mannlaus. Þeir drógu mýkstu hægindastólana að arninum og ristuðu allt mögulegt á steikarpinnum – brauð, skonsur, sykurpúða – og lögðu á ráðin um hvernig þeir gætu látið reka Draco. Þeir skemmtu sér konunglega þrátt fyrir að flestar hugmyndirnar væru fullkomlega óraunhæfar.

Ron var byrjaður að kenna Harry galdraskák. Hún var næstum alveg eins og Muggaskák nema að taflmennirnir voru lifandi. Þetta var næstum eins og að vera liðsforingi að stjórna herdeild í alvöru bardaga. Taflmennirnir hans Rons voru mjög gamlir og illa farnir. Eins og aðrar eigur sínar hafði hann erft þá frá öðrum fjölskyldumeðlimi – í þessu tilviki afa sínum. Gömlu taflmennirnir voru síður en svo dauðir úr öllum æðum. Ron þekkti þá svo vel að hann gat alltaf séð hvað þeir vildu að hann gerði.

Harry tefldi með skákmönnum sem Seamus Finnegan hafði lánað honum og þeir treystu honum engan veginn. Hann var enn dálítið óöruggur svo að þeir æptu í sífellu til hans skipanir og ráðleggingar sem var mjög truflandi: „Ekki senda mig þangað, sérðu ekki riddarann hans? Sendu hann frekar, við getum alveg verið án hans.“

Kvöldið fyrir jóladag skreið Harry í rúmið fullur tilhlökkunar. Hann sá fyrir sér notalegan dag með góðum mat við arininn. Hann hafði ekkert leitt hugann að jólagjöfum og átti alls ekki von á því að fá neinar. Samt var lítil hrúga af pökkum við fótagaflinn það fyrsta sem hann sá þegar hann vaknaði snemma næsta morgun.

„Gleðileg jól,“ sagði Ron syfjulega þegar Harry skreiddist fram úr rúminu og fór í sloppinn sinn.

„Sömuleiðis,“ sagði Harry. „Varstu búinn að sjá þetta? Ég fékk gjafir!“

„Við hverju bjóstu? Rófum?“ sagði Ron og sneri sér að gjafahrúgunni sinni sem var mun stærri en Harrys.

Harry tók upp efstu jólagjöfina. Henni var pakkað inn í þykkan, brúnan pappír og þvert yfir hana var hripað: Til Harrys frá Hagrid. Inni í pakkanum var gróflega útskorin tréflauta. Hagrid hafði greinilega búið hana til sjálfur. Harry blés í hana – hún hljómaði dálítið eins og ugluvæl.

Í öðrum mjög litlum pakka var bréfmiði.

Við fengum skilaboðin frá þér og látum jólagjöfina þína fylgja með. Frá Vernoni frænda og Petuniu frænku. Við miðann var límdur fimmtíu skildinga peningur.

„En hugulsamt,“ sagði Harry.

Ron var stórhrifinn af peningnum.

„En furðulegt!“ sagði hann. „Vá, hvað hann er skrítinn í laginu! Er þetta alvöru peningur?“

„Þú mátt eiga hann,“ sagði Harry og hló að hrifningu Rons. „Þetta voru gjafirnar frá Hagrid og frænda mínum og frænku – frá hverjum geta hinar þá verið?“

„Ég held að ég viti frá hverjum þessi er,“ sagði Ron og roðnaði örlítið þegar hann benti á linan og krumpaðan pakka. „Mömmu. Ég sagði henni að þú byggist ekki við að fá neinar gjafir og – ó, nei,“ andvarpaði hann, „hún hefur prjónað á þig Weasleypeysu.“

Harry hafði rifið upp pakkann og í ljós kom þykk, smaragðsgræn, handprjónuð peysa og full askja af heimalöguðum karamellum.

„Hún prjónar á okkur peysu á hverju ári,“ sagði Ron og opnaði sinn, „og mín er alltaf dumbrauð.“

„En hvað þetta var fallegt af henni,“ sagði Harry og stakk upp í sig karamellu. Hún var mjög bragðgóð.

Næsta gjöf innihélt einnig sælgæti – stóran pakka af súkkulaðifroskum frá Hermione.

Nú var ein jólagjöf eftir. Harry tók hana upp og þreifaði á henni. Hún var mjög létt. Hann opnaði hana.

Eitthvað dúnmjúkt og silfurgrátt rann niður á gólf og lá þar í glitrandi fellingum. Ron tók andköf.

„Ég hef heyrt um þetta,“ sagði hann andaktugur og missti kassann með fjöldabragðbaununum frá Hermione. „Ef þetta er það sem ég held að það sé – þá er þetta mjög sjaldgæft og mjög verðmætt.“

„Hvað er þetta?“

Harry tók silfurlitt klæðið upp af gólfinu. Það var skrítið viðkomu – næstum eins og efni ofið úr vatni.

„Þetta er huliðsskikkja,“ sagði Ron lotningarfullur. „Ég er viss um það – farðu í hana.“

Harry fleygði skikkjunni yfir axlirnar á sér og Ron hrópaði upp yfir sig.

„Það er rétt! Líttu á sjálfan þig!“

Harry leit niður á fæturna á sér en þeir voru horfnir. Hann hljóp að speglinum. Í stað venjulegrar spegilmyndar hans sást nú bara höfuðið og það virtist svífa í lausu lofti. Aðrir hlutar líkamans voru ósýnilegir. Hann dró skikkjuna yfir höfuðið og spegilmyndin hvarf algerlega.

„Það fylgir miði!“ sagði Ron skyndilega. „Það datt miði á gólfið!“

Harry dró af sér skikkjuna og tók upp miðann. Á honum stóð skrifað með ókunnri, hlykkjóttri skrift:

Faðir þinn skildi hana eftir í minni vörslu áður en hann dó.

Það er kominn tími til að skila henni aftur til þín. Notaðu hana rétt. Bestu óskir um gleðileg jól.

Það var engin undirskrift. Harry starði á miðann. Ron var að dást að skikkjunni.

„Ég gæfi allt fyrir svona skikkju," sagði hann. „Allt. Hvað er að?"

„Ekkert," sagði Harry. Honum leið mjög undarlega. Hver hafði sent honum skikkjuna? Hafði hún virkilega tilheyrt föður hans?

Áður en hann náði að segja eða hugsa fleira var hurðinni svipt upp og George og Fred Weasley komu hlaupandi inn. Harry faldi huliðsskikkjuna í skyndi. Hann langaði ekki að deila henni með neinum alveg strax.

„Gleðileg jól!"

„Nei, sjáðu – Harry hefur líka fengið Weasleypeysu!"

Fred og George voru klæddir bláum peysum. Á annarri var stórt gult F á bringunni og á hinni var G.

„Peysan hans Harrys er samt flottari en okkar,“ sagði Fred og hélt peysunni á lofti. „Hún vandar sig greinilega meira þegar hún er ekki að prjóna á einhvern í fjölskyldunni.“

„Af hverju ert þú ekki í þinni, Ron?“ spurði George. „Svona, farðu í hana. Hún er bæði hlý og mjúk.“

„Ég hata dumbrautt,“ andvarpaði Ron um leið og hann klæddi sig í peysuna.

„Það er enginn bókstafur á þinni,“ varð George að orði. „Það er líklega vegna þess að hún veit að þú manst nafnið þitt. En við erum samt ekkert heimskir – við vitum vel að við heitum Gred og Forge.“ „Hvaða læti eru þetta?“

Percy Weasley stakk höfðinu inn um dyragættina með vandlætingarsvip. Hann var greinilega líka hálfnaður með að opna gjafirnar því að hann hélt á þykkri, heimaprjónaðri peysu á handleggnum. Fred hljóp til hans og greip hana.

„U fyrir umsjónarmanninn! Klæddu þig í hana, Percy. Við erum allir í okkar. Harry fékk meira að segja eina.“

„Ég – vil það – ekki," heyrðist óskýrt í Percy þegar tvíburarnir toguðu peysuna yfir höfuðið á honum og skekktu gleraugun á nefinu á honum í látunum.

„Og þú færð ekki að sitja við umsjónarmannaborðið í dag," sagði George. „Jólin eru fjölskylduhátíð."

Svo lyftu þeir Percy allir fjórir og báru hann af stað á grúfu með handleggina fjötraða innan í peysubolnum.

Aldrei hafði Harry upplifað annan eins jólamálsverð. Borðið svign aði undan feitum, steiktum kalkúnum, fjöllum af bökuðum og soðnum kartöflum, fötum af smjörsteiktum baunum, silfurskálum með þykku soði og trönuberjasósu – og stöflum af galdraknöllum var raðað eftir endilöngu borðinu. Þessi knöll líktust í engu lítilmótlegum knöllum Mugganna sem í voru lítil plastleikföng og tuskulegir pappírshattar. Harry og Fred toguðu í galdraknall sem sprakk með fallbyssudrunum og umlukti þá alla bláum reyk. Glæsilegur sjóliðsforingjahattur og nokkrar lifandi, hvítar mýs komu út úr reyknum. Við háborðið hafði Dumbledore skipt á uppmjóum galdrahattinum sínum fyrir blómamynstraða kjusu og hló glaðlega að brandara sem Flitwick prófessor var nýbúinn að lesa upp fyrir hann.

Á eftir kalkúninum var borinn fram flamberaður jólabúðingur. Percy braut næstum í sér tönn þegar hann beit í silfursikku sem falin var í skammtinum hans. Harry sá að Hagrid varð sífellt rjóðari í framan eftir því sem vínglösunum fjölgaði. Harry missti andlitið þegar hann rak McGonagall rembingskoss á vangann og hún flissaði og roðnaði um leið og uppmjór hatturinn hennar rann út á hlið.

Þegar Harry stóð loks upp frá borðum var hann klyfjaður alls konar hlutum úr knöllunum. Þar á meðal voru pakki af ósprengjanlegum, sjálflýsandi blöðrum, vörturæktunargræjur og glænýtt sett af galdrataflmönnum. Hvítu mýsnar voru stokknar í allar áttir og Harry hafði það óþægilega á tilfinningunni að þær myndu enda sem jólamatur hjá frú Norris.

Harry og Weasleybræðurnir áttu ánægjulegt síðdegi í ærslafullu snjókasti fyrir framan kastalann. Þegar þeir sneru aftur í setustofu Gryffindor, kaldir, blautir og móðir, langaði Harry að vígja nýju taflmennina sína. Ron malaði hann en Harry var viss um að sér hefði gengið betur ef Percy hefði ekki verið svona ákafur í að hjálpa honum.

Eftir tesopa, kalkúnasamlokur, skonsur og jólaköku voru allir of saddir og syfjaðir til annars en að sitja og fylgjast með Percy elta Fred og George út um alla Gryffindorvistina vegna þess að þeir höfðu stolið af honum umsjónarmannsnælunni.

Þetta var besti jóladagur sem Harry hafði upplifað. Samt hafði eitthvað verið að naga hann allan daginn. Það var ekki fyrr en hann var lagstur upp í rúm sem hann gerði sér grein fyrir hvað það var; það var huliðsskikkjan og dularfulli sendandinn.

Þegar Ron skreið upp í rúm, fullur af kalkúnakjöti og jólaköku, var ekkert sem gat mögulega haldið fyrir honum vöku. Hann var byrjaður að hrjóta skömmu eftir að hann hafði dregið tjöldin fyrir himinsængina. Harry hallaði sér aftur á móti yfir rúmstokkinn og dró skikkjuna undan rúminu.

Faðir hans … Faðir hans hafði átt hana. Hann lét efnið renna á milli fingranna; það var mýkra en silki og létt eins og loft. Notaðu hana rétt, hafði staðið á miðanum.

Hann varð að prófa hana aftur. Hann renndi sér fram úr rúminu og sveipaði um sig skikkjunni. Hann leit niður og í staðinn fyrir fætur sá hann bara mánaskin og skugga. Það var skrítin tilfinning.

Notaðu hana rétt.

Allt í einu var Harry glaðvakandi. Í þessari skikkju stóðu allar dyr skólans honum opnar. Eftirvæntingin þaut um æðar hans þar sem hann stóð í myrkrinu og þögninni. Hann gæti farið hvert sem hann vildi og Filch myndi aldrei uppgötva það.

Ron umlaði upp úr svefninum. Ætti Harry að vekja hann? Eitthvað hélt aftur af honum – skikkja föður hans – hann langaði að vera einn í fyrsta skiptið sem hann bæri hana.

Hann læddist út úr svefnsalnum, niður stigana, inn í setustofuna og klifraði í gegnum gatið á bak við málverkið.

„Hver er þar?“ skrækti feita konan. Harry sagði ekki orð. Hann gekk hratt eftir ganginum.

Hvert átti hann að fara? Hann nam staðar og hugsaði málið. Hjartað barðist í brjósti hans. Þá fékk hann skyndilega hugdettu. Lokaða deildin á bókasafninu. Hann gæti lesið það sem hann vildi. Og hann hefði nægan tíma til að komast að því hver Nicolas Flamel væri. Hann gekk af stað og vafði skikkjunni þéttar að sér.

Bókasafnið var koldimmt og draugalegt. Harry kveikti á lugt til þess að rata meðfram bókahillunum. Lugtin virtist svífa í lausu lofti og þrátt fyrir að Harry fyndi fyrir henni í hendinni vakti þessi sjón honum óhug.

Lokaða deildin var innst í bókasafninu. Hann steig varlega yfir reipið sem aðskildi hana frá aðalsafninu og hélt lugtinni hátt til þess að geta lesið titlana á bókunum.

Það var ekki mikið á þeim að græða. Flagnaðir og upplitaðir gullstafirnir mynduðu orð sem voru á tungumáli sem Harry þekkti ekki. Sumar bókanna höfðu alls engan titil. Á einni kápunni var dökkur blettur sem minnti óhugnanlega mikið á þornað blóð. Hárin risu í hnakkanum á Harry; ef til vill var það bara ímyndun en honum fannst eins og hann heyrði lágvært hvísl úr bókunum. Það var eins og þær vissu að hann hefði ekki leyfi til að vera þarna.

Hann varð að byrja einhvers staðar. Hann lagði lugtina varlega frá sér og leitaði í neðstu hillunum að bók sem liti út fyrir að vera áhugaverð. Hann rak augun í stórt, svart og silfurlitt leðurbindi. Hann dró níðþunga bókina út með erfiðismunum, lagði hana yfir hné sér og opnaði.

Hryllilegt, nístandi óp rauf kyrrðina – bókin var að öskra! Harry skellti henni aftur, en ópið hélt áfram í einum skerandi, viðstöðulausum, ærandi tóni. Hann hrökklaðist aftur á bak og velti lugtinni um koll. Það slokknaði samstundis á henni. Skelfingu lostinn heyrði hann fótatak nálgast úr anddyrinu. Hann stakk öskrandi bókinni aftur í hilluna og hljóp af stað eins og hann ætti lífið að leysa. Hann rakst næstum á Filch í dyragættinni. Hann starði í gegnum Harry, litlausum, tryllingslegum augum. Harry smeygði sér örsnöggt undir útréttan handlegg hans og þaut eins og elding eftir ganginum en ópin úr bókinni glumdu enn í eyrum hans. Skyndilega stansaði hann fyrir framan stór herklæði. Í flýtinum hafði hann gleymt að veita því athygli í hvaða átt hann stefndi. Kannski var það myrkrið, en í augnablikinu hafði hann ekki hugmynd um hvar í kastalanum hann var staddur. Hann vissi að það voru brynjur nálægt eldhúsinu, en það var að minnsta kosti fimm hæðum neðar.

„Þú baðst mig um að koma beint til þín, prófessor, ef einhver væri að flækjast um á næturnar! Nú hefur einhver verið á bókasafninu – í lokuðu deildinni.“

Harry fannst blóðið frjósa í æðum sér. Filch hlaut að vita um styttri leið fyrst hann var kominn svona fljótt. Mjúk, smjaðursleg rödd hans færðist nær og Harry til enn meiri skelfingar var það Snape sem svaraði.

„Lokuðu deildinni? Þá getur hann varla verið langt undan. Við náum honum örugglega.“

Harry stóð sem negldur niður þegar Filch og Snape komu fyrir hornið. Þeir gátu auðvitað ekki séð hann, en gangurinn var þröngur og ef þeir kæmu mikið nær myndu þeir rekast á hann – skikkjan breytti bara ásýndinni, ekki efninu.

Hann hörfaði eins hljóðlega og hann gat. Á vinstri hönd sá hann dyr sem stóðu í hálfa gátt. Þær voru hans eina von. Hann smeygði sér inn, hélt niðri í sér andanum og reyndi að koma ekki við hurðina. Honum til mikils léttis tókst honum að skjóta sér inn í herbergið án þess að þeir yrðu hans varir. Mennirnir tveir gengu framhjá dyrunum. Harry hallaði sér upp að veggnum, dró djúpt andann og hlustaði á fótatak þeirra fjarlægjast. Þar skall hurð nærri hælum. Það leið nokkur stund áður en hann gat virt fyrir sér herbergið sem hann hafði falið sig í.

Það leit út eins og ónotuð kennslustofa. Hann greindi dökkar útlínur borða og stóla sem staflað var upp meðfram veggjunum og þarna stóð ruslafata sem snúið hafði verið á hvolf. Eitthvað annað stóð líka skorðað upp við vegginn – eitthvað sem ekki virtist eiga heima í kennslustofu. Það var eins og því hefði verið komið fyrir þarna tímabundið.

Þetta var glæsilegur spegill. Hann stóð á tveimur ljónsfótum í gylltum, útskornum ramma og var svo hár að hann náði frá gólfi og upp í loft. Harry kom auga á útskorna áletrun yfir speglinum: Rár þutspý draní þrud lehtti þtild naik kein ýsgé.

Ótti hans dvínaði nú þegar ekki heyrðist lengur í Filch og Snape. Harry færði sig nær speglinum og langaði að sjá huliðsskikkjuna hylja sig einu sinni enn. Hann stillti sér upp fyrir framan hann.

Hann greip um munninn til að halda aftur af ópinu. Hann snarsneri sér við. Hjarta hans barðist mun hraðar núna en þegar bókin byrjaði að öskra – hann hafði ekki aðeins séð sjálfan sig í speglinum heldur heilan hóp af fólki sem stóð fyrir aftan hann.

En herbergið var mannlaust. Hann sneri sér andstuttur að speglinum aftur.

Þarna var spegilmynd hans, hvít og hræðsluleg, og á bak við hann stóðu að minnsta kosti tíu aðrir. Harry leit um öxl – en þar var enginn. Eða voru þau kannski ósýnileg líka? Var hann ef til vill staddur í herbergi fullu af ósýnilegu fólki og spegillinn sýndi þrátt fyrir það spegilmynd þess?

Hann leit aftur í spegilinn. Kona sem stóð beint fyrir aftan spegilmynd hans brosti og veifaði. Hann teygði höndina aftur fyrir sig en þar var ekkert. Ef hún væri raunverulega þarna hefði hann fundið fyrir henni. Spegilmyndir þeirra stóðu svo þétt saman en þar var ekkert nema loftið – hún og allir hinir voru aðeins til í speglinum.

Hún var mjög falleg. Hárið var dökkt og rauðleitt og augun – augun í henni eru alveg eins og mín, hugsaði Harry og mjakaði sér nær speglinum. Skærgræn – nákvæmlega eins í laginu – en þá tók hann eftir því að hún var grátandi. Hún brosti en grét um leið. Hár og grannur, dökkhærður maður stóð við hliðina á henni. Hann lagði handlegginn um axlirnar á henni. Hann var með gleraugu og úfið hár. Hárið var strítt í hnakkanum eins og á Harry.

Harry stóð svo þétt upp við spegilinn að nefið á honum snerti næstum glerið.

„Mamma?“ hvíslaði hann. „Pabbi?“

Þau horfðu bara á hann, brosandi. Hægt og rólega skoðaði Harry hin andlitin í speglinum. Hann sá fleiri græn augu lík sínum eigin, nef eins og hans og meira að segja lítinn, gamlan mann með hné sem litu út fyrir að vera alveg jafn beinaber og hans sjálfs – Harry sá nú fjölskyldu sína í fyrsta skipti.

Potterfjölskyldan brosti og veifaði til Harrys og hann starði áfjáður á móti. Hann lagði lófana flata upp að glerinu eins og hann vonaðist til að detta í gegnum það og komast til þeirra. Hann fylltist gleði en fann jafnframt til yfirþyrmandi sorgar.

Hann gerði sér enga grein fyrir hversu lengi hann stóð þarna. Spegilmyndirnar hurfu ekki og hann horfði á þau þar til hljóð í fjarska kom honum aftur til sjálfs sín. Hann gat ekki staðið hér lengur; hann varð að koma sér aftur í svefnsalinn. Hann sleit augun af andliti móður sinnar og hvíslaði: „Ég kem aftur.“ Síðan flýtti hann sér í burtu.

„Þú hefðir getað vakið mig,“ sagði Ron sár.

„Þú getur komið með í kvöld. Ég ætla aftur og þá get ég sýnt þér spegilinn.“

„Mig langar að sjá mömmu þína og pabba,“ sagði Ron ákafur.

„Og mig langar að sjá fjölskylduna þína, alla meðlimi Weasleyfjölskyldunnar. Þá getur þú sýnt mér eldri bræður þína og alla hina.“

„Þú getur alltaf séð þá,“ sagði Ron. „Þú kemur bara með mér heim í sumar. Kannski sýnir spegillinn bara dáið fólk. Það var synd að þú skyldir ekki finna neitt um Nicolas Flamel. Fáðu þér beikon eða eitthvað, þú hefur ekki snert matinn þinn.“

Harry hafði enga matarlyst. Hann hafði séð foreldra sína og fengi að sjá þau aftur í kvöld. Hann hafði næstum gleymt Flamel. Það virtist svo léttvægt núna. Hvaða máli skipti hverju þríhöfða hundurinn vakti yfir? Og hverjum væri ekki sama þó að Snape stæli því?

„Er allt í lagi með þig?“ spurði Ron. „Þú ert svo skrítinn á svipinn.“ Harry óttaðist mest að honum tækist ekki að finna spegilherbergið aftur. Þeir komust ekki leiðar sinnar jafn hratt næstu nótt þar sem þeir voru tveir undir skikkjunni. Þeir reyndu að fara sömu leið og Harry frá bókasafninu og að ganginum með herklæðunum. En þeir ráfuðu um dimma ranghalana í að minnsta kosti klukkustund án árangurs.

„Ég er að frjósa,“ sagði Ron. „Hættum þessu og snúum við.“

„Nei!“ hvæsti Harry. „Ég veit að það er hérna einhvers staðar.“ Þeir hittu engan nema draug hávaxinnar nornar sem sveif framhjá þeim í gagnstæða átt. Ron var farinn að stynja vegna þess að fæturnir á honum voru orðnir tilfinningalausir af kulda þegar Harry kom skyndilega auga á herklæðin.

„Það er hér – já, þetta er staðurinn!“

Þeir opnuðu dyrnar upp á gátt. Harry fleygði af sér skikkjunni og hljóp að speglinum.

Þarna voru þau. Mamma hans og pabbi ljómuðu af gleði þegar þau sáu hann.

„Sérðu?“ hvíslaði Harry.

„Ég sé ekki neitt.“

„Horfðu vel! Sjáðu þau öllsömul … sérðu hvað þau eru mörg!“

„Ég sé engan nema þig.“

„Kannski stendurðu ekki á réttum stað. Komdu og stattu hjá mér.“ Harry færði sig þannig að Ron stóð beint fyrir framan spegilinn. Nú sá hann fjölskyldu sína ekki lengur, aðeins spegilmyndina af Ron í náttfötunum.

En Ron starði agndofa á spegilmynd sína.

„Sjáðu mig!“ sagði hann.

„Sérðu fjölskylduna þína standa í kringum þig?“

„Nei – ég er einn – en ég er breyttur – eldri – ég er orðinn umsjónarmaður!“

„Ha?“

„Já – ég er með samskonar nælu og Percy – og ég held á heimavistarbikarnum og Quidditchbikarnum – ég er líka fyrirliði Quidditch liðsins!“

Ron gat loks slitið sig frá þessari stórkostlegu sýn og leit spenntur á Harry.

„Heldurðu að spegillinn sýni manni framtíðina?“

„Hvernig gæti hann gert það? Allir í fjölskyldunni minni eru dánir – leyfðu mér að sjá …“

„Þú hafðir hann út af fyrir þig alla síðastliðna nótt. Leyfðu mér að standa hérna aðeins lengur.“

„Þú heldur bara á Quidditchbikarnum. Hvað er svona merkilegt við það? Mig langar að sjá foreldra mína.“

„Ekki ýta mér …“

Skyndilegur hávaði frammi á ganginum batt enda á rifrildið. Þeir höfðu ekki gert sér grein fyrir hversu hátt þeir töluðu.

„Fljótur!“

Ron fleygði huliðsskikkjunni yfir þá í sömu mund og lýsandi augu frú Norris birtust í dyragættinni. Ron og Harry stóðu grafkyrrir og hugsuðu báðir það sama: Virkaði skikkjan á ketti? Eftir heila eilífð sneri hún loks við og fór.

„Við getum ekki verið hérna áfram, hún gæti verið að ná í Filch. Ég er viss um að hún heyrði í okkur. Komdu.“ Og Ron togaði Harry af stað.

Næsta morgun lá snjórinn enn eins og þykk sæng yfir öllu.

„Viltu tefla, Harry?“ spurði Ron.

„Nei.“

„Ættum við að fara og heimsækja Hagrid?“

„Nei … far þú bara …“

„Ég veit um hvað þú ert að hugsa, Harry. Þú ert að hugsa um spegilinn, er það ekki? Ekki fara þangað aftur í kvöld.“ „Af hverju?“

„Ég veit það ekki. Mér finnst eitthvað óhugnanlegt við þetta – þú ert búinn að storka örlögunum aðeins of oft undanfarið. Filch, Snape og frú Norris eru öll á kreiki. Og þó að þau geti ekki séð þig gætu þau rekist á þig. Eða þú gætir velt einhverju um koll.“

„Þú hljómar eins og Hermione.“

„Mér er alvara, Harry. Ekki fara.“

En það komst aðeins eitt að hjá Harry. Hann ætlaði aftur í spegilherbergið og Ron tækist ekki að stöðva hann.

Þriðju nóttina var hann fljótari að rata en áður. Hann gekk svo hratt að hann hafði óþarflega hátt, en hann var heppinn og rakst ekki á neinn.

Og þarna voru mamma hans og pabbi og brostu til hans. Annar afi hans kinkaði glaðlega til hans kolli. Harry seig niður á gólfið fyrir framan spegilinn. Nú gæti enginn hindrað hann í að eyða allri nóttinni með fjölskyldu sinni. Alls enginn.

Nema …

„Jæja, þú ert kominn aftur, Harry.“

Harry fannst blóðið frjósa í æðunum á sér. Hann leit í kringum sig. Við eitt borðanna við vegginn sat enginn annar en Albus Dumbledore. Harry hlaut að hafa gengið rakleiðis framhjá honum án þess að taka eftir honum. Hann hafði verið svo spenntur að komast að speglinum.

„Ég … ég sá þig ekki, herra.“

„Einkennilegt hvað huliðsskikkja getur gert mann nærsýnan,“ sagði Dumbledore og Harry var feginn að sjá að hann brosti.

„Jæja,“ sagði Dumbledore og reis upp frá borðinu til þess að setjast á gólfið við hliðina á Harry. „Nú hefur þú, eins og svo margir aðrir,

uppgötvað gleðina sem fólgin er í Draumaspeglinum.“

„Ég vissi ekki að hann héti það, herra.“

„En þú hefur þá líklega uppgötvað hvað hann sýnir.“

„Ja … hann sýndi mér fjölskyldu mína …“

„Og hann sýndi Ron vini þínum spegilmynd hans sem umsjónarmaður.“

„Hvernig vissirðu …?“

„Ég þarf ekki skikkju til að verða ósýnilegur,“ sagði Dumbledore vingjarnlega. „Segðu mér, veistu hvað það er sem Draumaspegillinn sýnir okkur?“

Harry hristi höfuðið.

„Leyfðu mér að útskýra það. Hamingjusamasti maðurí heimi gæti notað þennan spegil eins og venjulegan spegil. Það er að segja, hann lítur í spegilinn og sér sjálfan sig nákvæmlega eins og hann er í rauninni. Kemur þetta þér á sporið?“

Harry hugsaði sig um. Síðan sagði hann hægt: „Hann sýnir okkur það sem við viljum sjá …. sama hvað það er …“

„Já og nei,“ sagði Dumbledore hljóðlega. „Hann sýnir okkur ekkert minna en þær dýpstu og heitustu þrár sem búa innra með okkur. Þú, sem aldrei hefur þekkt fjölskyldu þína, sérð hana standa í kringum þig. Ronald Weasley hefur alltaf staðið

í skugga bræðra sinna og sér sjálfan sig skara fram úr þeim í speglinum. En spegillinn veitir okkur hvorki þekkingu né sannleika. Margir hafa veslast upp fyrir framan hann, gagnteknir af því sem hann sýnir eða orðið brjálaðir vegna þess að þeir vita ekki hvort sýnin er raunveruleg eða yfirleitt möguleg.

Spegillinn verður fluttur á nýjan stað á morgun, Harry. Ég ætla að biðja þig um að leita hans ekki aftur. Ef þú skyldir rekast á hann, þá ertu viðbúinn. Það dugar ekki að dvelja í draumi af því að þá gleymirðu að lifa í vöku, mundu það. En nú finnst mér að þú ættir að klæða þig í fallegu skikkjuna þína og drífa þig í rúmið!“ Harry stóð á fætur.

„Herra … Dumbledore prófessor. Má ég spyrja þig að dálitlu?“

„Það er nú einmitt það sem þú ert að gera núna,“ svaraði Dumbledore brosandi. „Þú mátt hins vegar spyrja mig einnar spurn ingar í viðbót.“

„Hvað sérð þú þegar þú lítur í spegilinn?“

„Ég? Ég sé sjálfan mig með þykka ullarsokka í hendinni.“ Harry starði á hann.

„Maður á aldrei nógu mikið af góðum sokkum,“ sagði Dumbledore. „Nú eru enn ein jólin liðin án þess að ég fengi svo mikið sem eitt par. Fólk vill endilega gefa mér bækur.“

Það var ekki fyrr en Harry var kominn upp í rúm að það rann upp fyrir honum að Dumbledore hefði ef til vill ekki verið að segja satt. En á hinn bóginn, hugsaði hann um leið og hann ýtti Scabber af koddanum, hafði þetta líka verið mjög persónuleg spurning.

# Þrettándi kafli

# Nicolas Flamel

Dumbledore hafði sannfært Harry um að leita spegilsins ekki aftur og það sem eftir lifði jólafrísins lá huliðsskikkjan samanbrotin á botninum í koffortinu hans. Harry óskaði þess að hann ætti auðveldara með að gleyma því sem hann hafði séð í speglinum. Hann fór að fá martraðir. Aftur og aftur dreymdi hann að foreldrar hans hyrfu inn í blindandi, grænt ljós á meðan hái, illkvittnislegi hláturinn glumdi í eyrum hans.

„Þarna sérðu, Dumbledore hafði rétt fyrir sér. Þessi spegill hefði getað gert þig brjálaðan," sagði Ron þegar Harry sagði honum frá draumum sínum.

Hermione kom aftur daginn áður en jólafríinu lauk. Hún leit öðruvísi á málið. Hjá henni toguðust á hryllingur yfir því að Harry hefði verið að flækjast um skólann þrjár nætur í röð („Hvað nú ef Filch hefði náð þér!") og vonbrigði yfir því að þeim hafði ekkert orðið ágengt með Nicolas Flamel.

Þó að Harry væri viss um að hann hefði rekist á nafn Flamels einhvers staðar voru þau næstum búin að gefa upp alla von um að finna hann í bókasafnsbókunum. Þegar önnin hófst á ný notuðu þau allan frítíma sinn í að renna í gegnum þær. Harry hafði jafnvel enn minni tíma en hin, vegna þess að Quidditchæfingarnar voru hafnar á nýjan leik.

Wood lagði harðar að liðinu en nokkru sinni fyrr. Endalaus rigningin, sem leysti snjóinn af hólmi, nægði ekki einu sinni til að draga úr keppnisskapi hans. Weasleybræðurnir kvörtuðu yfir því að Wood væri orðinn allt of öfgafullur, en Harry stóð með fyrirliðanum sínum. Ef þeim tækist að sigra Hufflepuff í næstu keppni ynnu þeir bikarinn af Slytherin í fyrsta skipti í sjö ár. Auk þess uppgötvaði Harry að hann fékk færri martraðir þegar hann var uppgefinn eftir æfingar.

Wood færði liðinu slæmar fréttir á óvenju blautri og forugri æfingu. Hann hafði orðið öskuillur út í Weasleytvíburana sem steyptu sér í sífellu á eftir hvor öðrum og létu sem þeir væru að detta af kústunum.

„Hættið þessari vitleysu!“ æpti hann. „Það er einmitt svona lagað sem eyðileggur fyrir liðinu! Snape verður dómari í

næstu keppni og þið getið verið vissir um að hann mun leita að afsökunum til að taka stig af Gryffindor!“

Við þessi orð datt George Weasley raunverulega af kústinum sínum.

„Verður Snape dómari?“ frussaði hann út úr sér með munninn fullan af for. „Síðan hvenær dæmir hann Quidditchkeppnir? Hann á eftir að dæma Hufflepuff í hag ef hann sér fram á að við gætum unnið bikarinn.“

Hinir í liðinu lentu við hlið George. Þeim var öllum illa brugðið.

„Þetta er ekki mín hugmynd,“ sagði Wood. „En við verðum að vanda okkur og spila drengilega svo að Snape fái ekki færi á okkur.“ Það var svo sem gott og blessað, hugsaði Harry, hann hafði aðra og alvarlegri ástæðu fyrir því að vilja ekki hafa Snape nálægt sér þegar hann spilaði Quidditch …

Þegar æfingunni var lokið hékk liðið áfram á vellinum eins og venjulega til að spjalla, en Harry flýtti sér beina leið upp í setustofu Gryffindor þar sem Ron og Hermione sátu og tefldu. Skák var eini leikurinn sem Hermione tapaði stundum og það töldu Harry og Ron að væri mjög hollt fyrir hana.

„Ekki tala við mig,“ sagði Ron þegar Harry settist við hlið hans. „Ég þarf að einbei…“ Honum varð litið á Harry. „Hvað er að? Þú lítur hræðilega út.“

Harry sagði þeim, í lágum hljóðum svo að hinir heyrðu ekki, frá skyndilegri löngun Snape til að verða Quidditchdómari.

„Þú spilar ekki með,“ sagði Hermione um leið.

„Segðu að þú sért veikur,“ sagði Ron.

„Láttu sem þú sért fótbrotinn,“ hélt Hermione áfram.

„Fótbrjóttu þig í alvörunni,“ sagði Ron.

„Ég get það ekki,“ sagði Harry. „Það er enginn varaleitari. Ef ég hætti við getur Gryffindor ekki keppt.“

Í þeirri andrá kollsteyptist Neville inn í stofuna. Það var þeim ráðgáta hvernig honum hafði tekist að klifra í gegnum holuna á bak við málverkið af því að fætur hans voru fastir saman. Einhver hafði greinilega lagt á hann fótlásbölvunina. Hann

hlaut að hafa hoppað eins og kanína alla leið upp í Gryffindorturninn.

Allir í herberginu fóru að skellihlæja nema Hermione sem spratt á fætur og fór með þulu til að aflétta bölvuninni. Fætur Nevilles skildust að og hann reis skjálfandi á fætur.

„Hvað gerðist?“ spurði Hermione um leið og hún studdi hann að borðinu þar sem Harry og Ron sátu.

„Draco,“ sagði Neville titrandi röddu. „Ég mætti honum fyrir utan bókasafnið. Hann sagðist hafa verið að leita að einhverjum til að æfa bölvunina á.“

„Farðu til McGonagall prófessors!“ sagði Hermione við hann. „Klagaðu hann!“

Neville hristi höfuðið.

„Ég vil ekki meiri vandræði,“ muldraði Neville.

„Þú verður að bjóða honum birginn, Neville!“ sagði Ron. „Draco er svo vanur að traðka á fólki að það er engin ástæða til að gera honum það auðveldara.“

„Þið þurfið ekki að segja mér að ég sé ekki nógu hugrakkur til að vera í Gryffindor, Draco er búinn að því,“ sagði Neville með grátstafinn í kverkunum.

Harry fann súkkulaðifrosk í vasa á skikkjunni sinni, þann síðasta úr pakkanum sem Hermione hafði gefið honum í jólagjöf. Hann rétti Neville froskinn til hughreystingar.

„Þú ert tólf sinnum meira virði en Draco,“ sagði Harry. „Flokkunarhatturinn sendi þig í Gryffindor, ekki satt? Og hvar er Draco? Í skítavistinni Slytherin.“

Neville gat ekki stillt sig um að brosa um leið og hann tók utan af súkkulaðifroskinum.

„Takk, Harry … ég held að ég fari í rúmið núna … viltu ekki fá myndina, þú ert að safna þeim, er það ekki?“

Þegar Neville gekk í burtu leit Harry á galdrameistaramyndina.

„Ég fékk Dumbledore aftur,“ sagði hann. „Hann var sá fyrsti sem ég …“

Hann tók andköf. Hann starði á bakhliðina á myndinni. Síðan leit hann á Ron og Hermione.

„Ég er búinn að finna hann!“ hvíslaði hann. „Ég er búinn að finna Flamel! Ég sagði ykkur að ég hefði lesið nafnið einhvers staðar áður. Ég las það í lestinni á leiðinni hingað – hlustið á þetta: „Dumbledore er einkum og sér í lagi þekktur fyrir að hafa sigrað galdramann myrku aflanna, Grindelwald, árið 1945, fyrir uppgötvun sína á tólf möguleikum til nýtingar drekablóðs og vinnu sína við gullgerðarlist ásamt félaga sínum, Nicolasi Flamel“!“

Hermione stökk á fætur. Hún hafði ekki verið svona spennt á svipinn síðan þau fengu einkunnirnar fyrir fyrsta heimaverkefnið sitt.

„Bíðið hérna!“ sagði hún og geystist upp stigann í svefnsal stelpnanna. Harry og Ron höfðu varla náð að líta spyrjandi hvor á annan þegar hún kom þjótandi aftur með eldgamla, gríðarstóra skruddu undir handleggnum.

„Mér datt aldrei í hug að leita í þessari,“ hvíslaði hún æst. „Ég tók hana á bókasafninu fyrir mörgum vikum til að lesa mér til skemmtunar.“

„Skemmtunar?“ sagði Ron en Hermione bað hann að þegja á meðan hún væri að fletta dálitlu upp. Hún blaðaði æst í gegnum bókina og tuldraði eitthvað fyrir munni sér.

Loks fann hún það sem hún leitaði að.

„Ég vissi það! Ég vissi það!“

„Megum við tala núna?“ spurði Ron fúll. Hermione lést ekki heyra í honum.

„Nicolas Flamel,“ hvíslaði hún dramatísk, „er eini galdramaðurinn sem vitað er til að geti búið til viskustein!“

Þessi orð höfðu ekki þau áhrif sem hún hafði vænst.

„Búið til hvað?“ sögðu þeir í kór.

„Í alvöru, strákar, lesið þið aldrei neitt? Sjáið þið – lesið þessar málsgreinar hérna.“

Hún ýtti bókinni til þeirra. Þeir lásu:

Hin forna fræðigrein, gullgerðarlistin, beinist einkum að gerð viskusteinsins, þjóðsagnakennds efnis sem gætt er undraverðum krafti. Steinninn getur breytt óæðri málmum í skíragull. Frá honum er einnig fengin ódáinsveigin er lengt getur líf manna endalaust.

Í aldanna rás hafa verið uppi margar sögusagnir um viskusteininn, en eini steinninn sem fyrirfinnst er í eigu herra Nicolasar Flamels, hins annálaða gullgerðarmanns og óperuunnanda, sem hélt upp á sexhundruðsextugastaogfimmta afmælisdaginn sinn á síðasta ári og lifir kyrrlátu lífi í Devon ásamt konu sinni, Perenelle (sex hundruð fimmtíu og átta ára).

„Skiljið þið nú?“ sagði Hermione þegar Harry og Ron höfðu lokið lestrinum. „Hundurinn hlýtur að standa vörð um viskustein Flamels! Ég er viss um að hann hefur beðið Dumbledore að gæta hans af því að þeir eru vinir. Hann hlýtur að hafa vitað að einhver var á höttunum eftir honum. Þess vegna vildi hann að steinninn yrði fluttur úr Gringottbankanum!“

„Steinn sem býr til gull og gerir fólk ódauðlegt!“ sagði Harry. „Það er ekki nema von að Snape vilji komast yfir hann! Hver myndi ekki vilja það?“

„Engin furða að við skyldum ekki finna Flamel í Rannsóknir á nútíma fjölkynngi, sagði Ron. „Hann er ekki beinlínis í hópi þeirra yngstu ef hann er sex hundruð sextíu og fimm, ha?“

Næsta morgun voru þau í tíma í vörn gegn myrku öflunum. Á meðan þau skrifuðu niður ýmis ráð til að meðhöndla varúlfabit skeggræddu Ron og Harry um hvað þeir myndu gera ef þeir ættu viskustein. Það var ekki fyrr en Ron lýsti því yfir að hann myndi kaupa sitt eigið Quidditchlið sem Harry mundi eftir Snape og keppn inni.

„Ég ætla að spila með,“ sagði hann við Ron og Hermione. „Ef ég geri það ekki munu allir í Slytherin halda að ég sé hræddur við Snape. Ég skal sko þagga niður í þeim …“

„Svo lengi sem Snape þaggar ekki endanlega niður í þér,“ sagði Hermione.

Þegar leið að keppninni varð Harry sífellt órólegri þótt hann léti það ekki í ljós við Ron og Hermione. Hinir í liðinu voru ekki heldur lausir við kvíða. Tilhugsunin um að vinna Slytherin í heimavistarkeppninni var dásamleg. Enginn hafði unnið þá í næstum sjö ár; en tækist Gryffindor það með svo hlutdrægan dómara?

Harry vissi ekki hvort það var ímyndun en honum fannst eins og hann væri alltaf að rekast á Snape hvert sem hann fór. Stundum hvarflaði að honum að Snape væri að elta hann til að ná honum í einrúmi. Snape var svo andstyggilegur við Harry að töfradrykkjatímarnir voru orðnir að vikulegu kvalræði. Gat verið að Snape vissi hvers þau höfðu orðið vísari um viskusteininn? Harry skildi reyndar ekki hvernig það mætti vera – en stundum fannst honum eins og Snape gæti lesið hugsanir.

Harry vissi að Ron og Hermione voru að velta því fyrir sér hvort þau sæju hann aftur á lífi þegar þau óskuðu honum góðs gengis fyrir framan búningsklefana síðdegis næsta dag. Það var ekki beinlínis uppörvandi. Harry heyrði varla orð af hvatningarræðu Woods á meðan hann klæddi sig í Quidditchskikkjuna og greip Nimbus 2000 kústinn sinn.

Á meðan fundu Ron og Hermione sér stæði á áhorfendapöllunum við hlið Nevilles. Hann botnaði ekkert í því af hverju þau voru svona hörkuleg og áhyggjufull á svipinn eða hvers vegna í ósköp unum þau tóku töfrasprotana sína með á leikinn. Harry hafði ekki hugmynd um að Ron og Hermione höfðu verið að æfa fótlásbölvunina í laumi. Þau höfðu fengið hugmyndina þegar Draco notaði hana á Neville og voru tilbúin að nota hana á Snape ef hann sýndi einhverja tilburði í þá átt að skaða Harry.

„Reyndu nú að muna að það er Locomotor Mortis," hvíslaði Hermione um leið og Ron smeygði sprotanum upp í ermina.

„Ég veit," sagði Ron stuttur í spuna. „Hættu að tönnlast á þessu." Inni í búningsherberginu hafði Wood dregið Harry afsíðis.

„Ég vil ekki setja á þig of mikla pressu, Harry, en nú er virkilega mikilvægt fyrir okkur að ná gullnu eldingunni sem fyrst, áður en Snape vinnst tími til að gera Hufflepuff alltof marga greiða."

„Allur skólinn er mættur!“ sagði Fred Weasley sem gægðist út um dyrnar. „Meira að segja sjálfur Dumbledore er kominn til að fylgjast með!“

Hjartað í Harry tók kipp.

„Dumbledore?“ sagði hann og flýtti sér að dyrunum til að kíkja út. Fred hafði rétt fyrir sér. Silfurgrátt skeggið var auðþekkjanlegt.

Það lá við að Harry hrópaði upp yfir sig af gleði. Honum var borgið. Snape myndi aldrei þora að gera honum mein ef Dumbledore væri nálægur. Ef til vill var það þess vegna sem Snape var svo reiðilegur á svip þegar liðin þrömmuðu inn á völlinn. Ron tók líka eftir því.

„Ég hef aldrei séð Snape svona illilegan fyrr,“ sagði hann við Hermione. „Sjáðu – þeir eru lagðir af stað. Ááii!“

Einhver hafði rekið sig óþyrmilega í hnakkann á Ron. Það var Draco.

„Ó, fyrirgefðu, Weasley. Ég sá þig ekki.“ Draco glotti til Crabbe og Goyle.

„Hvað ætli Potter nái að hanga lengi á kústinum í þetta skipti? Vill einhver veðja um það? Kannski þú, Weasley?“

Ron svaraði ekki. Snape hafði rétt í þessu gefið Hufflepuff víti vegna þess að George Weasley hafði slegið rotara í áttina að honum. Hermione krossaði alla sína fingur og starði án afláts á Harry sem hringsólaði eins og örn yfir leikmönnunum, í leit að gullnu eldingunni.

„Ég held að ég viti hvernig er valið í Gryffindorliðið,“ sagði Draco hátt nokkrum mínútum síðar þegar Snape veitti Hufflepuff annað vítakast án nokkurrar sýnilegrar ástæðu. „Þeir velja þá sem þeir vorkenna mest. Sjáið til dæmis Potter. Hann á enga foreldra. Svo eru það Weasleybræðurnir sem eiga enga peninga – þú ættir að vera með í liðinu, Longbottom, af því að þú ert ekki með neinn heila.“ Neville varð eldrauður í framan og sneri sér að Draco.

„Ég er tólf sinnum meira virði en þú, Draco,“ stamaði hann.

Draco, Crabbe og Goyle öskruðu af hlátri, en Ron, sem ekki gat slitið augun af leiknum, sagði: „Láttu þá heyra það, Neville.“

„Longbottom, ef gáfur væru gull værir þú jafnvel fátækari en Weasleybræðurnir og þá er mikið sagt.“

Taugar Rons voru þegar þandar til hins ýtrasta vegna Harrys.

„Ég vara þig við, Draco – ég vil ekki heyra eitt orð í viðbót ...“

„Ron!“ sagði Hermione allt í einu. „Harry ...“

„Hvað? Hvar?“

Harry hafði tekið tilkomumikla dýfu. Fagnaðarlæti og andköf heyrðust af áhorfendapöllunum. Hermione stóð á fætur og fléttaði fingurna svo fast að þeir urðu kríthvítir um leið og Harry skaust í átt til jarðar eins og byssukúla.

„Þar varstu heppinn, Weasley. Potter hefur greinilega komið auga á peninga á jörðinni!“ sagði Draco.

Þetta var dropinn sem fyllti mælinn. Áður en Draco vissi hvaðan á sig stóð veðrið hafði Ron kastað sér á hann og fleygt honum niður. Neville hikaði andartak en klöngraðist svo yfir sætin til að hjálpa Ron.

„Áfram, Harry!“ öskraði Hermione. Hún stökk upp á sætið til að fylgjast með þegar Harry kom á ógnarhraða í áttina að Snape – hún tók ekki einu sinni eftir Draco og Ron sem veltust um undir sætinu hennar eða ryskingunum og gólunum í Neville, Crabbe og Goyle sem voru lentir í hörkuáflogum.

Uppi í loftinu sneri Snape sér við á kústinum í sama bili og eitthvað skarlatsrautt þaut hjá, aðeins hársbreidd frá honum – á næsta augnabliki rétti Harry kústinn af og lyfti handleggnum sigrihrósandi með gullnu eldinguna í lófanum.

Tryllt fagnaðarlæti brutust út á áhorfendapöllunum; þetta hlaut að vera met, enginn hafði áður gripið gullnu eldinguna svona fljótt.

„Ron! Ron! Hvar ertu? Leiknum er lokið! Harry vann! Við unnum! Gryffindor er komið í forystu!“ skrækti Hermione. Hún hoppaði upp og niður í sætinu og faðmaði Parvati Patil sem sat í röðinni fyrir framan hana.

Harry stökk af kústinum rétt ofan við jörðu. Hann átti bágt með að trúa þessu. Honum hafði tekist það – leiknum var lokið og hann hafði aðeins staðið í tæpar fimm mínútur. Þegar

leikmenn Gryffindor lentu á vellinum kom hann auga á Snape skammt undan, hvítan í framan með samanklemmdar varir. Þá fann Harry að hönd var lögð á axlir hans og hann leit upp á brosandi andlit Dumbledore.

„Fín frammistaða,“ sagði Dumbledore svo lágt að aðeins Harry heyrði til hans. „Gott að sjá að þú hefur ekki verið að hugsa of mikið um spegilinn. Þú hefur notað tímann vel … ljómandi …“ Snape hrækti beisklega á jörðina.

Harry yfirgaf búningsklefana nokkru síðar til að skila Nimbus 2000 í kústaskýlið. Hann hafði aldrei verið hamingjusamari. Nú hafði hann svo sannarlega afrekað nokkuð sem hann gat verið stoltur af. Enginn gæti framar sagt að hann væri bara þekktur vegna nafnsins. Kvöldgolan hafði aldrei ilmað jafn yndislega. Hann gekk yfir döggvott grasið og rifjaði upp síðastliðna klukkustund sem var í sælumóðu: Gryffindorliðið hlaupandi til að lyfta honum upp á herðar sér, Ron og Hermione dansandi af gleði í fjarska og Ron æpandi af fögnuði með fossandi blóðnasir.

Harry var kominn að skýlinu. Hann hallaði sér upp að tréhurðinni og leit í átt að Hogwartskólanum. Rúðurnar loguðu í rauðum bjarma kvöldsólarinnar sem var í þann mund að

hníga til viðar. Honum hafði tekist það. Hann hafði svo sannarlega sýnt Snape …

Vel á minnst, Snape …

Hettuklædd vera gekk hröðum skrefum niður kastalatröppurnar. Það var greinilegt að veran kaus að fara leynt, því að hún flýtti sér sem mest hún mátti í átt að forboðna skóginum. Harry fylgdi henni með augunum og sigurinn gleymdist. Hann kannaðist við þessar pukurslegu hreyfingar. Þetta var Snape að laumast inn í skóginn á meðan allir aðrir sátu að kvöldverði – hvað var eiginlega á seyði?

Harry stökk aftur upp á Nimbus 2000 og flaug af stað. Hann leið hljóðlaust yfir kastalann og sá Snape hlaupa inn í skóginn. Hann elti.

Trjágreinarnar voru svo þéttar og miklar að Snape hvarf sjónum hans. Hann hringsólaði æ lægra niður þar til hann straukst við krónur efstu trjánna. Þá heyrði hann skyndilega raddir. Hann sveif í áttina að þeim og lenti hljóðlaust á himinháu beykitré.

Hann fetaði sig varlega eftir einni greininni og hélt fast um kústinn sinn um leið og hann reyndi að sjá hvað fram fór á jörðu niðri.

Í skuggsælu rjóðri fyrir neðan hann stóð Snape. En hann var ekki einn. Quirrell var þarna líka. Harry greindi ekki svipbrigði hans en hann stamaði meira en nokkru sinni fyrr. Harry lagði sig allan fram við að heyra hvað þeim fór á milli.

„… skil e-ekki af hverju þ-þú vi-vildir endil-lega að vi-við hittumst hérna, Severus …“

„Æ, mér fannst að við ættum að halda þessu okkar á milli,“ sagði Snape með ískulda í röddinni. „Þegar öllu er á botninn hvolft er ekki gert ráð fyrir að nemendurnir viti neitt um viskusteininn.“

Harry teygði fram álkuna. Quirrell muldraði eitthvað en Snape greip fram í fyrir honum.

„Ertu búinn að finna út hvernig hægt er að komast framhjá skepnunni hans Hagrids?“

„Sk-sko Severus, ég …“

„Þér er hollara að halda mér góðum, Quirrell,“ sagði Snape og steig í áttina að honum.

„É-ég veit ekki hv-hvað þú …“

„Þú veist nákvæmlega hvað ég á við.“

Ugla vældi hátt og Harry var nærri dottinn niður úr trénu. Hann náði aftur jafnvægi og heyrði Snape ljúka við setningu: „… litlu hókus-pókus brellurnar þínar. Ég bíð!“

„E-en ég v-veit ekki …“

„Gott og vel. Við spjöllum aftur saman bráðlega þegar þú hefur haft tíma til að hugsa málið og ákveða með hverjum þú stendur.“

Hann fleygði skikkjunni yfir sig og stikaði út úr rjóðrinu. Það var næstum aldimmt en Harry gat samt séð Quirrell sem stóð líkt og steinrunninn fyrir neðan hann.

„Harry, hvar varstu?“ skrækti Hermione.

„Við unnum! Þú vannst! Við unnum!“ hrópaði Ron og sló á bakið á Harry. „Og ég gaf Draco glóðarauga og Neville reyndi einsamall að ráða við Crabbe og Goyle. Hann er enn í roti en fröken Pomfrey segir að það verði allt í lagi með hann. Þú tókst Slytherin heldur betur í bakaríið! Það bíða allir eftir þér inni í setustofu. Við ætlum að halda veislu. Fred og George stálu einhverjum kökum og góðgæti úr eldhúsinu.“

„Það verður aðeins að bíða,“ sagði Harry lafmóður. „Finnum okkur stað þar sem við getum talað saman í friði. Bíðið bara þangað til þið heyrið þetta …“

Hann gekk úr skugga um að Peeves væri ekki inni í herberginu áður en hann lokaði dyrunum á eftir þeim. Síðan sagði hann Ron og Hermione frá því sem hann hafði séð og heyrt.

„Við höfðum sem sagt rétt fyrir okkur. Þetta er viskusteinninn og Snape er að reyna að þvinga Quirrell til þess að hjálpa sér að ná honum. Hann spurði hvort Quirrell vissi hvernig ætti að komast framhjá Hnoðra – svo talaði hann eitthvað um hókus-pókus brellurnar hans Quirrells – mér finnst líklegt að hundurinn sé ekki eina öryggisráðstöfunin. Það hljóta að vera fleiri galdrar sem verja steininn. Kannski hefur Quirrell

magnað einhvern seið gegn myrku öflunum og Snape vill fá hann til að aflétta honum …“

„Svo þú heldur að steinninn sé bara öruggur svo lengi sem Quirrell lætur ekki undan Snape?“ spurði Hermione óttaslegin.

„Þá verður hann eflaust horfinn áður en vikan er liðin,“ sagði Ron.

# Fjórtándi kafli

# Norski rákdrekinn Norbert

En það átti eftir að koma í ljós að Quirrell var hugrakkari en þau höfðu búist við. Á næstu vikum varð hann að vísu æ fölari og megurri, en hann leit ekki út fyrir að vera að því kominn að brotna saman.

Í hvert skipti sem þau fóru framhjá ganginum á þriðju hæð lögðu Harry, Ron og Hermione eyrun upp að hurðinni til að ganga úr skugga um að Hnoðri urraði enn fyrir innan. Snape geystist um, skapillur að venju sem hlaut að þýða að steinninn væri enn óhultur. Hvenær sem Harry rakst á Quirrell sendi hann honum uppörvandi bros og Ron var farinn að skamma þá sem hlógu að staminu í Quirrell.

Hermione hafði þó fleira á sinni könnu en viskusteininn. Hún var byrjuð að skipuleggja próflestur og flokka glósurnar sínar. Harry og Ron höfðu enn engar áhyggjur af prófunum en hún jagaðist í sífellu í þeim að fara að sínu dæmi.

„Hermione, það er heil eilífð fram að prófum.“

„Tíu vikur,“ hreytti hún út úr sér. „Það er engin eilífð. Það er eins og sekúnda fyrir Nicolas Flamel.“

„En við erum ekki sex hundruð ára,“ minnti Ron hana á. „Og af hverju þarft þú að rifja eitthvað upp? Þú veist allt nú þegar.“

„Af hverju þarf ég að rifja upp? Ertu ruglaður? Gerirðu þér grein fyrir því að við þurfum að ná prófunum til að komast upp í næsta bekk? Þau eru mjög mikilvæg og ég hefði átt að byrja fyrir löngu. Ég veit ekki hvað er að mér …“

Því miður virtust kennararnir hugsa á svipuðum nótum og Hermione. Þeir hlóðu svo mikilli heimavinnu á þau að páskafríið varð ekki nærri jafn skemmtilegt og jólafríið. Það var líka erfitt að slaka á með Hermione við hliðina á sér, rifjandi upp tólf möguleika til nýtingar drekablóðs eða að æfa sig í töfrasprotahreyfingum. Harry og Ron eyddu mestum frítíma sínum á bókasafninu með henni kvartandi og kveinandi og rembdust við að komast í gegnum alla heimavinnuna.

„Ég á aldrei eftir að muna þetta,“ lýsti Ron yfir einn eftirmiðdaginn og fleygði frá sér fjaðurpennanum. Hann leit löngunaraugum út um gluggann; þetta var fyrsti sólríki dagurinn í marga mánuði. Himinninn var heiður og blár. Sumarið lá í loftinu.

Harry var að slá upp í Eitt þúsund töfrajurtir og sveppir og leit ekki upp fyrr en Ron sagði: „Hagrid, hvað ert þú að gera hér?“

Hagrid lötraði í áttina að þeim með eitthvað í felum fyrir aftan bak. Hann stakk mjög í stúf við umhverfið í gæruskinnsfrakkanum sínum.

„Bara að kíkja,“ sagði hann svo flóttalega að þau sperrtu samstundis eyrun. „Og hvað hafið þið fyrir stafni?“ Hann varð skyndilega tortrygginn á svip. „Þið eruð vonandi hætt að leita að Nicolasi Flamel!“

„Það er langt síðan við uppgötvuðum hver hann er,“ sagði Ron rogginn. „Og við vitum líka hvað það er sem hundurinn er að passa; það er visku …“

„Ussss!“ Hagrid leit í flýti í kringum sig til að athuga hvort nokkur hefði heyrt í þeim. „Hættu að æpa þetta. Ertu alveg frá þér?“

„Það er reyndar ýmislegt sem við vildum spyrja þig um,“ sagði Harry, „í sambandi við það sem gætir steinsins, fyrir utan Hnoðra, á ég við …“

„USSSS!“ sagði Hagrid aftur. „Heyriði mig, þið getið komið og heimsótt mig á eftir. Ég er ekki að lofa ykkur neinum upplýsingum, en þið megið ekki blaðra um þetta hér þar sem aðrir nemendur geta heyrt í ykkur. Þá halda allir að ég hafi kjaftað frá …“

„Þá sjáumst við á eftir,“ sagði Harry. Hagrid lallaði af stað.

„Hvað ætli hann hafi verið að fela fyrir aftan bak?“ sagði Hermione íhugul.

„Haldið þið að það tengist steininum eitthvað?“

„Ég ætla að fara og athuga í hvaða deild hann var,“ sagði Ron sem var búinn að fá nóg af lærdómi í bili. Hann kom aftur

skömmu síðar með stafla af bókum í fanginu og skellti þeim á borðið fyrir framan þau.

„Drekadeildinni!“ hvíslaði hann. „Hagrid var að leita að bókum um dreka! Sjáiði bara titlana: Drekategundir í StóraBretlandi og á Írlandi; Frá eggi til ófreskju, handbók fyrir drekaeigendur.“

„Hagrid hefur alltaf langað í dreka. Hann sagði mér það í fyrsta sinn sem ég hitti hann,“ sagði Harry.

„En það er ólöglegt,“ sagði Ron. „Það vita allir að drekaræktun var bönnuð á Warlockráðstefnunni árið 1709. Það yrði erfitt að halda Muggunum í fjarlægð ef við værum með drekahald í bakgarðinum og auk þess er næstum vonlaust að temja dreka. Þeir eru stórhættulegir. Þið ættuð að sjá brunasárin sem Charlie fékk af villtu drekunum í Rúmeníu.“

„En það eru engir villtir drekar í Bretlandi, er það nokkuð?“ spurði Harry.

„Jú, auðvitað eru drekar hérna,“ sagði Ron. „Grænu Walesdrekarnir og svarti Suðureyingastofninn.

Galdramálaráðuneytið hefur nóg að gera við að þagga það niður. Okkar fólk þarf stöðugt að vera að leggja gleymskuálög á Muggana sem koma auga á þá.“

„Hvað í ósköpunum getur Hagrid þá verið að bralla?“ sagði Hermione.

Þegar þau börðu að dyrum á kofa skógarvarðarins klukkustund síðar kom þeim á óvart að sjá að dregið var fyrir alla glugga. Þau heyrðu Hagrid kalla: „Hver er þar?“ áður en hann hleypti þeim inn og þegar þau voru komin inn fyrir skellti hann hurðinni eldsnöggt í lás.

Það var steikjandi hiti inni í kofanum. Þrátt fyrir að hlýtt væri í veðri skíðlogaði í arninum. Hagrid hitaði te og bauð þeim hreysikattarsamlokur með en þau afþökkuðu.

„Jæja, svo þið vilduð spyrja mig einhvers.“

„Já,“ sagði Harry. Það var engin ástæða til að fara eins og köttur í kringum heitan graut. „Við vorum að velta því fyrir okkur hvort þú gætir sagt okkur hvað það er sem gætir viskusteinsins, auk Hnoðra.“ Hagrid yggldi sig.

„Auðvitað get ég ekki sagt ykkur það,“ sagði hann. „Í fyrsta lagi veit ég það ekki sjálfur. Í öðru lagi vitið þið of mikið nú þegar svo ég myndi ekki segja ykkur það þótt ég gæti. Það er góð og gild ástæða fyrir því að steinninn er geymdur hér. Það munaði minnstu að honum yrði stolið úr Gringottbankanum – en það eruð þið sjálfsagt búin að finna út, hvernig sem þið hafið nú farið að því. Ég skil ekki einu sinni hvernig þið vitið um Hnoðra.“

„Æ, Hagrid, þig langar kannski ekki að segja okkur þetta, en þú veist meira en þú vilt viðurkenna. Þú veist allt sem gerist hérna,“ sagði Hermione með ísmeygilegri aðdáun í röddinni. Stórt og mikið skegg Hagrids bifaðist örlítið og þau sáu að hann brosti. „Okkur langaði bara að vita hver hefði staðið fyrir öryggisráðstöfununum. Það var það eina.“ Hermione hélt áfram: „Við furðuðum okkur á því að Dumbledore skyldi treysta einhverjum fyrir svo mikilvægu verkefni – öðrum en þér, að sjálfsögðu.“

Við síðustu orð Hermione þandist brjóst Hagrids út. Harry og Ron horfðu með aðdáun á Hermione.

„O, ég get svo sem alveg sagt ykkur það … látum okkur sjá … hann fékk Hnoðra lánaðan hjá mér … svo frömdu nokkrir

kennaranna galdra … Spíra prófessor, Flitwick, McGonagall og …“ Hann taldi á fingrum sér um leið og hann þuldi upp nöfnin. „Quirrell – og Dumbledore gerði náttúrlega eitthvað sjálfur. Bíðið við, ég gleymdi einhverjum. Ó, já, Snape prófessor.“

„Snape?“

„Já – þið eruð vonandi búin að afskrifa þær grillur. Snape hjálpaði til við að vernda steininn, hann er ekki að reyna að stela honum.“

Harry vissi að þau Ron og Hermione hugsuðu það sama og hann. Ef Snape hafði tekið þátt í að fremja galdra til verndar steininum hlaut að hafa verið auðvelt fyrir hann að komast að því hvaða aðferðir hinir kennararnir notuðu til þess. Hann þekkti líklega alla galdrana nema, að því er virtist, galdra Quirrells. Ef hann fengi Quirrell til að segja frá ætti hann bara eftir að finna út hvernig hann kæmist framhjá Hnoðra.

„Þú ert sá eini sem veist hvernig á að komast framhjá Hnoðra, er það ekki?“ spurði Harry kvíðinn. „Og þú myndir ekki segja neinum það, er það nokkuð? Ekki einu sinni kennurunum?“

„Engin lifandi sála veit það, nema ég og Dumbledore,“ sagði Hagrid stoltur.

„Jæja, það er þó huggun,“ tautaði Harry. „Hagrid, geturðu ekki opnað glugga? Ég er alveg að stikna.“

„Get það ekki, Harry. Því miður,“ sagði Hagrid. Harry tók eftir því að hann gaut augunum í átt að arninum. Harry leit í sömu átt.

„Hagrid, hvað er nú þetta?“

En hann þurfti ekki að spyrja. Undir katlinum, inni í miðjum eldinum, var risastórt, svart egg.

„Ah,“ sagði Hagrid og fitlaði taugaóstyrkur við skeggið. „Þetta er bara … hérna …“

„Hvar fékkstu það, Hagrid?“ spurði Ron og settist á hækjur sér fyrir framan eldinn til að skoða eggið. „Það hlýtur að hafa verið rándýrt.“

„Vann það," sagði Hagrid. „Í gærkvöldi. Ég fór niður í þorp til að fá mér nokkur glös og þar hitti ég aðkomumann sem vildi spila upp á það. Ég held satt að segja að hann hafi verið feginn að losna við það."

„En hvað ætlarðu að gera við drekann þegar hann er kominn úr egginu?" spurði Hermione.

„Ég er búinn að lesa mér dálítið til," sagði Hagrid og dró stóra skræðu undan koddanum. „Ég fékk hana á bókasafninu – Drekaræktun til ánægju og hagnaðar – hún er auðvitað orðin dálítið úrelt en þarna eru allar nauðsynlegustu upplýsingarnar. Eggið á að liggja í eldi af því að drekamæður spúa eldi á eggin sín, og þegar eggið klekst út á að gefa drekaunganum flösku af koníaki blönduðu saman við kjúklingablóð á hálftíma fresti. Og sjáið hérna – á þessari síðu er yfirlit yfir egg mismunandi kynstofna – ég er með norskan rákdreka. Þeir eru sjaldgæfir."

Hann var afar ánægður á svipinn, en það var Hermione aftur á móti ekki.

„Hagrid, þú býrð í timburhúsi," sagði hún.

En Hagrid hlustaði ekki á hana. Hann gekk raulandi að arninum og hugaði að egginu.

Nú hafði enn eitt áhyggjuefnið bæst við. Hvað yrði um Hagrid ef einhver kæmist að því að hann feldi ólöglegan dreka í kofanum sínum?

„Það væri gaman að vita hvernig er að lifa rólegu og áhyggjulausu lífi,“ andvarpaði Ron eitt sinn. Þetta var eitt af mörgum kvöldum sem þau eyddu í að þræla sér í gegnum allan heimalærdóminn sem kennararnir settu þeim fyrir. Hermione var líka byrjuð að skipuleggja upprifjun Harrys og Rons. Það var að gera þá brjálaða.

Dag einn, við morgunverðarborðið, kom Hedwig fljúgandi með skilaboð frá Hagrid. Á miðanum stóðu aðeins tvö orð: Klakið byrjað. Ron vildi skrópa í jurtafræði og hlaupa strax niður í kofann til Hagrids, en Hermione vildi ekki heyra á það minnst.

„Hermione, hversu oft í lífi okkar eigum við eftir að fá tækifæri til að sjá dreka klekjast út?“

„Við þurfum að mæta í tíma, við verðum skömmuð ef við skrópum, en það er nú ekkert miðað við vandræðin sem Hagrid lendir í ef einhver uppgötvar hvað hann er að gera …“
„Usss!“ hvíslaði Harry.

Draco var á gangi í grenndinni og Harry sá að hann nam staðar og sperrti eyrun. Hversu mikið hafði hann heyrt? Harry leist alls ekki á svipinn á honum.

Ron og Hermione rifust alla leiðina í jurtafræðitímann. Að lokum samþykkti Hermione að skjótast með þeim í frímínútunum eftir tímann. Þegar hringt var út fleygðu þau plöntuskóflunum frá sér og flýttu sér yfir skólalóðina að útjaðri skógarins. Hagrid tók á móti þeim rjóður af æsingi.

„Hann er næstum kominn út.“ Hann ýtti þeim inn fyrir. Eggið lá á eldhúsborðinu og í því voru djúpar sprungur. Þau sáu greinilega hreyfingu og sérkennilegir smellir heyrðust undan skurninni. Þau drógu stóla að borðinu og mændu á eggið með öndina í hálsinum. Skyndilega heyrðist brestur og eggjaskurnin hrökk í sundur. Lítill dreki skjögraði út á borðið. Hann var ekki beinlínis fríður. Harry fannst hann líkastur krumpaðri, svartri regnhlíf. Oddhvassir vængirnir voru risastórir í samanburði við mjóan, svargljáandi búkinn. Hann

var með langt trýni og stórar nasir, pínulítil horn og útstæð, rauðgul augu.

Hann hnerraði og litlir neistar flugu út um trýnið.

„Er hann ekki fallegur?“ muldraði Hagrid. Hann rétti út höndina til að strjúka höfuð drekans. Drekinn glefsaði í fingurna á honum og sýndi oddhvassar höggtennurnar.

„Elsku litla krúttið þekkir mömmu sína!“ sagði Hagrid.

„Hagrid,“ sagði Hermione. „Hversu hratt vaxa norskir rákdrekar?“

Hagrid var í þann mund að svara þegar hann fölnaði skyndilega upp – hann stökk á fætur og hljóp að glugganum.

„Hvað er að?“

„Það kíkti einhver inn um rifuna á gluggatjöldunum – það var krakki – hann er að hlaupa í áttina að skólanum.“

Harry þaut að dyrunum og leit út. Jafnvel úr fjarlægð var ekki um að villast.

Draco hafði séð drekann.

Það var eitthvað óþægilegt við glottið sem læddist fram á varir Dracos í hvert sinn sem hann rakst á þau næstu vikurnar. Harry, Ron og Hermione voru á taugum og vissu ekkert við hverju þau máttu búast. Þau eyddu löngum stundum í rökkvuðum kofa Hagrids við að reyna að koma vitinu fyrir hann.

„Leyfðu honum að fara," sagði Harry hvetjandi. „Slepptu honum lausum."

„Ég get það ekki," sagði Hagrid. „Hann er allt of lítill. Hann myndi ekki lifa það af."

Þau litu á drekann. Á aðeins einni viku hafði stærð hans þrefaldast og reykur liðaðist út um nasirnar. Hagrid hafði vanrækt skyldur sínar vegna þess að drekinn krafðist nú allrar hans athygli. Tómar koníaksflöskur og kjúklingafiður lágu á víð og dreif um gólfið.

„Ég er búinn að ákveða að skíra hann Norbert,“ sagði Hagrid og leit klökkur á drekann. „Hann er farinn að þekkja mig núna, sjáiði bara. Norbert! Norbert! Hvar er mamma?“

„Hann er orðinn snarruglaður,“ hvíslaði Ron í eyrað á Harry.

„Hagrid,“ sagði Harry byrstur, „eftir tvær vikur verður Norbert orðinn jafn langur og húsið. Og gleymdu ekki að Draco gæti kjaftað í Dumbledore hvenær sem er.“ Hagrid beit á vörina.

„Ég – ég veit að ég get ekki haldið honum hér en ég get ekki fleygt honum út. Ég gæti það aldrei.“ Harry sneri sér skyndilega að Ron.

„Charlie,“ sagði hann.

„Þú ert líka að verða vitlaus,“ sagði Ron. „Ég heiti Ron, manstu?“

„Nei – Charlie – bróðir þinn. Þessi í Rúmeníu. Drekarannsóknarmaðurinn. Við gætum sent Norbert til hans. Charlie gæti annast hann og sleppt honum lausum þegar hann er orðinn tilbúinn að sjá um sig sjálfur!“

„Frábært!“ sagði Ron. „Hvernig líst þér á það, Hagrid?“

Og að lokum fengu þau Hagrid til að samþykkja að senda uglu með bréf til Charlies þar sem þau bæðu hann um hjálp við að leysa vandamálið.

Næsta vika silaðist áfram. Á miðvikudagskvöldið sátu Hermione og Harry ein í setustofunni. Allir aðrir voru löngu farnir í rúmið. Klukkan á veggnum var nýbúin að slá tólf högg þegar málverkið sveiflaðist skyndilega til hliðar. Ron birtist í gatinu um leið og hann dró huliðsskikkjuna hans Harrys af sér. Hann hafði verið heima hjá Hagrid að hjálpa honum að mata Norbert. Hann var nú orðinn svo stór að hann át heilu kassana af dauðum rottum.

„Hann beit mig!“ sagði hann og sýndi þeim höndina sem var vafin inn í blóðugan vasaklút. „Ég á ekki eftir að geta haldið á fjaðurpenna í að minnsta kosti viku. Þetta er hryllilegasta skepna sem ég hef hitt en Hagrid lætur eins og hann sé lítill, loðinn kanínuungi. Þegar hann beit mig skammaði Hagrid mig og sagði að ég hefði hrætt hann. Og

þegar ég fór var hann að syngja hann í svefn.“ Það var bankað á myrka gluggarúðuna.

„Þetta er Hedwig!“ sagði Harry og flýtti sér að glugganum til að hleypa henni inn. „Hún er áreiðanlega með svar frá Charlie!“ Þau rifu áköf upp umslagið og lásu bréfið.

Kæri Ron.

Hvað segirðu gott? Takk fyrir bréfið – ég vil gjarnan taka norska rákdrekann að mér en það verður dálítið erfitt að koma honum hingað. Ég held að best væri að fá vini mína, sem ætla að koma að heimsækja mig í næstu viku, til að taka hann með sér. Það er hins vegar mjög mikilvægt að enginn sjái þau flytja ólöglegan dreka með sér.

Gætuð þið komið rákdrekanum upp í hæsta turn Hogwartskóla á miðnætti á laugardag? Þau geta hitt ykkur þar og tekið hann með sér á meðan enn er dimmt.

Sendu mér svar sem allra fyrst.
Ástarkveðja,
Charlie.

Þau litu hvert á annað.

„Við höfum huliðsskikkjuna," sagði Harry. „Þetta ætti að takast – ég held að skikkjan sé nógu stór til að hylja tvö okkar og Norbert." Þau hin samþykktu þetta möglunarlaust, sem var til marks um hversu hræðileg vikan hafði verið. Þau vildu allt til vinna að losna við Norbert – og Draco.

En áætlunin gekk ekki áfallalaust fyrir sig. Næsta morgun var höndin á Ron orðin svo bólgin að hún var helmingi stærri en venjulega. Hann vissi ekki hvort óhætt var að fara til fröken Pomfrey – hún gæti þekkt drekabit. Síðdegis sá hann þó að hann átti ekki annarra kosta völ. Sárið hafði fengið á sig óhugnanlegan, grænleitan blæ. Bit Norberts hafði greinilega verið eitrað.

Harry og Hermione flýttu sér upp í sjúkrahúsálmuna eftir skóla. Þar hittu þau Ron rúmliggjandi og í hræðilegu ástandi.

„Það er fleira að en bara höndin á mér," hvíslaði hann, „þó að mér líði eins og hún sé að detta af. Draco kom hingað undir því yfirskini að fá lánaða hjá mér bók og fröken Pomfrey trúði honum og hleypti honum inn. Hann hótaði að segja henni hvað hefði bitið mig – ég laug því nefnilega að það hefði verið

stór hundur þó að ég efist um að hún hafi gleypt við því. Ég hefði betur sleppt því að lemja hann á Quidditchleiknum. Hann gerir þetta bara til að hefna sín.“ Harry og Hermione reyndu að róa Ron.

„Á laugardaginn verður þetta allt búið,“ sagði Hermione en það var Ron lítil huggun. Þvert á móti settist hann teinréttur upp og svitinn spratt fram á enni hans.

„Á laugardaginn!“ sagði hann hásri röddu. „Ó, nei – ó, nei – nú man ég – bréfið frá Charlie var inni í bókinni sem ég lánaði Draco. Nú veit hann hvað við ætlum okkur að gera við Norbert.“

Harry og Hermione gafst ekki tími til að svara. Fröken Pomfrey kom í gættina og sagði að nú yrðu þau að fara af því að Ron þyrfti að hvíla sig.

„Það er of seint að breyta áætluninni núna,“ sagði Harry við Hermione. „Við höfum ekki tíma til að senda Charlie aðra uglu og þetta gæti verið eina tækifæri okkar til að losna við Norbert. Við verðum að taka áhættuna. Og við erum með huliðsskikkjuna. Draco hefur sem betur fer ekki hugmynd um hana.“

Þau gengu niður að kofanum hans Hagrids til að segja honum frá bréfi Charlies. Fyrir utan sat Tryggur með sárabindi um skottið. Hagrid opnaði glugga til að tala við þau.

„Ég get því miður ekki hleypt ykkur inn,“ stundi hann. „Norbert er að ganga í gegnum erfitt tímabil – en það er ekkert sem ég ræð ekki við.“

Þegar þau sögðu honum frá bréfi Charlies fylltust augu hans af tárum, en það gat svo sem verið vegna þess að Norbert beit hann í fótinn.

„Aahh! Þetta er ekkert, hann náði bara í stígvélið mitt – það er leikur í honum – þetta er nú einu sinni bara barn.“

Barnið sló halanum svo fast í vegginn að gluggarúðurnar nötruðu. Harry og Hermione gengu á brott og óskuðu þess heitt og innilega að það væri kominn laugardagur.

Undir eðlilegum kringumstæðum hefðu þau vorkennt Hagrid að þurfa að kveðja Norbert en þau voru allt of áhyggjufull til að leiða hugann að því. Það var dimmt og himinninn var skýjaður þegar þau komu heim til Hagrids. Þau voru dálítið

sein fyrir vegna þess að þau höfðu þurft að bíða eftir að Peeves færði sig úr anddyrinu þar sem hann var að spila veggtennis.

Hagrid var búinn að koma Norbert fyrir í stórum kassa.

„Hann er með fullt af rottum og dálítið koníak í nesti,“ sagði Hagrid með grátstafinn í kverkunum. „Og ég pakkaði niður bangsanum hans svo að hann verði ekki einmana á leiðinni.“

Innan úr kassanum heyrðist hljóð eins og verið væri að rífa eitthvað í sundur og Harry þóttist viss um að nú væri bangsinn orðinn höfðinu styttri.

„Bless, bless, Norbert minn!“ snökti Hagrid um leið og Harry og Hermione breiddu huliðsskikkjuna yfir kassann og fóru síðan undir hana sjálf. „Mamma mun aldrei gleyma þér!“

Þeim var hulin ráðgáta hvernig þeim tókst að koma kassanum upp að kastalanum. Það var næstum komið miðnætti þegar þau roguðust með Norbert upp marmarastigann í forsalnum, eftir dimmum göngum og upp enn fleiri stiga. Ferðin varð lítið auðveldari þó að þau styttu sér leið.

„Nú erum við alveg að verða komin!“ sagði Harry móður og másandi. Þau voru stödd á ganginum sem lá að hæsta turninum.

Skyndileg hreyfing framundan varð til þess að þau misstu næstum kassann. Þau steingleymdu að þau voru ósýnileg og hörf uðu inn í skugga. Þau sáu útlínur tveggja vera sem stimpuðust á í nokkurra metra fjarlægð. Það kviknaði á lampa. McGonagall prófessor, í köflóttum slopp og með hárnet, hélt fast í eyra Dracos.

„Straff fyrir brot á reglum skólans!“ æpti hún. „Og tuttugu stig verða dregin af Slytherin! Hvernig dirfistu að vera á flækingi um miðja nótt?“

„Þú skilur ekki, prófessor. Harry Potter er á leiðinni – og hann er með dreka!“

„Endemisþvaður! Hvernig vogarðu þér að ljúga svona? Komdu – Snape prófessor fær að heyra þetta, Draco!“

Brattur hringstiginn upp í topp turnsins var hreinasti barnaleikur eftir þessi ósköp. Þau tóku ekki af sér skikkjuna

fyrr en þau stigu út í svalt næturloftið og drógu andann léttar á ný. Hermione tók dansspor af fögnuði.

„Draco var settur í straff! Ég gæti sungið!“

„Ekki gera það,“ ráðlagði Harry henni.

Þau biðu flissandi yfir örlögum Dracos á meðan Norbert bylti sér í kassanum. Um það bil tíu mínútum síðar steyptust fjórir galdrakústar út úr myrkrinu og lentu á þakinu.

Vinir Charlies voru glaðvært fólk. Þau sýndu Harry og Hermione beislið sem þau höfðu útbúið til að binda Norbert á milli sín. Þau hjálpuðust að við að festa það kirfilega utan um kassa drekans. Þegar því var lokið tóku Harry og Hermione í hendurnar á þeim og þökkuðu þeim innilega fyrir.

Loksins var Norbert að fara … fara … og nú var hann farinn.

Þau læddust aftur niður hringstigann og voru fegin að vera loksins laus við Norbert. Drekavandræðin úr sögunni – Draco í straffi – hvað gæti spillt gleði þeirra?

Svarið við því beið fyrir neðan stigann. Þegar þau tóku fyrsta skrefið inn á ganginn birtist andlit Filch skyndilega út úr myrkrinu.

„Ja, hérna, hvað er að sjá,“ hvíslaði hann, „nú eru sumir í slæmri klípu.“

Þau höfðu gleymt huliðsskikkjunni uppi í turninum.

# Fimmtándi kafli

# Forboðni skógurinn

Þetta gat að minnsta kosti ekki versnað.

Filch fór með þau niður á skrifstofu McGonagall prófessors á fyrstu hæð. Þar sátu þau þögul og biðu. Hermione skalf. Afsakanir, átyllur og ótrúlegar lygasögur sveimuðu um huga Harrys, hver annarri lélegri. Nú sátu þau í súpunni og áttu engrar undankomu auðið. Hvernig gátu þau verið svo heimsk að gleyma huliðsskikkjunni? Það varð að teljast ólíklegt að McGonagall prófessor sætti sig við þetta næturrölt um skólann. Því síður að þau hefðu verið að flækjast um í stjörnufræðiturninum sem var lokað svæði nema á skólatíma. Ef hún heyrði nú um Norbert og huliðsskikkjuna máttu þau vera viss um að verða rekin.

Harry hélt sem sagt að þetta gæti ekki versnað, en hann hafði á röngu að standa. Þegar McGonagall prófessor birtist var hún með Neville sér við hlið.

„Harry!“ hrópaði Neville þegar hann kom auga á þau. „Ég var að leita að þér til að vara þig við. Ég heyrði Draco segja að hann ætlaði að grípa þig glóðvolgan. Hann sagði að þú værir með drek...“

Harry hristi höfuðið kröftuglega til að þagga niður í Neville en McGonagall prófessor sá til hans. Hún virtist líklegri til að spúa eldi en Norbert þegar hún stillti sér upp fyrir framan syndaselina.

„Þessu hefði ég aldrei trúað upp á ykkur. Herra Filch sagði að þið hefðuð verið uppi í stjörnufræðiturni. Klukkan er eitt um nótt. Ég krefst skýringar á þessu.“

Þetta var í fyrsta sinn sem Hermione gat ekki svarað spurningu kennara. Hún starði á inniskóna sína, hreyfingarlaus eins og stytta.

„Ég held að ég hafi nokkra hugmynd um hvað hér var á seyði,“ hélt McGonagall prófessor áfram. „Það þarf enga snilligáfu til að átta sig á því. Þið fylltuð Draco Malfoy af einhverri lygaþvælu um dreka til að reyna að koma honum í vandræði. Ég náði honum áðan. Ykkur finnst það væntanlega

stórfyndið að Neville skuli líka hafa heyrt söguna og trúað hverju orði.“

Harry náði athygli Nevilles og reyndi að gefa honum til kynna að þetta væri ekki satt. Neville var bæði hissa og særður á svipinn. Aumingja klaufinn hann Neville – Harry vissi hvað það hlaut að hafa verið erfitt fyrir hann að hlaupa af stað út í myrkrið til að vara þau við.

„Ég er stórhneyksluð,“ sagði McGonagall prófessor. „Á einni nóttu eru fjórir nemendur á ráfi um skólann! Ég hef aldrei lent í öðru eins! Þessu hafði ég ekki búist við af þér, Hermione, ég hélt að þú hefðir meira vit í kollinum. Hvað þér viðkemur, Harry, þá hélt ég að Gryffindor skipti þig meira máli en þetta. Þið verðið öll sett í straff já, þú líka, Neville. Það er ekkert sem afsakar það að þvælast um á næturnar, síst af öllu þessa dagana, það er stórhættulegt – og Gryffindor missir fimmtíu stig.“

„Fimmtíu?“ Harry tók andköf – þau myndu tapa forystunni sem þau höfðu náð þegar hann vann síðustu Quidditchkeppni.

„Fimmtíu stig fyrir hvert ykkar,“ bætti McGonagall prófessor við og andaði þungt í gegnum oddhvasst nefið.

„Gerðu það – prófessor …“

„Þú getur ekki …“

„Þú segir mér ekki fyrir verkum, Harry. Í rúmið með ykkur. Ég hef aldrei skammast mín jafn mikið fyrir nemendur Gryffindor.“

Hundrað og fimmtíu stig töpuð. Það þýddi að Gryffindorvistin var fallin niður í botnsætið. Á einni nóttu hafði þeim tekist að eyði leggja möguleika Gryffindor á að vinna heimavistarbikarinn. Harry leið eins og heimurinn væri að hrynja. Hvernig gátu þau bætt fyrir þetta?

Harry svaf ekkert það sem eftir lifði nætur. Hann heyrði Neville gráta ofan í koddann sinn. Harry datt ekki í hug eitt einasta hughreystandi orð. Hann vissi að Neville kveið morgundeginum eins og hann sjálfur. Hvað myndu hinir nemendurnir í Gryffindor segja þegar þeir kæmust að því hvað þau höfðu gert?

Til að byrja með héldu Gryffindornemar á leið sinni framhjá risastóru stundaglösunum, sem mældu stig heimavistanna, að um mistök væri að ræða. Hvernig gátu þau orðið hundrað og fimmtíu stigum fátækari á einni nóttu? Síðan byrjaði sagan að kvisast út: Harry Potter, sá eini sanni, hetjan þeirra úr Quidditchleikjum vetrarins, hafði haft af þeim öll þessi stig. Hann og tveir aðrir heimskir busar.

Harry sem hafði verið einn dáðasti og vinsælasti nemandi skólans var nú skyndilega hataður og fyrirlitinn. Jafnvel Ravenclaw- og Hufflepuffnemar snerust gegn honum af því að allir höfðu hlakkað til að sjá Slytherin tapa bikarnum. Það var bent á Harry hvert sem hann fór og fólk hafði ekki fyrir því að lækka róminn þegar það baktalaði hann. Slytherinnemar klöppuðu aftur á móti og blístruðu þegar hann gekk framhjá og kölluðu: „Takk, Potter. Þú átt inni hjá okkur greiða!“ Ron var sá eini sem stóð með honum.

„Það verða allir búnir að gleyma þessu eftir nokkrar vikur. Fred og George hafa tapað ógrynni af stigum síðan þeir byrjuðu í skólanum, samt líkar öllum vel við þá.“

„Þeir hafa aldrei tapað hundrað og fimmtíu stigum á einu bretti, er það nokkuð?“ spurði Harry dapurlega.

„Nei – að vísu ekki,“ viðurkenndi Ron.

Það var dálítið seint í rassinn gripið en Harry ákvað að blanda sér aldrei framar í það sem kæmi honum ekki við. Hann var hættur að hnýsast. Hann skammaðist sín svo mikið að hann leitaði Wood uppi og sagði honum að hann væri tilbúinn að hætta í Quidditchliðinu. „Hætta?“ þrumaði Wood. „Hvaða gagn gerir það? Hvernig eigum við að geta unnið stigin okkar aftur ef við eigum enga möguleika á móti hinum liðunum?“

Það var ekki einu sinni gaman að spila Quidditch lengur. Hinir í liðinu yrtu ekki á Harry á æfingum og ef þeir neyddust til að tala um hann kölluðu þeir hann aldrei annað en leitarann.

Hermione og Neville leið líka hörmulega. Þau áttu ekki jafn erfitt og Harry af því að þau voru ekki eins þekkt, en enginn vildi heldur tala við þau. Hermione var hætt að vekja athygli á sjálfri sér í tímum. Nú sat hún þögul og grúfði sig yfir bækurnar.

Harry var því næstum feginn að prófin voru framundan. Allur upplesturinn sem hann átti fyrir höndum myndi hjálpa honum að gleyma vandamálunum. Hann, Ron og Hermione héldu sig

út af fyrir sig og kepptust við að læra langt fram á nætur. Þau lásu um innihald flókinna töfradrykkja, lærðu galdraþulur og særingar utanbókar og lögðu á minnið dagsetningar á galdrauppgötvunum sögunnar og uppreisnir svartálfa …

Um það bil viku fyrir prófin reyndi óvænt á nýja heitið hans Harrys um að hætta afskiptaseminni. Síðdegis dag nokkurn þegar hann yfirgaf bókasafnið einn síns liðs heyrði hann kjökur úr kennslustofu innar á ganginum. Þegar hann nálgaðist heyrði hann rödd Quirrells.

„Nei – nei – ekki aftur, hættu …“

Það hljómaði eins og einhver væri að ógna honum. Harry færði sig nær.

„Þá það – þá það …“ heyrði hann Quirrell kjökra.

Á næsta andartaki gekk Quirrell hröðum skrefum út úr kennslustofunni og lagaði á sér vefjarhöttinn með titrandi höndum. Hann var fölur og virtist gráti nær. Hann stikaði úr augsýn; Harry var viss um að prófessorinn hafði ekki komið auga á hann. Hann beið þar til fótatak Quirrells var þagnað og gægðist inn í kennslustofuna. Hún var mannlaus en dyrnar í

hinum enda herbergisins stóðu opnar í hálfa gátt. Harry var kominn hálfa leið að þeim þegar hann mundi eftir ákvörðun sinni um að hætta að hnýsast.

Engu að síður hefði hann verið tilbúinn að veðja tólf viskusteinum upp á að Snape hefði rétt í þessu farið út úr herberginu. Og nú yrði Snape áreiðanlega léttur í spori næstu dagana – Quirrell virtist loks hafa látið undan.

Harry fór aftur inn á bókasafnið þar sem Hermione var að hlýða Ron yfir stjörnufræði. Harry sagði þeim frá því sem hann hafði heyrt.

„Snape hefur þá tekist þetta!“ sagði Ron. „Ef Quirrell hefur kjaftað frá því hvernig á að aflétta göldrunum sem verja steininn …“ „Hnoðri vaktar hann þó enn,“ sagði Hermione.

„Kannski hefur Snape fundið aðferðina við að komast framhjá honum án þess að spyrja Hagrid,“ sagði Ron og leit á troðfulla bókaskápana allt í kringum þau. „Ég þori að veðja að einhvers staðar hérna er til bók með leiðbeiningum um hvernig hægt er að komast framhjá þríhöfða hundi. Hvað eigum við að gera í þessu, Harry?“

Ævintýraþráin skein úr augum Rons en Hermione svaraði áður en Harry náði að opna munninn.

„Við förum til Dumbledore. Það hefðum við átt að gera fyrir löngu. Ef við gerum eitthvað upp á eigin spýtur endar það örugglega með því að við verðum rekin.“

„En við höfum engar sannanir!“ sagði Harry. „Quirrell er of hræddur til að styðja okkur. Snape myndi bara segja að hann hefði ekki hugmynd um hvernig tröllið komst inn á hrekkjavökunni og að hann hafi aldrei verið nálægt ganginum á þriðju hæð – og hvort haldið þið að þau trúi honum eða okkur? Það er ekki beinlínis leyndarmál að við þolum hann ekki. Dumbledore heldur bara að við höfum skáldað þetta upp til að láta reka Snape. Filch myndi ekki hjálpa okkur þó að líf hans lægi við, til þess eru hann og Snape of góðir vinir. Þar að auki þætti honum örugglega ágætt að sjá sem flesta nemendur rekna. Og við megum heldur ekki gleyma því að við eigum hvorki að vita neitt um Hnoðra né steininn. Við myndum þurfa að útskýra ansi margt.“

Hermione virtist sannfærð en ekki Ron.

„En ef við athugum sjálf …“

„Nei,“ sagði Harry ákveðinn. „Við erum þegar búin að hnýsast nóg.“

Hann dró til sín kort af Júpíter og sökkti sér þegjandi ofan í það.

Við morgunverðarborðið næsta dag voru þeim Harry, Hermione og Neville afhentir miðar. Það stóð það sama á þeim öllum:

Straffið hefst klukkan ellefu í kvöld. Hittu herra Filch í forsalnum.

M. McGonagall prófessor

Harry hafði steingleymt straffinu í öllum látunum yfir töpuðu stigunum. Hann átti hálfpartinn von á að Hermione myndi kvarta yfir að missa af heilu kvöldi í lestri en hún sagði ekki orð. Eins og Harry fannst henni þau eiga þetta skilið.

Klukkan ellefu sama kvöld kvöddu þau Ron í setustofunni og gengu ásamt Neville niður í forsalinn. Filch var mættur – og

það var Draco líka. Harry var búinn að gleyma því að Draco átti líka að fara í straff.

„Fylgið mér,“ sagði Filch, kveikti á lugt og gekk á undan þeim út úr kastalanum.

„Þið munuð eflaust hugsa ykkur tvisvar um áður en þið brjótið skólareglurnar aftur, ekki satt?“ sagði Filch og gaut lymskulega á þau augunum. „Ó, já … erfiðisvinna og harðar refsingar eru að mínu mati bestu uppeldisaðferðirnar … það er synd að það skuli vera búið að afnema gömlu refsingarnar … persónulega hefði ég kosið að hengja ykkur á úlnliðunum niður úr loftinu í nokkra daga. Ég á ennþá keðjurnar inni á skrifstofu hjá mér, hef þær vel smurðar ef ske kynni að ég þyrfti á þeim að halda … Jæja, áfram með ykkur og látið ykkur ekki detta í hug að stinga af. Það væri verst fyrir ykkur sjálf.“ Þau þrömmuðu yfir myrkar skólaflatirnar. Neville saug í sífellu upp í nefið. Harry velti því fyrir sér hver refsingin yrði. Það hlaut að vera eitthvað reglulega hræðilegt, annars væri Filch ekki svona ánægður.

Það var tunglskinsbjart en ský þutu yfir himininn og vörpuðu á þau skugga. Framundan kom Harry auga á uppljómaða gluggana í kofa Hagrids. Þá heyrðu þau hróp úr fjarska.

„Ert þetta þú, Filch? Flýttu þér, ég vil fara að komast af stað.“

Hjartað í Harry tók kipp: Ef Hagrid færi með þeim gat þetta nú varla orðið svo slæmt. Léttirinn hlýtur að hafa verið augljós, því að Filch sagði: „Þú heldur greinilega að þú sért á leiðinni í skemmtiferð með aulabárðinum! Þú getur gleymt því, strákur – þið eruð á leið inn í skóginn og ég hef enga trú á því að þið komist heil á húfi út úr honum aftur.“

Við þessi orð rak Neville upp lágt kvein og Draco fraus í sporunum.

„Skóginn?“ endurtók hann og var ekki alveg jafn svalur í röddinni og venjulega. „Við getum ekki farið inn í hann að nóttu til – þar er allt mögulegt á sveimi – varúlfar, hef ég heyrt.“

Neville greip í aðra ermi Harrys og gaf frá sér niðurbælt óp.

„Það er ekki ólíklegt,“ sagði Filch. Það hlakkaði í honum. „Þið hefðuð átt að hugsa út í það áður en þið komuð ykkur í þessi vandræði, ekki satt?“

Hagrid kom gangandi út úr myrkrinu með Trygg á hælunum. Hann hélt á stóra lásboganum sínum og örvamælir hékk yfir aðra öxlina.

„Loksins," sagði hann. „Ég er búinn að bíða í hálftíma. Er ekki allt í lagi, Harry og Hermione?"

„Ég myndi ekki vera of vingjarnlegur við þau, Hagrid," sagði Filch kaldranalega. „Það er verið að refsa þeim."

„Það er kannski þess vegna sem þið eruð svona sein?" sagði Hagrid og hleypti brúnum. „Varstu að predika yfir þeim? Það er ekki í þínum verkahring. Þú ert búinn að skila þínu, ég tek við þeim núna."

„Ég kem aftur í dögun," sagði Filch. „Og næ í leifarnar af þeim," bætti hann illkvittnislega við. Hann snerist á hæli og gekk í áttina að kastalanum. Þau sáu lugtina hans sveiflast af stað í myrkrinu.

Draco leit á Hagrid.

„Ég fer ekki inn í skóginn," sagði hann og það hressti Harry að heyra kvíðann í rödd hans.

„Þú neyðist til þess ef þú vilt vera áfram í skólanum," sagði Hagrid reiðilega. „Þú braust af þér og verður að taka afleiðingum þess."

„En svona lagað er bara fyrir vinnufólk, ekki fyrir nemendur. Ég hélt að við yrðum látin skrifa hundrað setningar á töfluna eða eitthvað svoleiðis. Ef pabbi vissi þetta myndi hann …"

„… segja þér að svona eru reglurnar í Hogwartskóla," urraði Hagrid. „Skrifa setningar! Hvaða gagn er að því? Nei, hér gerið þið eitthvað nytsamlegt, annars er ykkur fleygt út! Ef þú heldur að pabbi þinn vilji frekar að þú verðir rekinn skaltu fara upp í kastala og pakka niður á stundinni!"

En Draco hreyfði sig ekki. Hann starði bálreiður á Hagrid en leit svo undan.

„Þá segjum við það," sagði Hagrid. „Hlustið nú vel, við eigum hættuför fyrir höndum og ég vil ekki taka óþarfa áhættu. Fylgið mér."

Þau eltu hann að útjaðri skógarins. Hann lyfti lugtinni og benti á þröngan stíg sem hlykkjaðist inn á milli stórra, svartra

trjánna. Golan bærði hár þeirra þegar þau horfðu inn í skóginn.

„Sjáiði," sagði Hagrid, „þetta sem glitrar á þarna á jörðinni? Þetta silfurlita? Þetta er einhyrningsblóð. Eitthvað í skóginum hefur sært hann alvarlega. Þetta er í annað sinn á einni viku. Ég fann dauðan einhyrning á miðvikudaginn. Við verðum að reyna að finna vesalings dýrið. Við gætum þurft að binda enda á þjáningar þess."

„En hvað ef það sem særði einhyrninginn finnur okkur fyrst?" spurði Draco og gat varla dulið óttann í röddinni.

„Ekkert sem býr í skóginum getur gert ykkur mein ef þið eruð í fylgd með mér eða Tryggi," sagði Hagrid. „Og haldið ykkur á stígnum. En nú verðum við að skipta liði og elta slóðina. Það er blóð út um allt. Hann hlýtur að hafa reikað um í að minnsta kosti sólarhring."

„Ég vil vera með Tryggi," sagði Draco og gaut augunum á stórar vígtennur hans.

„Það er í lagi. En ég vara þig við, hann er óttalega huglaus," sagði Hagrid. „Þá förum við Harry og Hermione í aðra áttina

og Draco, Neville og Tryggur í hina. Og ef einhver finnur einhyrninginn sendir hann upp græna neista, er það skilið? Takið fram sprotana ykkar og æfið ykkur – einmitt – og ef einhver lendir í vandræðum sendir hann upp rauða neista. Þá komum við eins fljótt og við getum. Eruð þið tilbúin? Og farið nú varlega.“

Skógurinn var myrkur og þögull. Spottakorn inni í skóginum greindist stígurinn og Harry, Hermione og Hagrid fóru til vinstri en Draco, Neville og Tryggur til hægri.

Þau gengu þögul og höfðu augun á jörðinni. Af og til læddust tunglsgeislar í gegnum greinarnar og lýstu upp silfurbláa blóðbletti á föllnu laufinu. Harry sá að Hagrid var mjög áhyggjufullur.

„Gæti það verið varúlfur sem drepur einhyrningana?“ spurði Harry.

„Hann er ekki nógu fljótur til þess,“ sagði Hagrid. „Það er ekki hlaupið að því að veiða einhyrninga. Þeir eru voldugar töfraverur. Ég veit ekki til þess að einhyrningi hafi nokkurn tíma áður verið gert mein.“

Þau gengu framhjá mosavöxnum trjádrumbi. Harry heyrði vatnsnið, það hlaut að vera lækur í grenndinni. Enn sást einhyrningsblóð hér og þar á bugðóttum stígnum.

„Er allt í lagi með þig, Hermione?“ hvíslaði Hagrid. „Vertu óhrædd. Hann getur ekki verið langt undan ef hann er illa særður. Og þegar við finnum hann getum við – Flýtið ykkur! Felið ykkur á bak við tréð!“

Hagrid greip Harry og Hermione í fangið, hann bar þau út af stígnum og á bak við stórt eikartré. Hann spennti bogann með einni af örvunum og stóð grafkyrr, tilbúinn að skjóta. Öll þrjú sperrtu eyrun. Eitthvað skreið yfir fölnað laufið skammt frá. Hljóðið var því líkast sem skikkja væri dregin eftir jörðinni. Hagrid pírði augun og horfði upp eftir dimmum stígnum en eftir fáein andartök var hljóðið dáið út.

„Ég vissi það,“ muldraði hann. „Það er eitthvað í skóginum sem ekki á heima hér.“

„Varúlfur?“ stakk Harry upp á.

„Þetta var ekki varúlfur og heldur ekki einhyrningur,“ sagði Hagrid hörkulega. „Jæja, fylgið mér en farið varlega.“

Þau gengu hægar og hlustuðu eftir minnsta hljóði. Skyndilega sáu þau hreyfingu í rjóðri framundan.

„Hver er þar?“ kallaði Hagrid. „Gefðu þig fram – ég er vopnaður!“ Út úr rjóðrinu steig – var þetta maður eða hestur? Ofan mittis var þetta maður með rautt hár og skegg en fyrir neðan mitti var rauðbrúnn hestsbúkur með langt, rauðleitt tagl. Harry og Hermione göptu.

„Nú, þetta ert þú, Ronan,“ sagði Hagrid feginn. „Hvernig hefurðu það?“

Hann gekk til hans og tók í höndina á honum.

„Góða kvöldið, Hagrid,“ sagði Ronan. Rödd hans var djúp og dapurleg. „Ætlaðirðu að skjóta mig?“

„Það er aldrei of varlega farið, Ronan,“ sagði Hagrid og klappaði á lásbogann. „Það er eitthvað óhreint á kreiki hérna í skóginum. Þetta eru Harry Potter og Hermione Granger. Þau eru nemendur við skólann. Og þetta er Ronan. Hann er kentár.“

„Við tókum eftir því,“ sagði Hermione uppburðalítil.

„Gott kvöld,“ sagði Ronan. „Svo að þið eruð nemendur? Lærið þið eitthvað nytsamlegt í skólanum?“

„Ja …“

„Pínulítið,“ sagði Hermione feimnislega.

„Pínulítið. Jæja, það er þó eitthvað.“ Ronan andvarpaði. Hann kastaði höfðinu aftur og starði upp í himinhvolfið. „Mars skín skært í nótt.“

„Já, það er satt,“ sagði Hagrid og gaut augunum upp í himininn. „Heyrðu, ég er feginn að við rákumst á þig, Ronan, einhyrningur hefur verið særður. Hefurðu séð eitthvað óvenjulegt?“

Ronan svaraði ekki strax. Hann starði áfram upp í himininn án þess að depla auga. Svo andvarpaði hann aftur.

„Það eru alltaf þeir saklausu sem verða fyrstu fórnarlömbin,“ sagði hann. „Þannig hefur það alltaf verið og þannig er það enn.“

„Já,“ sagði Hagrid, „en hefurðu orðið var við eitthvað, Ronan? Eitthvað óvenjulegt?“

„Mars skín skært í nótt,“ endurtók Ronan. Hagrid horfði óþolinmóður á hann. „Óvenju skært.“

„Já, en ég átti við eitthvað óvenjulegt hérna niðri á jörðinni,“ sagði Hagrid. „Þú hefur sem sagt ekki tekið eftir neinu skrítnu?“

Enn tók Ronan sér langa málhvíld. Loks sagði hann: „Í skóginum búa mörg leyndarmál.“

Þau sáu hreyfingu á milli trjánna og Hagrid hóf upp bogann, en þetta var bara annar kentár, svarthærður með svartan hestsbúk. Hann var villtari í útliti en Ronan.

„Hæ, Bane,“ sagði Hagrid. „Er ekki allt gott að frétta?“

„Gott kvöld, Hagrid, ég vona að þér líði vel.“

„Ágætlega. Heyrðu, ég var einmitt að spyrja Ronan hvort hann hefði rekist á eitthvað óvenjulegt. Ég fann særðan einhyrning – veist þú eitthvað um það?“

Bane gekk til Ronans og stillti sér upp við hlið hans. Hann horfði til himins.

„Mars skín skært í nótt,“ sagði hann bara.

„Við vorum búin að heyra það,“ sagði Hagrid fúll. „Jæja, ef annar hvor ykkar verður var við eitthvað, látið mig þá endilega vita. Við skulum drífa okkur af stað.“

Harry og Hermione eltu hann út úr rjóðrinu og störðu um öxl á Ronan og Bane þar til trén byrgðu þeim sýn.

„Það er aldrei hægt að fá skýr svör frá kentárum,“ sagði Hagrid pirraður. „Bölvaðir skýjaglópar. Hafa ekki áhuga á neinu nema himintunglunum.“

„Eru margir kentárar í skóginum?“ spurði Hermione.

„Ja, þónokkrir … Halda sig að mestu út af fyrir sig en birtast yfirleitt ef ég þarf að eiga við þá orð. Kentárarnir eru djúpvitrir … þeir vita meira en þeir láta uppi.“

„Heldurðu að það hafi verið kentár sem við heyrðum í áðan?“ spurði Harry.

„Fannst þér þetta hljóma eins og hófatak? Nei, ég held að þetta hafi verið það sem drap einhyrningana – ég hef aldrei áður heyrt neitt þessu líkt.“

Þau gengu áfram í gegnum skógarþykknið. Harry var taugaóstyrkur og leit í sífellu um öxl. Hann hafði það á tilfinningunni að fylgst væri með þeim. Hann var feginn að vera með Hagrid og lásboganum hans. Þegar þau komu fyrir bugðu á stígnum greip Hermione í ermi Hagrids.

„Hagrid! Sjáðu! Rauðir neistar, hinir eru í vandræðum!“

„Þið bíðið hér!“ hrópaði Hagrid. „Haldið ykkur á stígnum, ég kem aftur og næ í ykkur!“

Þau heyrðu hann brjótast í gegnum lággróðurinn og störðu hvort á annað dauðskelkuð. Fljótlega heyrðist ekkert nema skrjáfið í laufblöðunum.

„Heldurðu nokkuð að þeir séu slasaðir?“ hvíslaði Hermione.

„Mér er sama um Draco, en ef eitthvað kæmi fyrir Neville … Það er okkur að kenna að hann er hérna.“

Tíminn stóð í stað. Heyrn þeirra virtist skarpari en venjulega. Harry fannst hann heyra hverja vindhviðu og hvert skrjáf. Hvað var eiginlega á seyði? Hvar voru hinir? Loks heyrðu þau brak og bresti og vissu að Hagrid var á leiðinni til baka. Neville og Draco voru með honum. Hagrid var öskuillur. Það kom í ljós að Draco hafði læðst aftan að Neville og gripið í hann til að hræða hann. Neville hafði orðið skelfingu lostinn og skotið neistunum upp.

„Við erum heppin ef við handsömum eitthvað eftir öll lætin í ykkur tveimur. Við skiptum okkur öðruvísi niður núna – Neville, þú verður með mér og Hermione. Harry, þú ferð með Tryggi og bjánanum. Fyrirgefðu,“ bætti Hagrid við hvíslandi að Harry, „en honum tekst ekki jafn auðveldlega að hræða þig og við verðum að halda áfram.“

Svo Harry lagði af stað inn í myrkviði skógarins ásamt Draco og Tryggi. Þegar þeir höfðu gengið í um það bil hálftíma voru þeir komnir djúpt inn í skóginn. Trén stóðu svo þétt að þeir áttu erfitt með að komast leiðar sinnar. Harry fannst blóðblettirnir á jörðinni verða sífellt stærri. Þeir sáu blóð á trjábol sem gaf til kynna að aumingja dýrið hefði misst fótanna. Harry rýndi í gegnum kræklóttar greinar gamallar eikar og kom auga á rjóður framundan.

„Sjáðu," sagði hann lágt um leið og hann greip í Draco. Eitthvað skínandi hvítt lá á jörðinni. Þeir fikruðu sig nær.

Þetta var einhyrningurinn og hann var dáinn. Harry hafði aldrei séð neitt jafn fagurt og dapurlegt. Langir, grannir fætur hans sköguðu út frá búknum og perluhvítur makkinn flæddi yfir dökkt laufið.

Harry nálgaðist hann en lágvært þrusk varð til þess að hann fraus í sporunum. Einn runninn í rjóðrinu hreyfðist … út úr skugganum skreið hettuklædd vera eins og rándýr í átt að bráð sinni. Harry, Draco og Tryggur stóðu stjarfir af hræðslu. Þegar skikkjuklædda veran kom að einhyrningnum beygði

hún sig yfir sár á síðu hans og byrjaði að drekka úr honum blóðið.

„AAAAAAAAAAARG!“

Draco gaf frá sér ægilegt öskur og tók á rás – hið sama gerði Tryggur. Hettuklædda veran leit upp og beint á Harry. Einhyrningsblóðið lak niður eftir andlitinu. Veran reis á fætur og gekk hratt í áttina að honum – Harry var svo hræddur að hann gat sig hvergi hrært.

Þá fann hann hræðilegan sársauka nísta höfuðið, það var eins og örið á enni hans stæði í ljósum logum – hálfblindaður skjögraði hann aftur á bak. Hann heyrði hófatak fyrir aftan sig. Eitthvað flaug yfir hann í gríðarlegu stökki og stefndi beint á veruna.

Verkurinn í höfði Harrys var svo yfirþyrmandi að hann féll niður á hnén. Það liðu nokkrar mínútur þar til sársaukinn leið hjá. Þegar hann leit upp var veran horfin. Yfir honum stóð kentár. Það var hvorki Ronan né Bane; þessi var unglegri; hann var bjarthærður með leirljósan skrokk.

„Ertu ómeiddur?“ spurði hann um leið og hann hjálpaði Harry á fætur.

„Já – takk – hvað var þetta eiginlega?“

Kentárinn svaraði ekki. Hann hafði ótrúlega blá augu, líkust ljósum safírum. Hann horfði rannsakandi á Harry og lét augun hvíla á þrútnu, kríthvítu örinu.

„Þú ert Potterstrákurinn,“ sagði hann. „Þú ættir að fara aftur til Hagrids. Skógurinn er ekki öruggur staður eins og er – síst fyrir þig. Kanntu að sitja hest? Þá komumst við hraðar.

Ég heiti Flórens,“ bætti hann við um leið og hann fór niður á framfæturna svo að Harry gæti klifrað á bak.

Skyndilega heyrðist hávær hófadynur úr hinum enda rjóðursins. Ronan og Bane ruddust fram í gegnum trjáþykknið glansandi sveittir á skrokkinn.

„Flórens!“ þrumaði Bane. „Hvað ertu að gera? Þú ert með mann á bakinu! Skammastu þín ekki? Þú hagar þér eins og lítilfjörlegt múldýr!“

„Gerirðu þér grein fyrir því hver þetta er?“ sagði Flórens. „Þetta er Potterstrákurinn. Því fyrr sem hann kemst út úr skóginum, því betra.“ „Hvað sagðirðu honum?“ urraði Bane. „Mundu, Flórens, að við höfum svarið að setja okkur ekki upp á móti forsjóninni. Við höfum séð framtíðina í hreyfingum himintunglanna!“ Ronan krafsaði órólegur í jörðina.

„Ég er viss um að Flórens gerði það sem hann taldi réttast,“ sagði hann með sinni dapurlegu röddu.

Bane sparkaði frá sér með afturfótunum af reiði.

„Taldi réttast! Hvað kemur okkur þetta við? Kentárar fást við spádóma! Það er ekki í okkar verkahring að eltast eins og asnar við fólk sem hefur villst í skóginum!“

Skyndilega prjónaði Flórens af reiði. Harry varð að grípa um axlir hans til að detta ekki af baki.

„Sérðu ekki einhyrninginn sem liggur þarna?“ æpti Flórens á Bane. „Skilurðu ekki hvers vegna hann var drepinn? Eða gleymdu himintunglin að segja þér frá því? Ég vil berjast gegn því sem leynist hérna í skóginum. Jafnvel þó að það þýði að ég þurfi að slást í lið með mönnum.“

Með þessum orðum snerist Flórens á hæli og þeysti af stað á milli trjánna. Harry ríghélt um hálsinn á honum þegar þeir þutu á brott frá Bane og Ronan.

Harry botnaði hvorki upp né niður í neinu.

„Af hverju var Bane svona reiður?“ spurði hann. „Og hvaða vera var þetta eiginlega sem þú bjargaðir mér frá?“

Flórens hægði á ferðinni og sagði Harry að beygja höfuðið svo að hann ræki sig ekki upp undir slútandi greinar en hann svaraði spurningunum engu. Lengi vel héldu þeir þögulir áfram. Harry var farinn að halda að Flórens vildi ekkert við hann tala meir en skyndilega nam hann staðar í þéttu skógarþykkni.

„Harry Potter, veist þú til hvers einhyrningablóð er notað?“

„Nei,“ sagði Harry. Þessi undarlega spurning kom honum úr jafnvægi. „Við höfum bara notað hornin og hár úr taglinu í töfradrykkjatímum.“

„Það er vegna þess að það er andstyggilegur glæpur að drepa einhyrning,“ sagði Flórens. „Aðeins sá sem hefur allt að vinna og engu að tapa myndi gera slíkt. Einhyrningablóð getur haldið í manni lífinu jafnvel þótt maður sé við dauðans dyr. En það er dýrkeypt. Sá sem drepur svo óflekkað og varnarlaust dýr sjálfum sér til bjargar mun lifa í bölvun frá því augnabliki sem blóðið snertir varir hans.“

Harry starði á hnakkann á Flórens sem skein eins og silfur í tunglsljósinu.

„En hver gæti verið svo örvæntingarfullur?“ velti hann upphátt fyrir sér. „Ef maður á eilífa bölvun fyrir höndum, er þá ekki betra að deyja?“

„Jú, það er rétt,“ samþykkti Flórens, „nema maður þurfi bara að halda í sér lífinu þar til maður getur drukkið eitthvað annað – eitthvað sem endurvekur lífskraftinn – eitthvað sem veitir ódauðleika. Herra Potter, veist þú hvað er falið í skólanum?“

„Viskusteinninn! Auðvitað – ódáinsveigin! En ég skil ekki hver …“

„Dettur þér enginn í hug sem hefur beðið í mörg ár eftir að komast aftur til valda? Einhver sem hefur haldið dauðahaldi í lífið í von um annað tækifæri?“

Harry fannst skyndilega sem járnkrumla hefði gripið um hjarta hans. Gegnum þytinn í trjánum fannst honum hann heyra enduróminn af því sem Hagrid hafði sagt við hann kvöldið sem þeir hittust fyrst: „Sumir halda því fram að hann hafi dáið. Ég held að það sé bölvað þvaður. Ég efast um að hann hafi verið nógu mannlegur til að geta dáið.“

„Áttu við,“ sagði Harry hás, „að þetta hafi verið Vol…“

„Harry! Harry, er allt í lagi með þig?“

Hermione kom hlaupandi eftir stígnum, með Hagrid másandi á hælunum.

„Já, allt í besta lagi,“ sagði Harry. Hann var svo ringlaður að hann vissi varla hvað hann sagði. „Einhyrningurinn er dáinn, Hagrid. Hann er í rjóðri aðeins lengra inni í skóginum.“

„Nú fer ég,“ sagði Flórens lágt um leið og Hagrid hljóp framhjá þeim til að huga að einhyrningnum. „Nú ert þú óhultur.“ Harry lét sig síga niður af baki hans.

„Gangi þér vel, Harry Potter,“ sagði Flórens. „Himintunglin hafa verið mistúlkuð áður. Ég vona að það hafi einnig gerst í þetta sinn.“ Hann sneri sér við og fór á stökki inn í myrkviði skógarins en Harry stóð eftir skjálfandi á beinunum.

Ron hafði sofnað í rökkvaðri setustofunni á meðan hann beið þess að þau kæmu aftur. Hann æpti eitthvað um Quidditchleikbrot þegar Harry vakti hann með látum. En hann glaðvaknaði um leið og Harry byrjaði að segja honum og Hermione frá viðburðum næturinnar.

Harry gat ekki setið kyrr. Hann stikaði fram og til baka við arininn, og var enn ekki hættur að skjálfa.

„Snape vill fá steininn handa Voldemort … og Voldemort bíður inni í skóginum … og við sem héldum allan tímann að Snape vildi bara verða ríkur …“

„Hættu að nefna þetta nafn!“ hvíslaði Ron skelfingu lostinn eins og hann byggist við að Voldemort gæti heyrt til þeirra.

Harry hlustaði ekki á hann.

„Flórens bjargaði mér, en hann átti ekki að gera það … Bane var öskureiður … hann talaði um að skipta sér af spádómum himintunglanna … Þau hljóta þá að spá því að Voldemort muni snúa aftur … Bane fannst að Flórens hefði átt að leyfa Voldemort að drepa mig … ætli það sé ekki skrifað í stjörnurnar líka?“ „Viltu hætta að tönnlast á þessu nafni!“ hvæsti Ron.

„Nú bíð ég bara eftir að Snape steli steininum,“ hélt Harry æstur áfram. „Þá getur Voldemort komið og gengið frá mér … Bane verður í það minnsta feginn.“

Hermione var mjög skelkuð á svip en hún átti samt til huggunarorð handa Harry.

„Harry, það er sagt að Dumbledore sé sá eini sem Þú-veist-hver óttast. Á meðan Dumbledore er hér mun Þú-veist-hver ekki gera þér mein. Og hver segir að kentárarnir hafi rétt fyrir sér? Mér finnst þetta hljóma eins og kristalskúluspádómur og McGonagall prófessor segir að það sé mjög ónákvæm tegund galdra.“

Það var orðið bjart þegar þau skriðu loks uppgefin upp í rúm. En ævintýri næturinnar voru ekki á enda.

Þegar Harry dró rúmteppið til hliðar fann hann huliðsskikkjuna vandlega samanbrotna undir því. Við hana var festur miði:

Til öryggis.

# Sextándi kafli

# Undir hlerann

Harry átti hálfpartinn von á að Voldemort ryddist inn um dyrnar á hverri stundu. Þegar hann hugsaði um það seinna skildi hann ekki hvernig honum hafði tekist að komast í gegnum prófin. En dagarnir liðu og það lék enginn vafi á því að Hnoðri var enn stálsleginn á bak við læstu dyrnar á ganginum.

Það var kæfandi hiti, sérstaklega í stóru kennslustofunni þar sem skriflegu prófin fóru fram. Þeim höfðu verið gefnir nýir fjaðurpennar sem voru í svindlvarnarálögum.

Þau fóru líka í verkleg próf. Flitwick prófessor kallaði þau inn til sín eitt og eitt til að prófa hvort þau gætu látið ananas steppa yfir kennaraborðið. McGonagall prófessor fylgdist með þeim breyta mús í neftóbaksdós – stig voru gefin eftir því hversu snotur neftóbaksdósin var, og dregin frá ef dósin var með veiðihár. Snape tók þau á taugum með því að hafa ekki

af þeim augun á meðan þau einbeittu sér að því að muna innihaldið í gleymskudrykknum.

Harry gerði sitt besta og reyndi að hunsa nístandi sársaukann í enninu. Hann hafði kvalið Harry alveg síðan í skógarferðinni. Neville hélt að Harry væri illa haldinn af prófkvíða af því að hann gat ekki sofið. Sannleikurinn var hins vegar sá að Harry hrökk upp á næturnar þjakaður af martröðum um hettuklædda veru með blóðtauma niður eftir andlitinu.

Ron og Hermione virtust ekki hafa jafn miklar áhyggjur af steininum og Harry. Kannski var ástæðan sú að þau höfðu ekki upplifað það sama og Harry inni í skóginum eða að þau voru ekki með brennandi ör á enninu. Tilhugsunin um Voldemort skelfdi þau svo sannarlega en hún hélt ekki fyrir þeim vöku. Auk þess voru þau svo upptekin við lestur að þau höfðu ekki mikinn tíma til að velta sér upp úr því hvað Snape eða aðrir hygðust fyrir.

Allra síðasta prófið var saga galdranna. Í heila klukkustund þurftu þau að svara spurningum um gamla, klikkaða galdramenn sem höfðu fundið upp seiðpotta sem hrærðu í sér sjálfir. Síðan væru þau frjáls, frjáls eins og fuglinn í heila, dásamlega viku þangað til þau fengju einkunnirnar sínar.

Þegar draugur Binns prófessors sagði þeim að leggja frá sér fjaðurpennana og rúlla upp pergamentinu gat Harry ekki annað en glaðst með hinum.

„Þetta var miklu auðveldara en ég bjóst við," sagði Hermione þegar þau slógust í hóp með hinum nemendunum sem þyrptust út á sólrík engin í kringum kastalann. „Ég hefði ekki þurft að læra hegðunarreglur varúlfa frá 1637 eða uppreisn hins ákafa Elfrics."

Hermione vildi alltaf fara í gegnum prófin með þeim eftir á, en Ron sagði að sér yrði óglatt af því, svo að þau röltu niður að vatninu og fleygðu sér undir tré. Weasleytvíburarnir og Lee Jordan stóðu við bakkann og kitluðu sofandi kolkrabba undir örmunum.

„Ekki meiri próflestur," andvarpaði Ron alsæll og teygði úr sér í grasinu. „Þú mættir nú vera örlítið glaðlegri, Harry. Það er vika þangað til við fáum slæmu fréttirnar, það er engin ástæða til að hafa áhyggjur fyrr."

Harry nuddaði á sér ennið.

„Ég vildi að ég vissi hvað þetta þýddi!“ sagði hann reiðilega. „Ég finn stöðugt til í örinu – það hefur gerst áður, en það hefur aldrei verið jafn sárt og núna.“

„Farðu til fröken Pomfrey,“ stakk Hermione upp á.

„Ég er ekki veikur,“ sagði Harry. „Ég held að þetta sé fyrirboði … það er hætta á ferðum …“

Það var of heitt til að Ron megnaði að verða æstur.

„Harry, slakaðu á. Hermione hefur á réttu að standa, steinninn er öruggur á meðan Dumbledore er nálægur. Og þar að auki höfum við aldrei fengið sönnun fyrir því að Snape viti hvernig hægt er að komast framhjá Hnoðra. Fóturinn var næstum rifinn af honum í eitt skiptið þannig að hann mun fara varlega næst. Og Neville verður orðinn Quidditchstjarna áður en Hagrid svíkur Dumbledore.“

Harry kinkaði kolli en gat samt ekki losað sig við þá tilfinningu að hann hefði gleymt að gera eitthvað, eitthvað mikilvægt. Þegar hann reyndi að útskýra þetta sagði Hermione: „Þetta eru bara prófin. Ég vaknaði í nótt og var byrjuð að lesa

ummyndunarglósurnar þegar ég mundi að við vorum búin með það próf.“

Harry var nokkuð viss um að óróleiki hans stóð ekki í neinu sambandi við skólavinnuna. Hann fylgdist með uglu flögra yfir bláan himininn í átt til skólans. Í goggnum glampaði á bréf. Hagrid var sá eini sem hafði nokkurn tíma sent honum bréf. Hagrid myndi aldrei bregðast trausti Dumbledore. Hagrid myndi aldrei segja neinum hvernig hægt væri að komast framhjá Hnoðra … aldrei … en – Skyndilega stökk Harry á fætur.

„Hvert ertu að fara?“ spurði Ron syfjulega.

„Mér datt dálítið í hug,“ sagði Harry. Hann var orðinn náfölur. „Við verðum að finna Hagrid og það strax.“

„Af hverju?“ másaði Hermione. Hún varð að hlaupa við fót til að dragast ekki aftur úr.

„Finnst ykkur ekki svolítið skrítið,“ sagði Harry um leið og hann klöngraðist upp grasi vaxna brekkuna, „að Hagrid þráir heitast af öllu að eignast dreka og þá birtist aðkomumaður sem er einmitt með egg í vasanum? Hvað haldið þið að

margir gangi um með drekaegg þegar það er bannað samkvæmt lögum galdramanna? Það var einstaklega heppilegt að hann skyldi einmitt rekast á Hagrid, ekki satt? Af hverju hef ég ekki hugsað út í þetta fyrr?“

„Hvað ertu að tala um?“ sagði Ron, en Harry hljóp bara allt hvað af tók í áttina að kofanum í skógarjaðrinum.

Hagrid sat í ruggustól fyrir utan húsið. Hann var að afhýða baunir í stóra skál með skálmar og ermar uppbrettar.

„Halló,“ sagði hann brosandi. „Eruð þið búin með prófin? Langar ykkur í svaladrykk?“

„Já, takk,“ sagði Ron, en Harry greip fram í.

„Nei, við erum að flýta okkur. Hagrid, ég þarf að spyrja þig að dálitlu. Manstu kvöldið sem þú vannst Norbert í spilum … hvernig leit aðkomumaðurinn út?“

„Ég veit það ekki,“ svaraði Hagrid kæruleysislega. „Hann vildi ekki taka af sér hettuna.“

Hann sá að þau störðu agndofa á hann og lyfti brúnum.

„Það er ekkert óvenjulegt. Það er fullt af skrítnu fólki á Glaða villigeltinum – það er kráin niðri í þorpi. Hann hefur líklega bara verið drekasali. En eins og ég sagði, þá sá ég aldrei framan í hann.“ Harry seig niður við hliðina á baunaskálinni.

„Hvað töluðuð þið um, Hagrid? Nefndirðu Hogwartskóla við hann?“

„Getur vel verið,“ sagði Hagrid og hnyklaði brýnnar þungt hugsi. „Já … hann spurði hvar ég ynni, og ég sagði honum að ég væri eftirlitsmaður hérna … og hann spurði mig hverju ég hefði eftirlit með … svo að ég sagði honum það … og ég sagði honum að mig hefði alltaf langað að eignast dreka … og svo … ég man þetta ekki greinilega, hann var alltaf að bjóða mér drykki … Látum okkur sjá … jú, svo sagðist hann vera með drekaegg og að við gætum spilað upp á það ef ég vildi. En hann vildi vera viss um að ég gæti séð um dreka … hann vildi ekki láta hann í hendurnar á hverjum sem væri … þá sagði ég honum að eftir að hafa annast Hnoðra yrði dreki ekkert mál …“ „Og virtist hann vera áhugasamur um Hnoðra?“ spurði Harry og reyndi að halda stillingu sinni.

„Já, hann var það. Enda eru þríhöfða hundar ekki beinlínis algengir, ekki einu sinni í Hogwartskóla. Ég sagði honum að ég hefði aldrei átt í vandræðum með Hnoðra. Maður spilar bara dálitla tónlist fyrir hann og þá sofnar hann eins og skot …“

Hagrid þagnaði skyndilega skelfdur á svip þegar hann áttaði sig á því hvað hann hafði sagt.

„Ég hefði ekki átt að segja ykkur þetta!“ sagði hann. „Gleymið þessu! Hæ – hvert eruð þið að fara?“

Harry, Ron og Hermione mæltu ekki orð af vörum fyrr en þau námu staðar inni í forsalnum sem virtist kaldur og drungalegur eftir sólskinið úti.

„Við verðum að fara til Dumbledore,“ sagði Harry. „Hagrid sagði þessum manni hvernig hægt er að komast framhjá Hnoðra, og það var annaðhvort Snape eða Voldemort sem faldi sig undir skikkjunni – það hefur verið auðvelt að fá Hagrid til að leysa frá skjóðunni þegar hann var orðinn fullur. Ég vona bara að Dumbledore trúi okkur. Flórens myndi kannski styðja frásögnina ef Bane bannar honum það ekki. Hvar er skrifstofan hans Dumbledores?“

Þau litu í kringum sig eins og þau vonuðust til að finna skilti sem vísaði þeim í réttu áttina. Þeim hafði aldrei verið sagt hvar Dumbledore byggi. Þau vissu heldur ekki til þess að neinn hefði verið sendur til hans.

„Við verðum bara að …“ byrjaði Harry en hvell rödd úr hinum enda forsalarins stöðvaði hann.

„Hvað eruð þið að gera hér?“

Þetta var McGonagall prófessor með stafla af bókum í fanginu.

„Við þurfum að tala við Dumbledore prófessor,“ sagði Hermione blátt áfram. Harry og Ron fannst það mjög hugað af henni.

„Tala við Dumbledore prófessor?“ endurtók McGonagall, eins og þau hefðu eitthvað óhreint í pokahorninu. „Af hverju?“

Harry kyngdi – hvað nú?

„Það er eiginlega leyndarmál,“ sagði hann, en iðraðist þess samstundis þegar hann sá að nasavængir McGonagall þöndust út.

„Dumbledore prófessor fór héðan fyrir tíu mínútum,“ sagði hún kuldalega. „Hann fékk áríðandi uglu frá galdramálaráðuneytinu og flaug undireins af stað.“

„Er hann farinn?“ sagði Harry örvæntingarfullur. „Einmitt núna?“

„Dumbledore prófessor er mikill galdramaður, Potter. Hann hefur mörgum skyldum að gegna …“

„En þetta er mikilvægt.“

„Er erindi þitt mikilvægara en málefni hjá galdramálaráðuneytinu, Harry?“

„Sjáðu til,“ sagði Harry og fleygði allri varkárni út í veður og vind, „þetta snýst um viskusteininn …“

McGonagall prófessor átti svo sannarlega ekki von á þessu. Bækurnar hrundu úr fanginu á henni án þess að hún gerði tilraun til að taka þær upp aftur.

„Hvernig veist þú um …?“ stamaði hún.

„Prófessor, ég held – ég veit að Sn – að einhver ætlar að stela steininum. Ég verð að tala við Dumbledore prófessor.“

Hún starði á hann með samblandi af geðshræringu og tortryggni.

„Dumbledore kemur aftur á morgun,“ sagði hún loks. „Ég veit ekki hvernig þú veist af steininum en ég get fullvissað þig um að það er ómögulegt að stela honum. Hann er vel varinn.“

„En prófessor …“

„Harry, ég veit vel um hvað ég er að tala,“ sagði hún stutt í spuna. Hún beygði sig niður og safnaði saman bókunum. „Ég held að þið ættuð að fara aftur út í góða veðrið.“ En það gerðu þau ekki.

„Þetta gerist í nótt,“ sagði Harry um leið og McGonagall heyrði ekki lengur til þeirra. „Snape ætlar undir hlerann í nótt. Hann er búinn að komast að því sem hann þarf að vita og nú hefur hann líka losað sig við Dumbledore. Hann sendi bréfið til Dumbledore. Ég er viss um að þau verða undrandi í galdramálaráðuneytinu þegar Dumbledore birtist.“

„En hvað getum við …“

Hermione tók andköf. Harry og Ron snarsneru sér við.

Á bak við þau stóð Snape.

„Góðan dag,“ sagði hann ísmeygilega.

Þau störðu á hann.

„Þið ættuð ekki að vera inni á svona fögrum degi,“ sagði hann með skrítnu brosi.

„Við vorum …“ byrjaði Harry án þess að hafa hugmynd um hvað hann ætlaði að segja.

„Þið skuluð gæta ykkar,“ sagði Snape. „Ef þið læðupokist svona um fer fólk að halda að eitthvað gruggugt sé á seyði. Og Gryffindor má alls ekki við því að missa fleiri stig, er það nokkuð?“

Harry roðnaði. Þau voru næstum komin að útidyrunum þegar Snape kallaði til þeirra.

„Ég vil benda þér á, Harry, að ef þú verður aftur uppvís að næturflakki mun ég persónulega sjá til þess að þú verðir rekinn. Verið þið sæl.“

Hann snerist á hæli og stikaði í átt að kennarastofunni.

Harry sagði ekkert fyrr en þau voru komin út á tröppurnar.

„Allt í lagi, ég veit hvað við gerum,“ hvíslaði hann ákafur. „Eitt okkar hefur gætur á Snape – bíður fyrir utan kennarastofuna og eltir hann ef hann fer eitthvað. Hermione, það er best að þú gerir það.“

„Af hverju ég?“

„Það er augljóst,“ sagði Ron. „Þú þykist vera að bíða eftir Flitwick prófessor.“ Hann gerði sig skrækróma. „Ó, Flitwick prófessor, ég hef svo miklar áhyggjur. Ég held ég hafi svarað spurningu fjórtán b vitlaust …“

„Æi, þegiðu,“ sagði Hermione, en samþykkti þó að fylgjast með Snape.

„Og við skulum bíða fyrir utan dyrnar á ganginum á þriðju hæð,“ sagði Harry við Ron. „Komdu.“

En þessi hluti áætlunarinnar gekk ekki upp. Þeir voru ekki fyrr komnir að hurðinni sem aðskildi þá frá Hnoðra en McGonagall prófessor birtist og nú missti hún stjórn á skapi sínu.

„Þið haldið greinilega að erfiðara sé að komast framhjá ykkur en mögnuðustu göldrum sem til eru!“ þrumaði hún. „Nú er nóg komið af þessari vitleysu! Ef ég sé ykkur aftur í grennd við ganginn dreg ég önnur fimmtíu stig af Gryffindor! Já, Ron, af minni eigin heimavist!“

Harry og Ron fóru aftur inn í setustofuna. Harry hafði rétt sleppt orðunum: „Hermione er að minnsta kosti á hælunum á

Snape,“ þegar málverkið af feitu konunni sveiflaðist til hliðar og Hermione klifraði inn.

„Fyrirgefðu, Harry!“ kveinaði hún. „Snape kom út og spurði hvað ég væri að gera. Þegar ég sagðist vera að bíða eftir Flitwick fór hann inn til að ná í hann. Ég neyddist til að vera um kyrrt og tala við hann á meðan Snape stakk af. Ég hef ekki hugmynd um hvert hann fór!“ „Þá er bara um eitt að ræða,“ sagði Harry.

Hin tvö störðu á hann. Hann var náfölur og augun í honum skutu gneistum.

„Ég læðist út í nótt og reyni að verða fyrri til að ná steininum.“ „Þú ert brjálaður!“ sagði Ron.

„Þú mátt það ekki!“ sagði Hermione. „Eftir það sem McGonagall og Snape sögðu? Þú verður rekinn!“

„Og hvað með það?“ hrópaði Harry. „Skiljið þið þetta ekki? Ef Snape nær steininum mun Voldemort snúa aftur! Hafið þið ekki heyrt hvernig ástandið var þegar hann var að reyna að komast til valda? Það verður ekki til neinn Hogwartskóli sem nokkur verður rekinn úr! Hann mun jafna hann við jörðu eða

gera úr honum skóla fyrir myrku öflin! Í samanburði við það skipta töpuð stig engu máli lengur! Haldið þið að hann muni láta ykkur og fjölskyldur ykkar í friði ef hann nær völdum? Ef ég verð gripinn áður en ég næ steininum, þá fer ég bara aftur til Dursleyfjölskyldunnar og bíð eftir að Voldemort finni mig þar. Þá dey ég bara aðeins seinna en hann hafði reiknað með, því ég mun aldrei ganga til liðs við myrku öflin! Ég ætla undir hlerann í kvöld og þið getið ekki fengið mig ofan af því! Þið munið væntanlega að Voldemort drap foreldra mína?“ Harry hvessti á þau augun.

„Þú hefur rétt fyrir þér, Harry,“ sagði Hermione mjóróma.

„Ég ætla að nota huliðsskikkjuna,“ sagði Harry. „Það er eins gott að ég fékk hana aftur.“

„En getur hún hulið okkur öll þrjú?“ sagði Ron.

„Öll – öll þrjú?“

„O, láttu ekki svona. Þú heldur þó ekki að við látum þig fara einan?“

„Auðvitað ekki,“ sagði Hermione röggsamlega. „Hvernig ættir þú svo sem að ná steininum án okkar hjálpar? Ég ætti að glugga aðeins í bækurnar mínar. Kannski finn ég eitthvað gagnlegt …“

„En ef ég verð gripinn, þá verðið þið líka rekin.“

„Ég myndi ekki vera of viss um það,“ sagði Hermione án þess að haggast. „Flitwick hvíslaði því að mér að ég hefði fengið hundrað og tólf prósent á prófinu hans. Mér verður ekki hent út eftir það.“

Eftir kvöldmat sátu þau og biðu taugaóstyrk í setustofunni. Enginn truflaði þau; það vildi hvort sem er enginn tala við Harry lengur. Þetta var í fyrsta sinn sem hann kippti sér ekki upp við það. Hermione blaðaði í gegnum glósurnar sínar í von um að rekast á einn af göldrunum sem þau ætluðu að reyna að aflétta í nótt. Harry og Ron sögðu fátt. Báðir voru þeir með hugann við leiðangurinn framundan.

Smám saman tæmdist setustofan þegar nemendurnir tíndust einn af öðrum í rúmið.

„Við skulum ná í skikkjuna,“ muldraði Ron þegar Lee Jordan geispaði og yfirgaf loks setustofuna. Harry hljóp upp stigann og inn í myrkvaðan svefnsalinn. Þegar hann dró fram skikkjuna kom hann auga á flautuna sem Hagrid hafði gefið honum í jólagjöf. Hann stakk henni í vasann til að nota á Hnoðra – hann var ekki í skapi til að syngja.

Hann hljóp aftur niður í setustofuna.

„Við skulum prófa skikkjuna hérna til að athuga hvort hún hylur okkur öll – ef Filch kemur nú auga á fótlegg sem ráfar um einn síns liðs ...“

„Hvað eruð þið að gera?“ heyrðist úr einu horni herbergisins. Neville skaut upp kollinum á bak við hægindastól. Í fanginu hélt hann á körtunni Trevor sem leit út fyrir að hafa gert enn eina tilraunina til að flýja.

„Ekkert, Neville, ekkert,“ sagði Harry og faldi skikkjuna í flýti fyrir aftan bak.

Neville starði á sakbitin andlit þeirra.

„Þið ætlið aftur út,“ sagði hann.

„Nei, nei, nei,“ sagði Hermione. „Við ætlum ekkert út. Af hverju ferðu ekki í rúmið, Neville?“

Harry leit á standklukkuna við dyrnar. Þau máttu engan tíma missa. Snape gæti verið byrjaður að spila Hnoðra í svefn.

„Þið megið ekki fara út,“ sagði Neville, „þið verðið gripin aftur. Og Gryffindor lendir í enn meiri vandræðum.“

„Þú skilur ekki hvað um er að vera,“ sagði Harry. „Þetta er mikilvægt.“

En Neville var greinilega tilbúinn að grípa til örþrifaráða.

„Ég leyfi ykkur ekki að fara,“ sagði hann og stillti sér upp fyrir framan málverkið af feitu konunni. „Þið verðið að slást við mig ef þið ætlið að komast út!“

„Neville,“ Ron missti stjórn á sér. „Færðu þig frá gatinu og láttu ekki eins og fífl …“

„Þú skalt ekki kalla mig fífl!“ sagði Neville. „Þið eruð búin að brjóta meira en nóg af reglum! Og þú sagðir sjálfur að ég ætti að bjóða fólki birginn!“

„Já, en ekki okkur,“ hrópaði Ron örvæntingarfullur. „Neville, þú veist ekki hvað þú ert að gera!“

Hann tók eitt skref í áttina að honum og Neville missti Trevor sem stökk samstundis úr augsýn.

„Komdu bara ef þú þorir!“ sagði Neville og kreppti hnefana. „Ég er tilbúinn!“

Harry sneri sér að Hermione.

„Gerðu eitthvað,“ sagði hann örvæntingarfullur. Hermione steig fram.

„Neville,“ sagði hún. „Mér þykir þetta alveg hrikalega leitt.“ Hún hóf sprotann á loft.

„Petrificus Totalus!“ hrópaði hún og beindi sprotanum að Neville. Handleggir Nevilles smullu að síðunum. Fótleggirnir læst ust saman og líkami hans stífnaði. Hann riðaði og datt

svo endilangur á nefið. Hermione hljóp til hans og velti honum við. Kjálkar Nevilles voru fastir saman svo að hann gat ekki komið upp nokkru hljóði. Það eina sem hreyfðist voru augun og hann starði á þau skelfingu lostinn. „Hvað gerðirðu við hann?“ hvíslaði Harry.

„Ég lagði á hann líkamsfjötra,“ sagði Hermione vansæl. „Ó, Neville, mér þykir svo fyrir þessu.“

„Við áttum engra kosta völ, Neville. Og það er enginn tími til útskýringa,“ sagði Harry.

„Þú skilur þetta seinna,“ sagði Ron um leið og þau stigu yfir Neville og sveipuðu um sig huliðsskikkjunni.

En þeim fannst það heldur óþægilegur fyrirboði að skilja Neville eftir hreyfingarlausan á gólfinu. Þau voru svo taugaóstyrk að þeim þótti hver einasta stytta líkjast Filch og hver andblær hljómaði eins og Peeves kæmi á steypiflugi niður að þeim.

Neðst í fyrsta stiganum komu þau auga á frú Norris sem húkti á stigaskörinni.

„Æ, spörkum í rassinn á henni, bara í þetta eina skipti,“ hvíslaði Ron í eyrað á Harry en hann hristi höfuðið. Þau smeygðu sér varlega framhjá henni. Frú Norris beindi að þeim gulum skjáunum en aðhafðist ekkert.

Þau mættu engum fyrr en þau komu að stiganum sem lá upp á þriðju hæð. Peeves sveif um miðja vegu upp, önnum kafinn við að losa teppið svo að fólk hrasaði í því.

„Hver er þar?“ sagði hann skyndilega þegar þau læddust í áttina að honum. Hann pírði svört, illileg augun. „Ég veit að þú ert þarna þó að ég sjái þig ekki. Ertu andi, draugur eða bara lítið nemakríli?“ Hann hóf sig á loft og sveimaði yfir þeim.

„Á ég að kalla á Filch og segja honum að eitthvað læðist hér um óséð?“

Skyndilega fékk Harry hugmynd.

„Peeves,“ sagði hann með hásu hvísli, „Blóðugi baróninn hefur sínar eigin ástæður fyrir því að vera ósýnilegur.“

Peeves varð svo hræddur að engu munaði að hann hrapaði. Hann náði þó að rétta sig af og sveimaði óöruggur skammt fyrir ofan stigaþrepin.

„Biðst forláts, yðar blóðtign, herra barón,“ sagði hann smeðjulega.

„Ég fór mannavillt – ég sá yður ekki – auðvitað ekki, þér eruð ósýnilegur – fyrirgefið Peeves gamla, þetta var bara dálítið spaug, herra minn.“

„Ég þarf að sinna ákveðnum málum hér, Peeves,“ urgaði í Harry. „Haltu þig fjarri þessum stað í kvöld.“

„Það mun ég gera, herra,“ sagði Peeves og hóf sig á loft á ný, „það mun ég svo sannarlega gera. Ég vona að málin leysist farsællega. Nú ónáða ég yður ekki lengur.“ Og svo skaust hann í burtu.

„Frábært, Harry!“ hvíslaði Ron.

Andartaki síðar stóðu þau fyrir utan ganginn á þriðju hæð – dyrnar stóðu opnar í hálfa gátt.

„Þar höfum við það,“ sagði Harry hljóðlega. „Snape er nú þegar kominn framhjá Hnoðra.“

Það var ekki fyrr en þau sáu opnar dyrnar að alvara málsins rann upp fyrir þeim. Harry sneri sér að hinum undir skikkjunni.

„Ég skil það vel ef þið viljið hætta við,“ sagði hann. „Þið getið tekið skikkjuna, ég þarf ekki lengur á henni að halda.“ „Láttu ekki svona,“ sagði Ron.

„Við komum með,“ sagði Hermione.

Harry ýtti hurðinni alveg upp á gátt.

Marrið í hurðinni blandaðist lágu urri. Öll þrjú trýni hundsins þefuðu af áfergju í áttina að þeim, jafnvel þótt hann sæi þau ekki. „Hvað liggur þarna á gólfinu hjá honum?“ hvíslaði Hermione.

„Mér sýnist þetta vera harpa,“ sagði Ron. „Snape hlýtur að hafa skilið hana eftir þarna.“

„Hundurinn hlýtur að vakna um leið og maður hættir að spila,“ sagði Harry. „Jæja, nú prófa ég …“

Hann bar flautuna hans Hagrids upp að vörunum og blés. Þetta var ekki beinlínis laglína en um leið og fyrstu tónarnir heyrðust byrjuðu augnalok hundsins að síga. Harry dró varla andann. Smám saman þagnaði urrið í hundinum. Hann riðaði dálítið, féll fram á framfæturna og hlunkaðist síðan á gólfið, steinsofandi.

„Haltu áfram að spila,“ sagði Ron við Harry um leið og þau smeygðu sér úr skikkjunni og læddust í átt að hleranum. Þau fundu heitan, daunillan andardráttinn þegar þau nálguðust gríðarstór höfuðin.

„Ég held að okkur ætti að takast að opna hlerann,“ sagði Ron og gægðist yfir bak hundsins. „Vilt þú fara fyrst, Hermione?“

„Nei, takk!“

„Allt í lagi.“ Ron beit á jaxlinn og steig varlega yfir fætur hundsins. Hann beygði sig niður, greip um stóran járnhring á hleranum og svipti honum upp.

„Hvað sérðu?“ spurði Hermione kvíðin.

„Ekkert – bara myrkur – það er enginn stigi svo við verðum bara að láta okkur detta.“

Harry blés enn í flautuna og veifaði Ron til að ná athygli hans. Hann benti á sjálfan sig.

„Vilt þú fara fyrstur? Ertu viss?“ spurði Ron. „Ég veit ekki hvað það er langt niður. Réttu Hermione flautuna svo að hún geti haldið hundinum rólegum.“

Harry rétti henni flautuna. Hundurinn byrjaði að bylta sér og urra þær örfáu sekúndur sem flautan þagnaði en um leið og Hermione byrjaði að spila féll hann aftur í væran svefn.

Harry klifraði yfir hann og leit niður um opinn hlerann. Það vottaði ekki fyrir botninum.

Hann lét sig síga niður um opið þar til hann hékk á fingurgómunum. Þá leit hann upp á Ron og sagði: „Ef eitthvað kemur fyrir mig, þá eltið þið mig ekki. Farið beint í ugluturninn og sendið Hedwig til Dumbledore. Lofið þið því?“ „Við lofum því,“ sagði Ron.

„Sjáumst vonandi eftir augnablik …“

Og Harry lét sig falla niður. Kalt og rakt loft umlukti hann um leið og hann féll niður, lengra og lengra …

PLOMP. Lendingin var mjúk. Hann settist upp og þreifaði í kringum sig. Augu hans höfðu enn ekki vanist myrkrinu en hann hafði það á tilfinningunni að hann sæti ofan á einhvers konar plöntu.

„Þetta er í lagi!“ kallaði hann í áttina að hleranum sem virtist á stærð við frímerki. „Þetta er mjúk lending, stökkvið þið bara!“

Ron stökk á eftir honum. Hann lenti á maganum við hliðina á Harry.

„Hvað er þetta eiginlega?“ var það fyrsta sem hann sagði.

„Ég veit það ekki. Einhvers konar planta, held ég. Hún er hér líklega til að draga úr fallinu. Komdu, Hermione!“

Flautuleikurinn hætti og hávært gelt heyrðist frá hundinum. En Hermione var þegar stokkin. Hún lenti við hliðina á Harry.

„Við hljótum að vera langt undir skólanum,“ sagði hún.

„Heppni að þessi planta skuli vera hérna,“ sagði Ron.

„Heppni!“ skrækti Hermione. „Lítið á sjálfa ykkur!“

Hún stökk á fætur og brölti að rökum veggnum. Hún varð að berjast um, því að um leið og hún lenti hafði plantan byrjað að vefja löngum gripþráðum sínum um ökklana á henni. Fætur Harrys og Rons voru þegar kirfilega fastir í örmum skriðjurtarinnar án þess að þeir tækju eftir því.

Hermione tókst að losa sig áður en plantan náði á henni föstu taki. Hún horfði skelfingu lostin á baráttu drengjanna við plöntuna. Því meira sem þeir streittust á móti, því þéttar vafði plantan sig að þeim.

„Hættið að hreyfa ykkur!“ skipaði Hermione. „Ég veit hvað þetta er – þetta er djöflasnara!“

„Ó, hvað ég er feginn að vita hvað hún heitir. Það munar öllu,“ hvæsti Ron og reigði sig til að koma í veg fyrir að plantan læsti sig um háls hans.

„Þegiðu, ég er að reyna að muna hvernig á að drepa hana!“ sagði Hermione.

„Flýttu þér, ég get ekki andað!“ stundi Harry upp. Hann barðist upp á líf og dauða, því plantan hringaði sig þéttingsfast utan um brjóstkassa hans.

„Djöflasnara, djöflasnara … Hvað sagði Spíra prófessor aftur? Hún þrífst í myrkri og raka …“

„Kveiktu þá eld!“ korraði í Harry.

„Já – auðvitað – en hér er enginn eldiviður!“ æpti Hermione og neri saman höndum í örvæntingu.

„ERTU ORÐIN BANDVITLAUS?“ þrumaði Ron. „ERTU EKKI NORN, MANNESKJA!“

„Ó, já. Auðvitað!“ sagði Hermione og dró fram sprotann. Hún veifaði honum og tuldraði eitthvað fyrir munni sér og út úr

sprotanum skutust sömu bláu logarnir og hún hafði notað á Snape. Það liðu aðeins örfáar sekúndur þar til drengirnir fundu að plantan losaði takið og hörfaði undan ljósinu og hitanum. Hún iðaði og vatt sig utan af þeim og að lokum tókst þeim að slíta sig lausa.

„Eins gott að þú fylgist með í jurtafræðitímunum, Hermione,“ sagði Harry kófsveittur og staulaðist að veggnum þar sem Hermione stóð.

„Já,“ sagði Ron, „og eins gott að Harry hefur sterkar taugar. „Hér er enginn eldiviður,“ – ég meina það, Hermione!“

„Þessa leið,“ sagði Harry og benti eftir þröngum steingöngunum. Það var eina leiðin sem þau áttu kost á.

Ekkert heyrðist nema fótatak þeirra og lágvært gutl í vatni sem seytlaði niður veggina. Göngin lágu niður í móti og það minnti Harry á Gringottbankann. Hann fékk hnút í magann þegar hann minntist drekanna sem sagt var að gættu fjárhirslnanna. Hvað ef þau mættu dreka? Fullvöxnum dreka … Norbert hafði verið nógu slæmur …

„Heyrið þið eitthvað?“ hvíslaði Ron.

Harry lagði við hlustir. Hann heyrði lágvært glamur og þyt. Hljóðið virtist koma á móti þeim.

„Ætli þetta sé draugur?“

„Ég veit það ekki … hljómar eins og vængjasláttur.“

„Það er ljós framundan – ég sé eitthvað hreyfast.“

Þau komu að enda ganganna og við þeim blasti upplýstur salur. Loftið hvelfdist hátt yfir höfðum þeirra og ógrynni af litlum fuglum sem glóðu eins og gimsteinar flögruðu um herbergið. Í hinum enda salarins var þung tréhurð.

„Haldið þið að þeir ráðist á okkur ef við göngum í gegnum herbergið?“ spurði Ron.

„Sennilega,“ sagði Harry. „Þeir líta að vísu ekki út fyrir að vera grimmir, en ef þeir gerðu allir árás samtímis … En það er engin önnur leið … Ég fer fyrstur.“

Hann dró djúpt að sér andann, huldi höfuðið með handleggjunum og hljóp af stað. Hann bjóst við því að finna

fyrir hvössum goggum og klóm á hverri stundu en ekkert gerðist. Hann kom að hurðinni óskaddaður. Hann tók í handfangið en dyrnar voru læstar.

Hin fylgdu á eftir. Þau rykktu og toguðu í hurðina en hún bifaðist ekki, jafnvel Alohomoragaldurinn hennar Hermione virkaði ekki.

„Hvað nú?“ sagði Ron.

„Þessir fuglar … þeir geta ekki verið bara til skrauts,“ sagði Hermione.

Þau horfðu á fuglana sem svifu yfir höfði þeirra og glitruðu … glitruðu?

„Þetta eru ekki fuglar,“ sagði Harry skyndilega. „Þetta eru lyklar! Vængjaðir lyklar – sjáiði. Það þýðir þá væntanlega …“ Hann skimaði um salinn á meðan hin tvö mændu á fljúgandi lyklana. „… já – einmitt! Þarna eru kústar! Við eigum sjálf að ná lyklinum sem gengur að hurðinni!“

„En þetta eru mörg hundruð lyklar!“ Ron skoðaði lásinn á hurðinni.

„Við þurfum stóran, gamaldags lykil – líklega silfraðan eins og handfangið.“

Þau gripu hvert sinn kústinn og spyrntu sér á loft. Þau svifu á milli lyklanna og reyndu að handsama þá en án árangurs. Álagalyklarnir skutust svo snöggt undan að næstum ógerningur var að grípa þá.

Það var þó ekki að ástæðulausu að Harry var yngsti leitari aldarinnar. Hann hafði einstakt lag á því að koma auga á hluti sem aðrir sáu ekki. Þegar hann hafði sveimað um lykladrífuna örskamma stund tók hann eftir stórum silfurlykli með beyglaðan væng. Hann virtist hafa verið gripinn og honum stungið þjösnalega inn í skráargatið.

„Þessi þarna!“ kallaði hann til hinna. „Þessi stóri – þarna – nei, þarna – með skærbláu vængina – fjaðrirnar eru allar krumpaðar á annarri hliðinni.“

Ron þaut í þá átt sem Harry benti en skall í loftið og var næstum dottinn af kústinum sínum.

„Við verðum að króa hann af!“ kallaði Harry án þess að hafa augun af lyklinum með beyglaða vænginn. „Ron, þú kemur ofan að honum – Hermione, haltu þig fyrir neðan og passaðu að hann sveigi ekki niður á við – og ég reyni að grípa hann. Tilbúin. Núna!“

Ron steypti sér niður, Hermione skaust upp á við en lykillinn vék sér undan þeim báðum. Harry þaut á eftir honum; lykillinn geystist í átt að veggnum. Harry teygði fram höndina og með háu ískri negldi hann lykilinn upp að veggnum. Fagnaðaróp Rons og Hermione bergmáluðu um salinn.

Þau lentu í skyndi og Harry hljóp að hurðinni með óstýrilátan lykilinn í hendinni. Hann rak hann inn í skrána og sneri – hann virkaði. Um leið og small í lásnum hóf lykillinn sig aftur til flugs. Hann hafði nú verið gripinn tvisvar sinnum og var orðinn mjög ræfilslegur að sjá.

„Tilbúin?“ spurði Harry með höndina á hurðarhúninum. Hin kinkuðu kolli. Harry opnaði dyrnar upp á gátt.

Inni í næsta sal var svo dimmt að þau sáu ekki glóru. En um leið og þau stigu inn fyrir varð hann skyndilega baðaður ljósi. Ótrúleg sjón mætti þeim.

Þau stóðu á brúninni á risastóru skákborði, á bak við svörtu taflmennina sem allir voru hærri en þau og höggnir út í svartan stein. Andspænis þeim við hinn enda taflborðsins stóðu hvítu taflmennirnir. Harry, Ron og Hermione skulfu við þessa sjón – á hávöxnum taflmönnunum voru engin andlit.

„Hvað gerum við nú?“ hvíslaði Harry.

„Það er augljóst, er það ekki?“ sagði Ron. „Við verðum að tefla okkur í gegnum herbergið.“

Á bak við hvítu taflmennina voru aðrar dyr.

„Hvernig?“ spurði Hermione taugaóstyrk.

„Ég held,“ sagði Ron, „að við þurfum að látast vera taflmenn.“

Hann gekk að svarta riddaranum og teygði út höndina til að snerta hest hans. Steinninn lifnaði samstundis við. Hesturinn krafsaði í jörðina og riddarinn sneri hjálmklæddu höfðinu að Ron.

„Þurfum við að – hérna – slást í lið með ykkur til að komast áfram?“

Svarti riddarinn kinkaði kolli. Ron sneri sér að hinum.

„Þetta krefst umhugsunar …“ sagði hann. „Ég held að við þurfum að taka við hlutverki einhverra þriggja svartra taflmanna …“

Harry og Hermione biðu þögul á meðan Ron braut heilann. Loks sagði hann: „Þið megið ekki móðgast, en hvorugt ykkar er sérstaklega leikið í skák …“

„Við erum ekki móðguð,“ sagði Harry óðamála. „Segðu okkur bara hvað við eigum að gera.“

„Jæja, Harry, þú tekur við hlutverki biskupsins og Hermione, þú stillir þér upp sem hrókur.“

„Hvað ætlar þú að gera?“ „Ég verð riddari,“ sagði Ron.

Taflmennirnir virtust heyra hvað hann sagði því að í þessum töluðu orðum yfirgáfu riddari, biskup og hrókur taflborðið og skildu þrjá auða reiti eftir handa Harry, Ron og Hermione.

„Hvítur á alltaf fyrsta leik í skák," sagði Ron og rýndi yfir skákborðið. „Já … sjáiði …"

Hvítt peð færði sig fram um tvo reiti.

Ron hóf að stjórna svörtu taflmönnunum. Þeir hreyfðust þögulir í átt að þeim reitum sem hann beindi þeim á. Hnén á Harry skulfu. Hvað ef þau töpuðu?

„Harry, færðu þig skáhallt til hægri um fjóra reiti."

Fyrsta áfallið kom þegar hinn riddarinn var tekinn. Hvíta drottningin sló hann í gólfið, dró hann af taflborðinu og skildi hann þar eftir hreyfingarlausan á grúfu.

„Þetta varð að gerast," sagði Ron og virtist brugðið. „Nú getur þú tekið biskupinn, Hermione. Áfram með þig, taktu hann."

Þeir hvítu sýndu enga miskunn þegar þau misstu taflmenn. Fljótlega myndaðist hrúga af svörtum, lífvana taflmönnum meðfram veggnum. Tvisvar sinnum bjargaði Ron þeim Harry og Hermione naumlega úr bráðri hættu. Sjálfur skaust Ron

um taflborðið til að vega upp á móti tapi þeirra með því að taka eins marga hvíta og mögulegt var.

„Þetta er alveg að koma,“ tautaði hann skyndilega. „Ég þarf aðeins að hugsa málið – bíðum nú við.“

Hvíta drottningin sneri andlitslausri framhliðinni að honum.

„Já …“ sagði Ron rólega, „það er eina leiðin … ég verð að fórna mér.“

„NEI!“ æptu Harry og Hermione.

„Svona er þetta!“ hreytti Ron út úr sér. „Maður verður að færa fórnir í skák! Ég færi mig fram um einn reit – þá getur þú óhindraður mátað kónginn, Harry!“

„En …“

„Viltu stöðva Snape eða ekki?“

„Ron …“

„Ef þú flýtir þér ekki nær hann steininum!“ Það var ekki um annað að ræða.

„Tilbúin?“ kallaði Ron, fölur en ákveðinn á svip. „Nú fer ég – ekki sóa tíma eftir að skákin er unnin.“

Hann steig fram og hvíta drottningin réðst á hann. Hún sló hann í höfuðið með steinhandleggnum svo að hann skall í gólfið – Hermione æpti en stóð kyrr á reitnum – hvíta drottningin dró Ron út af taflborðinu. Hann virtist steinrotaður.

Harry færði sig skjálfandi á beinunum til vinstri um þrjá reiti. Hvíti kóngurinn tók af sér kórónuna og fleygði henni að fótum Harrys. Þau voru búin að vinna. Taflmennirnir tvístruðust, hneigðu sig og færðu sig frá hurðinni. Harry og Hermione litu örvænt ingarfull í áttina að Ron en hlupu síðan út um dyrnar og áfram eftir næstu göngum.

„Hvað ef hann er …?“

„Það verður allt í lagi með hann,“ sagði Harry í tilraun til að sannfæra sjálfan sig um að svo væri. „Hvað helurðu að sé næst?“ „Við höfum rekist á djöflasnöru Spíru – Flitwick hlýtur

að hafa framið lyklagaldurinn – McGonagall umbreytti taflmönnunum í lif-andi verur – þá eru galdrar Quirrell og Snape …“ Þau komu nú að enn einni hurð.

„Ertu tilbúin?“ hvíslaði Harry.

„Opnaðu.“

Harry ýtti hurðinni upp á gátt.

Hryllilegur fnykur barst að vitum þeirra svo að þau urðu að halda skikkjunum fyrir nefið og þeim súrnaði í augum. Á gólfinu fyrir framan þau lá tröll með blóðugt sár á höfðinu. Það var jafnvel enn stærra en tröllið sem þau höfðu barist við inni á stelpnaklósettinu.

„Ég er feginn að við þurftum ekki að berjast við þetta,“ hvíslaði Harry um leið og þau klofuðu varlega yfir þykka fótleggi tröllsins. „Flýtum okkur, ég næ ekki andanum.“

Hann opnaði næstu dyr og þau þorðu varla að líta inn fyrir af ótta við það sem kynni að bíða þeirra. En þar var ekkert ógnvekjandi að sjá; aðeins eitt borð sem á stóðu sjö flöskur af mismunandi stærðum og gerðum í beinni röð.

„Þetta er galdurinn hans Snape,“ sagði Harry. „Hvað ætli við þurfum að gera?“

Þau stigu yfir þröskuldinn og um leið blossaði upp eldur í dyragættinni. Þetta var enginn venjulegur eldur; logarnir voru dökkrauðir. Í sömu andrá kviknuðu svartir logar í dyragættinni andspænis þeim. Þau voru gengin í gildru.

„Sjáðu!“ Hermione greip pergamentsvafning sem lá við hliðina á flöskunum. Harry las yfir öxlina á henni:

Framundan býr háski en hægt að snúa við,
hjálp frá einni okkar fengið getið þið.
Flaskan ein mun veita framhald laust við mein
en flokkinn strax til baka senda mundi ein.

Í tveimur flöskum er svo áfengt netluvín;
eitur finnst í þremur; á flokknum strax það hrín.
Veljið nú í snatri, valið nauðsyn er.
Vísbendingar fjórar við gefum ykkur hér:

Eiturflöskur lúmskar jafnan leynast við
ljúfa netluvínsins vinstri handar hlið.
Mismunandi flöskur standa endum á,
allsendis þær banna flokknum lengra að ná.

Mismunandi stórar við erum allar hreint;
eiturlyf í stærstu og minnstu finnst víst seint.
Önnur hægra megin og eins frá vinstri hlið
innihalda sama drykkinn. Nóg nú vitið þið.

Hermione andvarpaði og Harry sá sér til mikillar furðu að hún brosti. Það var ekki beinlínis það sem hann langaði til að gera á þessari stundu.

„Frábært,“ sagði Hermione. „Þetta eru engir galdrar, bara einföld rökfræði – gáta. Margir af okkar virtustu galdramönnum hafa ekki snefil af rökvísi. Þeir yrðu fastir hérna að eilífu.“

„Við líka, er það ekki?“

„Auðvitað ekki,“ sagði Hermione. „Allt sem við þurfum að vita er hérna á blaðinu. Sjö flöskur: Þrjár þeirra innihalda eitur;

tvær þeirra vín; ein mun koma okkur í gegnum svarta eldinn og önnur í gegnum þann rauða.“

„En hvernig vitum við af hverri þeirra við eigum að drekka?“
„Bíddu hægur.“

Hermione las blaðið yfir nokkrum sinnum. Síðan gekk hún að flöskunum, muldraði eitthvað með sjálfri sér og benti á þær, eina af annarri. Loks klappaði hún saman lófunum.

„Ég er búin að ná þessu,“ sagði hún. „Minnsta flaskan kemur okkur í gegnum svarta eldinn í átt að viskusteininum.“ Harry leit á agnarsmáa flöskuna.

„Innihaldið dugar bara fyrir annað okkar,“ sagði hann. „Þetta er varla einn sopi.“

Þau litu hvort á annað.

„Hver þeirra kemur okkur aftur til baka í gegnum rauðu logana?“ Hermione benti á sívala flösku sem stóð lengst til hægri í röðinni.

„Þú drekkur úr henni," sagði Harry. „Nei, hlustaðu – farðu til baka og náðu í Ron. Takiði galdrakústa úr lyklasalnum, fljúgið í gegnum hlerann, framhjá Hnoðra og áfram upp í ugluturninn. Sendið Hedwig af stað til Dumbledore – við þurfum á hjálp hans að halda. Ég get kannski haldið Snape í fjarlægð í svolitla stund en ég ræð ekki við hann til lengdar."

„En Harry – hvað ef Þú-veist-hver er með honum?"

„Ja, ég var heppinn þegar ég hitti hann fyrst," sagði Harry og benti á örið á enni sér. „Ég gæti orðið heppinn aftur."

Varirnar á Hermione skulfu, skyndilega rauk hún til hans og faðmaði hann.

„Hermione!"

„Harry – þú ert mikill galdramaður."

„Ég er ekki eins góður og þú," sagði Harry og roðnaði þegar hún sleppti honum aftur.

„Ég!“ sagði Hermione. „Það kemur allt úr bókum! En það er svo margt mikilvægara í lífinu en dugnaður. Vinátta og kjarkur … og – æ, Harry minn – lofaðu því að fara varlega!“

„Drekktu fyrst,“ sagði Harry. „Þú ert viss um hver er hvað, er það ekki?“

„Handviss,“ sagði Hermione. Hún tók stóran teyg úr sívölu flöskunni við endann og skjálfti fór um líkama hennar.

„Er þetta nokkuð eitur?“ spurði Harry kvíðinn. „Nei – en þetta er ískalt.“

„Drífðu þig af stað áður en áhrifin hverfa.“

„Gangi þér vel og farðu varlega …“

„Farðu nú!“

Hermione snerist á hæli og gekk beint í gegnum dimmrauðu logana.

Harry dró djúpt að sér andann og tók minnstu flöskuna upp. Hann sneri sér í átt að svörtu logunum.

„Nú kem ég,“ sagði hann og tæmdi litlu flöskuna í einum sopa. Það var vissulega eins og ís flæddi um æðar hans. Hann lagði flöskuna frá sér og gekk í átt að logunum. Hann bjó sig undir það versta og steig inn í svartan eldinn. Hann horfði á logana sleikja líkama sinn en fann ekki fyrir þeim – eitt andartak sá hann ekkert nema svartan eldinn sem umlukti hann – svo var hann kominn í gegn, inn í síðasta salinn.

Þar var annar maður fyrir – en það var ekki Snape. Það var ekki heldur Voldemort.

# Sautjándi kafli
# Maðurinn með andlitin tvö

Það var Quirrell.

„Þú!“ stundi Harry.

Quirrell brosti. Nú vottaði ekki fyrir kippum í andliti hans.

„Já, ég,“ sagði hann rólega. „Mér datt í hug að ég myndi hitta þig hér, Harry.“

„En ég hélt að – Snape ...“

„Severus?“ Quirrell hló og það var ekki taugaóstyrka flissið sem Harry átti að venjast heldur napur og grimmdarlegur hlátur. „Já, það er rétt að Snape virðist rétta manngerðin. Það var einstaklega hentugt að hafa hann á sveimi eins og ofvaxna leðurblöku. Hvern myndi gruna st-stamandi au-

aumingjann hann Quirrell pr-prófessor þegar maður á borð við Snape er í skólanum?“

Harry náði þessu ekki. Þetta gat ekki verið satt. Það var ómögulegt!

„En Snape reyndi að drepa mig!“

„Nei, nei, nei. Ég reyndi að drepa þig. Hermione, vinkona þín, rakst óvart í mig þegar hún hljóp að Snape til að bera eld að skikkjunni hans á Quidditchleiknum. Það varð til þess að augnsambandið rofnaði. Hefði ég haft nokkrar sekúndur í viðbót þá hefði ég náð að fleygja þér af kústinum. Mér hefði tekist að gera það mun fyrr ef Snape hefði ekki farið með galdraþulu til að reyna að bjarga þér.“ „Var Snape að reyna að bjarga mér?“

„Auðvitað,“ sagði Quirrell kuldalega. „Af hverju heldurðu að hann hafi viljað dæma næstu Quidditchkeppni? Hann vildi fullvissa sig um að ég reyndi þetta ekki aftur. Það er í raun dálítið fyndið … hann hefði ekki þurft að hafa fyrir þessu. Ég gat ekkert gert fyrst Dumbledore var meðal áhorfenda. Allir hinir kennararnir héldu að Snape vildi vera dómari til að hindra að Gryffindor ynni bikarinn. Hann varð mjög óvinsæll

fyrir vikið ... og hvílík tímasóun úr því að ég ætla hvort sem er að drepa þig í nótt.“

Quirrell smellti fingrum. Niður úr loftinu féllu reipi sem reyrðu sig utan um Harry.

„Þú ert of hnýsinn og þess vegna hlýturðu að deyja, Harry. Þú hefðir betur sleppt þessum þeytingi þínum um skólann á hrekkjavökunni. Hvað vissi ég nema þú hefðir séð til mín þegar ég var að koma til að njósna um öryggisgæsluna yfir steininum.“

„Hleyptir þú tröllinu inn?“

„Ó, já. Ég hef sérstaka hæfileika þegar kemur að tröllum – þú hlýtur að hafa séð hvernig ég fór með ófreskjuna inni í hinum salnum? Því miður var Snape þegar farið að gruna mig og fór beint upp á þriðju hæð til að reyna að bægja mér frá á meðan allir hinir hlupu um og leituðu að tröllinu. Og það var ekki nóg með að tröllinu mínu tækist ekki að ganga frá þér heldur mistókst hundinum líka að bíta fótinn almennilega af Snape.

En bíddu nú rólegur hérna, Harry. Ég þarf að skoða þennan áhugaverða spegil betur.“

Nú fyrst sá Harry hvað var fyrir aftan Quirrell. Það var Draumaspegillinn.

„Þessi spegill er lykillinn að því að finna steininn,“ tautaði Quirrell og bankaði létt á rammann. „Það var alveg eftir Dumbledore að finna upp á einhverju þessu líku … en hann er í London og ég verð á bak og burt þegar hann kemur aftur …“

Það eina sem komst að hjá Harry var að halda Quirrell uppteknum og leiða þannig athyglina frá speglinum.

„Ég sá ykkur Snape inni í skóginum …“ sagði hann óðamála.

„Já,“ sagði Quirrell þurrlega um leið og hann gekk á bak við spegilinn til að skoða bakhlið hans. „Þá var hann búinn að sjá í gegnum mig og var að reyna að komast að því hversu mikið ég vissi. Hann hafði haft mig grunaðan allan tímann. Reyndi að hræða mig frá – eins og hann ætti einhvern möguleika á því þegar ég er með meistara Voldemort mér við hlið …“

Quirrell gekk á ný að framhlið spegilsins og starði gráðugum augum inn í hann.

„Ég sé steininn … ég afhendi meistara mínum hann … en hvar er hann núna?“

Harry barðist við að losa sig úr fjötrunum en án árangurs. Hann varð að koma í veg fyrir að Quirrell gæti einbeitt sér að speglinum. „En Snape hefur alltaf hegðað sér eins og hann hati mig.“

„Já, það gerir hann svo sannarlega,“ sagði Quirrell kæruleysislega. „Því máttu trúa. Hann var nemandi í Hogwartskóla um leið og faðir þinn. Vissirðu það ekki? Þeir þoldu ekki hvor annan. En hann hefur aldrei viljað þig feigan.“

„En ég heyrði þig gráta inni í stofunni við hliðina á bókasafninu um daginn – ég hélt að Snape hefði verið að ógna þér …“ Nú fyrst færðist óttasvipur yfir andlit Quirrells.

„Stundum,“ sagði hann, „reynist mér erfitt að fylgja skipunum meistara míns – hann er stórkostlegur galdramaður og ég er veiklundaður …“

„Áttu við að hann hafi verið inni í kennslustofunni með þér?“ stundi Harry.

„Hann fylgir mér hvert sem ég fer,“ sagði Quirrell lágróma. „Ég hitti hann á ferðalagi mínu um heiminn. Þá var ég ungur og vitlaus maður með höfuðið fullt af fáránlegum grillum um gott og illt. Herra Voldemort sýndi mér fram á hversu rangt ég hafði fyrir mér. Hið góða og illa er ekki til. Eina aflið er valdið og þeir sem vilja öðlast það leita þess … síðan þá hef ég verið dyggur þjónn hans þótt mér hafi oft orðið á mistök. Hann hefur þurft að sýna mér mikla hörku.“ Skyndilega skalf Quirrell. „Hann á ekki auðvelt með að fyrirgefa mistök. Hann varð mjög óánægður þegar mér mistókst að stela steininum úr Gringottbankanum. Hann refsaði mér … ákvað að í framtíðinni þyrfti hann að hafa nánari gætur á mér …“

Rödd Quirrells dó út. Harry rifjaði upp ferðina til Skástrætis – hvernig gat hann hafa verið svona heimskur? Hann hafði séð Quirrell sama dag og tekið í höndina á honum inni á Leka seiðpottinum.

Quirrell bölvaði lágt.

„Ég skil þetta ekki … er steinninn falinn inni í speglinum? Ætli ég þurfi að mölva hann?“

Harry braut ákaft heilann.

Mín heitasta ósk, hugsaði hann, er að finna steininn á undan Quirrell. Ef ég lít inn í spegilinn ætti ég að sjá sjálfan mig finna hann – þannig á ég að geta komist að því hvar hann er falinn! En hvernig get ég horft í spegilinn án þess að Quirrell uppgötvi hvað ég ætla mér?

Hann reyndi að mjaka sér til vinstri í áttina að speglinum án þess að Quirrell tæki eftir því; en reipin voru reyrð svo fast um ökkla hans að hann hrasaði og datt endilangur á gólfið. Quirrell veitti honum enga athygli. Hann stóð og talaði við sjálfan sig.

„Hvað gerir þessi spegill? Hvernig virkar hann? Hjálpaðu mér, meistari!“

Og Harry til mikillar skelfingar svaraði rödd sem virtist koma frá Quirrell sjálfum.

„Notaðu drenginn … notaðu drenginn.“ Quirrell sneri sér að Harry.

„Já – Harry – komdu hingað.“

Hann klappaði saman lófunum og reipin sem héldu Harry losnuðu. Harry reis hægt á fætur.

„Komdu hingað,“ endurtók Quirrell. „Líttu inn í spegilinn og segðu mér hvað þú sérð.“

Harry gekk í áttina að honum.

„Ég verð að ljúga,“ hugsaði hann örvæntingarfullur. „Ég lít í spegilinn og lýg, það er allt og sumt.“

Quirrell stillti sér upp þétt að baki honum. Harry andaði að sér skrítnu lyktinni sem virtist eiga upptök sín í vefjarhetti Quirrells. Hann lokaði augunum og gekk fram fyrir spegilinn. Svo opnaði hann augun aftur.

Fyrst sá hann spegilmynd sína föla og óttaslegna. En andartaki síðar brosti spegilmyndin til hans. Hún stakk hendinni í vasann og dró upp blóðrauðan stein. Spegilmyndin blikkaði hann og setti steininn aftur í vasann – og í sömu andrá fann Harry að eitthvað þungt féll í raun og veru ofan í vasa hans. Á einhvern ótrúlegan hátt var visku steinninn kominn í hans vörslu.

„Jæja?“ sagði Quirrell óþolinmóður. „Hvað sérðu?“ Harry safnaði í sig kjarki.

„Ég sé sjálfan mig taka í höndina á Dumbledore,“ skáldaði hann.

„Það – það er mér að þakka að Gryffindor vann heimavistarbikarinn.“

Quirrell blótaði aftur.

„Farðu frá,“ sagði hann. Um leið og Harry færði sig fann hann fyrir viskusteininum í vasanum. Ætti hann að reyna að flýja?

En hann var varla lagður af stað þegar hávær rödd hljómaði þó að Quirrell hreyfði ekki varirnar.

„Hann lýgur … Hann lýgur …“

„Harry, komdu hingað!“ æpti Quirrell. „Segðu mér satt! Hvað sástu í speglinum?“

Aftur mælti háværa röddin.

„Leyfðu mér að tala við hann … augliti til auglitis …“

„Þú ert ekki nógu hraustur, meistari!“

„Ég er víst nógu hraustur … fyrir þetta …“

Harry fannst eins og djöflasnaran hefði aftur náð taki á honum og reyrt hann niður á staðnum. Hann gat hvorki hreyft legg né lið. Hann horfði skelfingu lostinn á Quirrell fletta af sér vefjarhettinum. Hvað var eiginlega á seyði? Vefjarhötturinn féll á gólfið. Höfuð Quirrells virtist sérkennilega lítið án hans. Svo sneri hann baki í Harry með hægð.

Harry langaði að öskra en hann kom ekki upp hljóði. Á hnakkanum á Quirrell var andlit. Það var hryllilegasta andlit sem Harry hafði augum litið. Það var kríthvítt með glóandi rauð augu og rifur í stað nasa, eins og snákur.

„Harry Potter …“ hvíslaði það.

Harry reyndi að hörfa en fætur hans vildu ekki hreyfast.

„Sjáðu hvernig ég er orðinn?“ sagði andlitið. „Ekkert annað en skugginn af sjálfum mér … ég get aðeins tekið á mig lögun með því að setjast að í líkama annarra … en sem betur fer er alltaf einhver fús til að hleypa mér inn í huga sinn og hjarta … Einhyrningablóð hefur styrkt mig undanfarnar vikur … þú sást minn trygglynda Quirrell drekka það fyrir mig inni í skóginum. Þegar ég eignast ódáinsveigina mun ég geta skapað minn eigin líkama … Jæja, láttu mig nú fá steininn sem er í vasa þínum.“

Hann vissi það þá. Tilfinningin flæddi skyndilega fram í fætur Harrys og hann hörfaði aftur á bak.

„Láttu ekki eins og kjáni,“ urraði andlitið. „Bjargaðu sjálfum þér og gakktu til liðs við mig … annars fer eins fyrir þér og foreldrum þínum … Áður en þau dóu sárbændu þau mig um að sýna miskunn …“

„Lygari!“ æpti Harry skyndilega.

Quirrell gekk aftur á bak í áttina að honum svo að Voldemort gæti horft á hann.

„En hjartnæmt …“ hvæsti andlitið. „Ég hef alltaf metið hugrekki mikils. Já, drengur, foreldrar þínir voru hugrakkir. Fyrst drap ég föður þinn og ég verð að viðurkenna að hann barðist hetjulega … en móðir þín hefði ekki þurft að deyja … hún var að reyna að vernda þig. Fáðu mér nú steininn svo hún hafi ekki fórnað lífi sínu til einskis.“

„Aldrei!“

Harry hljóp í áttina að logandi dyrunum, en Voldemort öskraði: „Gríptu hann!“ Á næsta andartaki fann Harry að hönd Quirrells greip um úlnlið hans. Skerandi sársauki nísti í gegnum örið á enni Harrys; honum leið eins og höfuðið væri að klofna í sundur. Hann æpti og barðist um. Honum til undrunar sleppti Quirrell honum. Verkurinn í höfði hans hjaðnaði – hann skimaði í tryllingi eftir Quirrell og sá að hann stóð í keng af sársauka og horfði á stórar brunablöðrur spretta fram á fingrum sér.

„Gríptu hann! Gríptu hann!“ öskraði Voldemort aftur. Quirrell kastaði sér áfram, velti Harry á gólfið og lenti ofan á honum með báðar hendurnar um hálsinn á honum – sársaukinn í öri Harrys blindaði hann næstum því, en samt sá hann að Quirrell engdist og hljóðaði af kvölum.

„Ég get ekki haldið honum, meistari – hendurnar á mér!“

Og Quirrell neyddist til að sleppa takinu af hálsi Harrys en hélt áfram að klemma hann fastan með hnjánum. Hann starði furðu lostinn á hendur sínar bólgna upp og Harry sá að húðin á fingrum hans var rauð og þrútin.

„Dreptu hann þá, fávitinn þinn og vertu snöggur að því!“ skrækti Voldemort.

Quirrell lyfti hendinni til að leggja á hann banvæna bölvun, en eins og af eðlishvöt teygði Harry höndina fram og greip um andlitið á Quirrell – „Áááá á!“

Quirrell velti sér ofan af honum og um leið spruttu fram brunasár á andliti hans. Nú skildi Harry: Í hvert sinn sem ber húð hans snerti Quirrell leið hann hræðilegar þjáningar og nú var eini möguleiki hans að valda Quirrell svo miklum sársauka að hann gæti ekki framkvæmt formælinguna.

Harry stökk á fætur og greip um handlegginn á Quirrell eins fast og hann gat. Quirrell öskraði og reyndi að hrista Harry af sér – sársaukinn í höfði Harrys jókst – hann sá ekki neitt,

heyrði aðeins hryllileg angistarópin í Quirrell og Voldemort sem öskraði í sífellu: „Dreptu hann! Dreptu hann!“ Honum fannst hann líka heyra fleiri raddir æpa: „Harry! Harry!“ En það var kannski bara ímyndun.

Nú var handleggur Quirrells rifinn úr greipum hans og þá vissi hann að öllu var lokið. Hann féll niður í hljóðlaust myrkur, dýpra … dýpra … dýpra …

Það glampaði á eitthvað gyllt fyrir ofan hann. Gullna eldingin! Hann reyndi að grípa hana en gat ekki lyft handleggjunum.

Hann deplaði augunum. Þetta var ekki gullna eldingin. Þetta voru gleraugu. En skrítið.

Hann deplaði augunum aftur. Nú sá hann brosandi andlitið á Albusi Dumbledore lúta niður að honum.

„Góðan daginn, Harry,“ sagði Dumbledore.

Harry starði á hann. Svo mundi hann skyndilega allt. „Herra! Steinninn! Það var Quirrell! Hann er með steininn! Við verðum að flýta okkur …“

„Róaðu þig, drengur minn. Þú hefur misst dálítið úr,“ sagði Dumbledore. „Quirrell er ekki með steininn.“

„Hver þá? Ég …“

„Harry, reyndu nú að slaka á, annars fleygir fröken Pomfrey mér út.“ Harry þagnaði og leit í kringum sig. Hann sá að hann var í sjúkrahúsálmunni. Hann lá í rúmi með hvítum rúmfötum og við hliðina á honum var borð hlaðið sælgæti af öllum hugsanlegum tegundum. „Gjafir frá vinum og aðdáendum,“ sagði Dumbledore með geislandi brosi. „Það sem gerðist á milli þín og Quirrells niðri í dýflissunni er algert leyndarmál og þess vegna veit að sjálfsögðu allur skólinn hvað gerðist. Fred og George Weasley, vinir þínir, gengu meira að segja svo langt að reyna að senda þér klósettsetu. Þeir héldu eflaust að það myndi gleðja þig. Fröken Pomfrey áleit hins vegar að hún væri ekki nógu heilsusamleg og gerði hana upptæka.“

„Hvað er ég búinn að vera hérna lengi?“

„Í þrjá daga. Ronald Weasley og Hermione Granger verða mjög fegin að heyra að þú ert kominn til meðvitundar. Þau hafa verið afar áhyggjufull.“

„En, herra, steinninn …“

„Ég sé að þú ert ákveðinn í að komast til botns í málinu. Jæja þá, Quirrell prófessor tókst ekki að ná honum af þér. Ég kom í tæka tíð til að forða því, þó að þú stæðir þig reyndar ljómandi vel án mín.“

„Komst þú? Fékkstu ugluna frá Hermione?“

„Nei. En ég var ekki fyrr kominn til London en það rann upp fyrir mér að ég ætti að vera á staðnum sem ég var nýfarinn frá. Ég náði þér naumlega úr klóm Quirrells …“

„Varst það þú?“

„Ég óttaðist að ég hefði komið of seint.“

„Það munaði litlu. Ég hefði ekki getað varið steininn fyrir honum mikið lengur …“

„Ég er ekki að tala um steininn, drengur minn, heldur þig. Áreynslan dró þig næstum til dauða. Eitt skelfilegt andartak hélt ég að þú værir dáinn. Hvað steininum viðvíkur, þá hefur honum verið eytt.“

„Eytt?“ sagði Harry sljólega. „En vinur þinn – Nicolas Flam el …“ „Nú, svo þú veist hver Nicolas er?“ sagði Dumbledore ánægður. „Þú hefur unnið heimavinnuna þína, heyri ég. Já, við Nicolas ræddum saman og urðum sammála um að það væri fyrir bestu.“

„En þá hljóta þau að deyja bráðum, hann og konan hans.“

„Þau eiga nógu mikið af ódáinsveiginni til að endast þeim þangað til þau eru búin að koma sínum málum á hreint og þegar þar að kemur, já, þá deyja þau.“

Dumbledore brosti að undruninni í svip Harrys.

„Þú ert svo ungur að þér finnst það sjálfsagt ótrúlegt en fyrir Nicolas og Perenelle verður þetta í rauninni eins og að fara að sofa eftir mjög, mjög langan dag. Þegar allt kemur til alls er dauðinn ekkert annað en stórkostlegt ævintýri – fyrir þá sem hafa rétta hugarfarið. Í raun var steinninn ekkert sérlega dásamlegur hlutur. Eins miklir peningar og eins langt líf og maður getur óskað sér! Það er það tvennt sem flestir myndu kjósa umfram allt annað – en gallinn er bara sá að fólk hefur tilhneigingu til að velja það sem er verst fyrir það sjálft.“

Harry lá orðlaus í rúminu. Dumbledore hummaði dálítið og brosti með sjálfum sér.

„Herra Dumbledore?“ sagði Harry. „Ég var að hugsa um dálítið … Þó að steinninn sé farinn, þá mun Vol…, ég meina, Þú-veist-hver …“

„Kallaðu hann Voldemort, Harry. Kallaðu hlutina alltaf sínum réttu nöfnum. Ótti við nafn leiðir bara af sér ótta við hlutinn sjálfan.“

„Já, herra. Voldemort mun reyna að snúa aftur eftir öðrum leiðum, er það ekki? Hann er ekki horfinn fyrir fullt og allt, er það nokkuð?“

„Nei, Harry, það er hann ekki. Hann er einhvers staðar í felum. Ef til vill er hann að leita að öðrum líkama til að taka sér bólfestu í. Hann er ekki raunverulega lifandi og þess vegna er ekki hægt að drepa hann. Hann skildi Quirrell eftir til að bíða dauða síns; hann sýnir bandamönnum sínum jafn mikið miskunnarleysi og fjendum sínum. Hvað sem því líður, Harry, þá má vera að þú hafir aðeins frestað valdatöku hans um sinn. En kannski hittir hann seinna einhvern annan sem er

tilbúinn að berjast við hann til síðasta blóðdropa og ef hann er stöðvaður aftur og aftur, ja, þá gæti vel farið svo að hann kæmist aldrei aftur til valda.“

Harry kinkaði kolli en hætti því strax, því að hann fékk illt í höfuðið. Síðan sagði hann: „Það er ýmislegt sem mig langar að vita, ef þú getur sagt mér það … mig langar til að vita sannleikann um …“

„Sannleikann.“ Dumbledore andvarpaði. „Sannleikurinn er fagur og skelfilegur í senn og þess vegna þarf að nálgast hann með mikilli varúð. Ég skal samt sem áður svara spurningum þínum nema ég hafi mjög góða ástæðu fyrir því að gera það ekki – en ef það gerist, þá bið ég þig um að fyrirgefa mér. Ég lofa því að ég mun ekki ljúga.“

„Jæja …Voldemort sagði að hann hefði bara drepið móður mína vegna þess að hún hefði reynt að hindra hann í að drepa mig. En af hverju vildi hann drepa mig?“

Nú andvarpaði Dumbledore þunglega.

„Því miður get ég ekki svarað fyrstu spurningunni þinni. Ekki í dag. Ekki núna. Einn góðan veðurdag muntu fá að vita allt …

en láttu kyrrt liggja í bili, Harry. Þegar þú verður eldri … ég veit að þú kærir þig ekki um að heyra þetta, en seinna, þegar þú ert tilbúinn færðu að vita þetta.“

Harry var ljóst að það var gagnslaust að vera með mótbárur.

„En af hverju gat Quirrell ekki snert mig?“

„Móðir þín fórnaði lífi sínu fyrir þig. Og ef það er nokkuð sem Voldemort skilur ekki, þá er það ást. Hann áttaði sig ekki á því að ást móður þinnar á þér var svo sterk að hún skildi eftir sig varanleg ummerki, ekki ör eða sýnilegt einkenni … en þegar einhver hefur elskað mann svona heitt, jafnvel þótt sú manneskja sé ekki lengur til staðar, þá veitir það manni ákveðna vörn um alla framtíð. Vörnin er í sál þinni og þess vegna gat Quirrell, sem deildi sál sinni með Voldemort, fullur af hatri, græðgi og framagirni, ekki snert þig. Það var honum kvöl að snerta manneskju sem var svo rækilega merkt kærleikanum.“

Dumbledore varð skyndilega mjög upptekinn af því að fylgjast með fugli sem sat fyrir utan gluggann og Harry notaði tækifærið til að þurrka sér um augun með sængurhorninu.

Þegar Harry náði aftur valdi á röddinni spurði hann: „Hvað með huliðsskikkjuna – veistu hver sendi mér hana?“

„Ó, já – faðir þinn skildi hana eftir í minni umsjá og mér datt í hug að þú yrðir hrifinn af henni.“ Augu Dumbledore leiftruðu.

„Einkar nytsamlegur hlutur … faðir þinn notaði hana aðallega til að stelast í mat í eldhúsinu á meðan hann var hérna.“

„Og það var dálítið annað …“

„Láttu það flakka.“

„Quirrell sagði að Snape hat…“

„Snape prófessor, Harry.“

„Já, hann – Quirrell sagði að hann hataði mig vegna þess að hann hefði hatað föður minn. Er það satt?“

„Já, það er ekki hægt að neita því, þeir höfðu óbeit hvor á öðrum. Ekki ósvipað ykkur Draco. Og svo gerði pabbi þinn nokkuð sem Snape gat aldrei fyrirgefið honum.“

„Hvað var það?“

„Hann bjargaði lífi hans.“

„Ha?“

„Já …“ sagði Dumbledore dreyminn á svip. „Það er skrítið hvernig hugur fólks starfar, ekki satt? Snape prófessor gat ekki afborið að standa í þakkarskuld við föður þinn … ég held að hann hafi lagt svona hart að sér við að vernda þig í vetur vegna þess að með því móti hafi honum fundist hann jafna reikningana. Þá gæti hann haldið áfram að hata minningu föður þíns í friði …“

Harry reyndi að skilja þetta en það var svo flókið að höfuðverkurinn tók sig upp að nýju.

„Það er ein spurning í viðbót …“

„Bara ein?“

„Hvernig náði ég steininum út úr speglinum?“

„Ja, ég er feginn að þú spurðir að því. Þetta var ein af mínum snjallari hugmyndum og okkar á milli sagt eru þær nú margar býsna góðar. Sjáðu til, aðeins sá sem vildi finna steininn – finna hann en ekki nota hann – gat náð honum. Hugkvæmni mín kemur jafnvel sjálfum mér stundum á óvart … Jæja, nú er nóg komið af spurningum. Ég legg til að þú ráðist til atlögu við þetta sælgæti. O! Fjöldabragðbaunir Berta! Á mínum yngri árum var ég svo óheppinn að lenda á einni með ælubragði og síðan þá hef ég ekki þorað að snerta þær – en ég held að ég næli mér í eina karamellubrúna. Það ætti að vera öruggt, heldurðu það ekki?“

Hann brosti og stakk gulbrúnni baun upp í munninn. Svo stóð hann á öndinni. „Oj, barasta! Eyrnamergur!“

Forstöðukona sjúkradeildarinnar, fröken Pomfrey, var vingjarnleg kona en afar ströng.

„Bara fimm mínútur,“ þrábað Harry.

„Kemur ekki til greina.“

„Þú hleyptir Dumbledore prófessor inn …“

„Að sjálfsögðu, hann er nú skólastjórinn. Það er allt annað mál. En þú þarft að hvíla þig.“

„Ég er alveg afslappaður, sjáðu, ég ligg hérna sallarólegur. Æ, gerðu það, fröken Pomfrey …“

„Jæja, þá það,“ sagði hún. „En bara í fimm mínútur.“ Og síðan hleypti hún Ron og Hermione inn.

„Harry!“

Hermione virtist langa mest til að fleygja sér um hálsinn á honum, en Harry var feginn að hún skyldi stilla sig um það. Hann var enn með hræðilegan hausverk.

„Ó, Harry, við vorum alveg skíthrædd um þig – Dumbledore hafði svo miklar áhyggjur …“

„Það er ekki talað um annað í skólanum,“ sagði Ron. „Hvað gerðist í raun og veru?“

Þetta var í eitt af þeim fáu skiptum sem raunveruleikinn var jafnvel enn skrítnari og meira spennandi en ótrúlegustu kjaftasögurnar. Harry sagði þeim frá öllu: Frá Quirrell,

speglinum, steininum og Voldemort. Ron og Hermione voru frábærir hlustendur; þau tóku andköf á réttum stöðum og þegar Harry sagði þeim hvað var falið undir vefjarhetti Quirrells rak Hermione upp óp.

„Svo að steinninn er horfinn?“ sagði Ron að lokum. „Og á Flamel þá bara að deyja?“

„Sama sagði ég en Dumbledore sagði að – hvað var það nú aftur sem hann sagði? Já, að dauðinn væri ekkert annað en stórkostlegt ævintýri – fyrir þá sem hafa rétta hugarfarið.“

„Hann er snargeggjaður, það hef ég alltaf sagt,“ sagði Ron fullur aðdáunar á brjáluðu hetjunni sinni.

„En hvað gerðist hjá ykkur?“ spurði Harry.

„Ja, við komumst heilu og höldnu til baka,“ sagði Hermione.

„Mér tókst að vekja Ron úr rotinu – það tók nú sinn tíma – og svo vorum við á leiðinni upp í ugluturninn til að senda boð til Dumbledore þegar við mættum honum í forsalnum. Hann hafði greinilega fundið á sér hvað var að gerast. Hann sagði

bara: „Harry fór á eftir honum, er það ekki?“ og flýtti sér upp á þriðju hæð.“

„Heldurðu að hann hafi ætlast til að þú gerðir þetta?“ spurði Ron. „Það var náttúrlega hann sem sendi þér huliðsskikkjuna.“

„Ég trúi því ekki …“ hrópaði Hermione. „Hvað var hann eiginlega að hugsa – en hræðilegt – þú hefðir getað dáið!“

„Nei, þetta er ekkert hræðilegt,“ sagði Harry hugsi. „Dumbledore er skrítinn kall. Ég held að hann hafi viljað gefa mér tækifæri. Ég held að hann viti nokkurn veginn allt sem gerist hér. Ég hugsa að hann hafi grunað að við myndum reyna þetta og í stað þess að stöðva okkur kenndi hann okkur mátulega mikið til að við gætum bjargað okkur. Ég held að það hafi ekki verið nein tilviljun að ég uppgötvaði Draumaspegilinn. Hann lét mig finna hann og sýndi mér hvernig hann virkaði. Það er eins og honum hafi fundist að ég ætti rétt á því að mæta Voldemort augliti til auglitis …“

„Já, hann er sko stórskrítinn,“ sagði Ron stoltur. „Heyrðu, þú verður að ná þér fyrir skólaslitin á morgun, það verður svaka veisla. Það er búið að telja saman öll stigin og auðvitað vann

Slytherin. Þú misstir af síðustu Quidditchkeppninni. Ravenclaw malaði okkur í klessu af því að það vantaði þig. En skítt með það, maturinn verður frábær.“

Nú kom fröken Pomfrey inn með miklum fyrirgangi.

„Þið eruð búin að vera hérna í næstum korter. Út með ykkur,“ sagði hún ákveðin.

Eftir góðan nætursvefn fannst Harry hann næstum vera orðinn heill heilsu.

„Mig langar að fara í veisluna,“ sagði hann við fröken Pomfrey þegar hún var að reyna að koma reglu á allar sælgætisbirgðirnar á náttborðinu hans. „Má ég það ekki?“

„Dumbledore prófessor sagði að þú ættir að fá leyfi til að fara,“ sagði hún örg eins og henni þætti Dumbledore ekki hafa neinn skiln ing á því hversu lífshættulegar veislur gætu verið. „Það er aftur kominn gestur til þín.“

„En gaman,“ sagði Harry. „Hver er það?“

Hann hafði varla sleppt orðinu þegar Hagrid skáskaut sér inn um gættina. Eins og venjulega þegar Hagrid var staddur innandyra virkaði hann næstum óleyfilega stór. Hann settist við hliðina á Harry, horfði stíft á hann og brast í grát.

„Þetta er – allt – mér – að kenna!“ snökti hann með andlitið í greipum sér. „Ég sagði þessu illfygli hvernig ætti að komast framhjá Hnoðra! Ég kjaftaði frá! Það eina sem hann vissi ekki, það sagði ég honum! Þú hefðir getað dáið! Allt fyrir eitt drekaegg! Ég smakka aldrei dropa framar! Það ætti að reka mig og láta mig búa hjá Muggunum það sem eftir er!“

„Hagrid!“ sagði Harry. Honum var brugðið að sjá Hagrid svona yfirkominn af sektarkennd með stór tárin streymandi niður í skeggið. „Hagrid minn, hann hefði komist að þessu hvort eð er. Við erum að tala um Voldemort. Hann hefði komist að þessu jafnvel þó að þú hefðir ekki sagt honum það.“

„En þú hefðir getað dáið!“ snökti Hagrid. „Og hættu að nefna þetta nafn!“

„Voldemort!“ æpti Harry af öllum lífs og sálar kröftum og Hagrid varð svo mikið um að hann steinhætti að gráta. „Ég hef hitt hann og ætla að kalla hann sínu rétta nafni. Hresstu

þig nú við, Hagrid. Við björguðum steininum, hann er úr sögunni og nú getur Voldemort ekki notað hann. Fáðu þér súkkulaðifrosk, ég á heilt tonn …“

Hagrid þurrkaði sér um nefið með handarbakinu og sagði: „Það minnir mig á það. Ég er með gjöf handa þér.“

„Það er vonandi ekki hreysikattarsamloka!“ sagði Harry kvíðinn og tókst að lokka fram örlítið bros hjá Hagrid.

„Nei, nei. Dumbledore gaf mér frí í gær til að búa hana til. Hann hefði auðvitað átt að reka mig í staðinn. Jæja, hérna er hún …“

Gjöfin var falleg, leðurbundin bók. Harry opnaði hana forvitinn. Hún var full af galdraljósmyndum. Mamma hans og pabbi brostu og veifuðu til hans af hverri síðu.

„Ég sendi uglur til allra gömlu skólafélaga foreldra þinna og bað um myndir … Ég vissi að þú áttir engar. Ertu ánægður með þetta?“ Harry kom ekki upp orði en Hagrid skildi það.

Harry kom einn síns liðs á skólaslitin um kvöldið. Fröken Pomfrey hafði tafið hann því hún heimtaði að fá að rannsaka

hann í síðasta sinn áður en hann færi. Stóri salurinn var orðinn þéttsetinn þegar hann kom. Hann var skreyttur í Slytherinlitunum – grænu og silfruðu – til að fagna sigri þeirra sjöunda árið í röð. Risastór fáni með slöngunni, einkennismerki Slytherin, huldi vegginn fyrir aftan háborðið.

Þegar Harry gekk inn varð skyndilega hljótt í salnum en svo byrjuðu allir að tala hver upp í annan. Hann smeygði sér í sætið á milli Rons og Hermione við Gryffindorborðið og reyndi að láta sem hann sæi ekki alla þá sem stóðu á fætur til að virða hann fyrir sér.

Sem betur fer birtist Dumbledore stuttu síðar. Kliðurinn hljóðnaði.

„Enn eitt árið liðið!“ sagði Dumbledore glaðlega. „Og ég verð að ónáða ykkur örlitla stund með blaðrinu í gömlum manni áður en þið sökkvið tönnunum í þessa dásamlegu veislumáltíð. Þetta hefur verið einstakt ár! Vonandi eru kollarnir á ykkur aðeins fyllri núna en þeir voru í byrjun skólaárs … og nú hafið þið heilt sumar til að njóta þess að tæma þá aftur áður en skólinn hefst að nýju …

En skólaárinu lýkur ekki fyrr en heimavistarbikarinn hefur verið afhentur og svona standa stigin: Í fjórða sæti Gryffindor með þrjú hundruð og tólf stig; í þriðja sæti er Hufflepuff með þrjú hundruð fimmtíu og tvö stig; Ravenclaw er með fjögur hundruð tuttugu og sex stig og Slytherin er í fyrsta sæti með fjögur hundruð sjötíu og tvö stig.“

Mikil fagnaðarlæti brutust út við Slytherinborðið. Harry horfði á Draco Malfoy berja drykkjarbikarnum sínum í borðplötuna. Það var andstyggileg sjón.

„Já, já, vel af sér vikið, Slytherin,“ sagði Dumbledore. „Hins vegar verður ekki hjá því komist að taka nýliðna atburði með í reikninginn.“

Í salnum varð skyndilega dauðaþögn. Bros Slytherinnema dofnuðu örlítið.

„Humm,“ sagði Dumbledore. „Ég ætla að deila út nokkrum stigum svona á síðustu stundu. Látum okkur sjá. Já … fyrst – til herra Ronalds Weasley …“

Ron varð eldrauður í framan; hann leit út eins og sólbrennd radísa.

„… fyrir bestu skák sem tefld hefur verið í Hogwartskóla. Ég úthluta Gryffindor fimmtíu stigum.“

Álagastjörnurnar í loftinu nötruðu undan fagnaðarópum Gryffindornema. Rödd Percys yfirgnæfði alla: „Þetta er bróðir minn! Yngsti bróðir minn! Hann komst framhjá stóru skákmönnunum hennar McGonagall!“

Loks hljóðnaði aftur í salnum.

„Í öðru lagi – vil ég veita ungfrú Hermione Granger stig … fyrir notkun ískaldrar rökvísi frammi fyrir vítislogum. Fyrir það fær Gryffindor fimmtíu stig.“

Hermione faldi andlitið í greipum sér; Harry grunaði sterklega að hún hefði tárast. Gryffindornemar voru í uppnámi – hundrað stig höfðu bæst við.

„Í þriðja lagi – fær herra Harry Potter stig …“ sagði Dumbledore. Það varð dauðaþögn í salnum. „… fyrir ótrúlegt þor og einstakt hugrekki. Fyrir það veiti ég Gryffindor sextíu stig.“

Hávaðinn var ærandi. Þeir sem gátu lagt saman á meðan þeir orguðu sig hása fengu út að Gryffindor hefði nú fjögur hundruð sjötíu og tvö stig sem var nákvæmlega sami stigafjöldi og Slytherin var með. Þau hefðu unnið bikarinn ef Dumbledore hefði aðeins gefið Harry eitt stig í viðbót.

Dumbledore lyfti hendinni og smám saman komst á ró í salnum.

„Það eru til margar gerðir hugrekkis,“ sagði Dumbledore brosandi. „Það krefst mikils hugrekkis að bjóða óvinum sínum birginn en ekki síður að gefa sig ekki fyrir vinum sínum. Því veiti ég herra Neville Longbottom tíu stig.“

Ef einhver hefði staðið fyrir utan Stóra salinn hefði hann eflaust haldið að sprenging hefði átt sér stað þar inni – svo gríðarlegur var hávaðinn sem barst frá Gryffindorborðinu. Harry, Ron og Hermione stóðu upp til að hrópa og fagna en Neville, hvítur í framan, hvarf undir hrúgu af fólki sem vildi faðma hann. Hann hafði aldrei fyrr unnið svo mikið sem eitt stig fyrir Gryffindor. Harry hnippti í Ron og benti á Draco sem var svo agndofa að það var eins og hann væri lamaður.

„Þetta þýðir,“ kallaði Dumbledore yfir gleðilætin, því að Ravenclaw og Hufflepuff fögnuðu líka tapi Slytherin, „að við þurfum að breyta skreytingunni örlítið.“

Hann klappaði saman lófunum. Í sömu andrá varð græna flaggið dimmrautt og silfrið breyttist í gull; stóra Slytherinslangan hvarf og hið glæsilega Gryffindorljón birtist í hennar stað. Snape tók í höndina á McGonagall til að óska henni til hamingju og það sást á þvingaðri brosgeiflunni að það var honum þvert um geð. Hann leit í augun á Harry og Harry vissi samstundis að tilfinningar Snape í hans garð höfðu ekkert breyst. Harry hafði engar áhyggjur af því. Allt virtist vera að komast í eðlilegt horf – eða eins eðlilegt og mögulegt var í skóla á borð við Hogwartskóla.

Þetta varð besta kvöld sem Harry hafði upplifað; betra en sigurinn í Quidditchkeppninni og að rota fjallatröll – já, jafnvel betra en sjálf jólin … þetta kvöld myndi aldrei nokkru sinni líða honum úr minni.

Harry var næstum búinn að gleyma að niðurstöðurnar úr prófunum voru ókomnar. Þegar þær komu sáu Harry og Ron sér til mikillar undrunar að báðir höfðu þeir fengið góðar einkunnir. Hermione var að sjálfsögðu hæst yfir allan skólann

og jafnvel Neville skreið í gegn – góð einkunn í jurtafræði vó upp á móti ótrúlega lágri einkunn í töfradrykkjum. Þau höfðu verið að vona að Goyle, sem var jafn heimskur og hann var illgjarn, yrði rekinn en hann náði líka. Það var til háborinnar skammar en eins og Ron sagði, þá er ekki á allt kosið í þessu lífi.

Einn góðan veðurdag voru skáparnir þeirra tómir og búið að pakka ofan í koffortin, halakartan hans Nevilles fannst úti í horni á klósettinu og miðum var dreift til nemenda með áminningu um að nota ekki galdra í fríinu (…Ég vona á hverju ári að það gleymist að afhenda okkur þessa miða,“ sagði Fred Weasley niðurdreginn). Hagrid fylgdi þeim niður að smábátaflotanum sem sigldi með þau yfir vatnið að lestarstöðinni. Hogwartlestin beið þeirra á sporinu. Þau fundu sér sæti, lestin ók af stað og hlæjandi og masandi fylgdust þau með því hvernig landslagið varð sífellt grænna og snyrtilegra. Þau hámuðu í sig fjöldabragðbaunir Berta um leið og þau þutu framhjá Muggabæjunum, pökkuðu galdraskikkjunum niður og klæddu sig í jakka og kápur. Loks nam lestin staðar fyrir framan brautarpall níu og þrjá fjórðu á King’s Cross-lestarstöðinni.

Það tók þau nokkra stund að komast út af brautarpallinum. Gamall, hrukkóttur vörður hleypti þeim tveimur og þremur í gegn í einu því að það hefði vakið fullmikla athygli ef allur hópurinn hefði komið æðandi gegnum þykkan múrvegginn og Muggarnir hefðu orðið dauðhræddir.

„Þið verðið að koma í heimsókn í sumar,“ sagði Ron við Harry og Hermione. „Bæði tvö – ég sendi ykkur uglu.“

„Takk,“ sagði Harry. „Mér veitir ekki af því að hafa eitthvað til að hlakka til.“

Þau bárust með þvögunni í átt að göngunum inn í Muggaheiminn. Nokkrir kölluðu:

„Bless, Harry!“

„Sjáumst, Potter!“

„Þú ert ennþá frægur,“ sagði Ron og brosti til hans.

„Ekki þar sem ég verð í sumar, því get ég lofað þér,“ sagði Harry.

Hann, Ron og Hermione gengu saman í gegnum göngin.

„Þarna er hann, mamma. Þarna er hann, sjáðu!“

Þetta var Ginny Weasley, litla systir Rons, en hún var ekki að benda á Ron.

„Harry Potter!“ skrækti hún. „Sjáðu, mamma. Ég sé …“
„Hafðu hljótt, Ginny, og það er ljótt að benda.“ Frú Weasley brosti til þeirra.

„Var þetta annasamur vetur?“ spurði hún.

„Mjög,“ sagði Harry. „Takk fyrir karamellurnar og peysuna, frú Weasley.“

„Uss, ekkert að þakka, væni minn.“

„Jæja, þarna ertu! Ertu tilbúinn?“

Þetta var Vernon frændi, eldrauður í framan eins og venjulega og yfirskeggið enn á sínum stað. Hann virtist líka enn vera öskureiður út í Harry fyrir þá ósvífni að láta sjá sig með uglu í búri á lestarstöð troðfullri af venjulegu fólki. Petunia frænka

og Dudley stóðu fyrir aftan hann, dauðskelkuð á svip við það eitt að sjá Harry. „Þið hljótið að vera fjölskyldan hans Harrys!“ sagði frú Weasley.

„Það á víst að heita svo,“ sagði Vernon frændi. „Drífðu þig nú, strákur. Við erum að flýta okkur.“ Hann gekk í burtu.

Harry stóð kyrr, hann langaði að kveðja Ron og Hermione.

„Við sjáumst í sumar, er það ekki?“

„Ég vona að þú hafir það – uhumm – gott í fríinu,“ sagði Hermione og horfði hikandi á eftir Vernoni frænda. Hún trúði því varla að neinn gæti verið svona fráhrindandi.

„Já, það er enginn vafi á því,“ sagði Harry og glotti út undir eyru. Vinir hans horfðu undrandi á hann. „Þau vita ekki að okkur er bannað að nota galdra heima hjá okkur. Ég held að ég eigi eftir að skemmta mér vel með Dudley í sumar …“